# IÐUNN,

## mánaðarrit
## til skemmtunar og fróðleiks.

---

Ritstjórn:

Björn Jónsson, Jón Ólafsson,
Steingrímur Thorsteinsson.

FYRSTA BINDI.

Önnur prentun.

Reykjavík.
Ísafoldarprentsmiðja.
1892.

# Efni:

# Sigrún á Sunnuhvoli.

## Saga

eptir

## Björnstjerne Björnson.

### Fyrsti kapituli.

Það er oft í stórum dölum, að hár hvoll rís upp á jafnsléttu í miðjum dalnum, og stafar því geislum á hann frá sólarupprás til sólsetrs. Og þeir, sem búa þéttara uppi undir fjallshlíðunum, nefna þá hvolinn sunnuhvol. Mær sú, er saga þessi greinir frá, átti heima á slíkum hvoli, og bar bærinn nafn af því. Þar lagði síðast snjó að á haustum, og þar leysti fyrst undan fönn á vorin.

Sunnuhvols-fólkið var áhanganda-fólk Níelsar frá Haugum[1], og var kallað lesarar, því að það lét sér

1) Níels frá Haugum (Níels Hauge), f. 1771, † 1824, var bóndason norskr og eins konar aftrhvarfs-postuli. Áhangendr hans eru margir enn í Noregi, hata allan glaum og

annara um en annað fólk að lesa í ritningunni. Þau hjónin áttu sjálf jörðina, og hét bóndinn Guttormr, en konan Katrín. Dreng eignuðust þau, er þau mistu, og komu þau aldrei austr fyrir kyrkjugafl í þrjú ár á eftir. Að þeim tíma liðnum eignuðust þau dóttur og nefndu hana eftir sveininum; hann hafði heitið Sigurðr, og hún var skírð Sigrún, því að þeim hugkvæmdist ekki annað líkara. Þegar fram liðu stundir, var það flestra manna mál, að í því bygðarlagi hefði ekki í manna minnum svo fögr mær uppvaxið sem Sigrún á Sunnuhvoli. Hún var ekki gömul, þegar foreldrar hennar fóru að taka hana með sér til kyrkju hvern sunnudag, er messað var, og hafði hún þó í fyrstu ekki betr vit á en svo, að hún hugsaði, að prestrinn væri að skamma út Bent »slafa«, sem hún sá sitja beint fram undan prédikunarstólnum. Samt vildi faðir hennar hafa hana með— »til að venja hana við«, sagði hann; móðir hennar vildi það líka, »því enginn gæti vitað, hvernig hennar kynni að verða gætt heima á meðan«. Ef óþrif komu í lamb eða kiðling eða grís þar á bænum, eða kýr hafnaðist illa, þá var það ávalt gefið Sigrúnu, og þóttist móðir hennar hafa tekið eftir því, að upp frá þeirri stund batnaði skepnunni; faðir hennar var nú reyndar ekki fulltrúa á, að það kæmi af því, en

---

veraldar-glaðværð, telja spil og dans syndsamlagt athæfi, en lesa mjög í ritningunni og eru því nú oft nefndir lesarar. Lesarar eru þunglyndir oftast og ávalt alvörumiklir, en oft nokkuð dómharðir um aðra og tortrygnir við þá, yfir höfuð eru þeir mjög vandað fólk; en hitt er auðvitað, að það ber við, að óvandaðir menn taka á sig lesara-gervi til að dylja ódrengskap sinn eða fyrir hagsmuna sakir. *Þýð.*

hann kvað það, hvort sem væri, standa á sama, hver gripinn ætti, ef hann að eins þrifist.

Öðru megin í dalnum þétt uppi undir háu fjalli lá bær sá, er hét Grenihlíð, og var það nafn af því dregið, að bærinn lá mitt í stórum greniskógi, og var það eini skógrinn í öllu því bygðarlagi. Langafi eigandans, sem nú var, hafði verið einn með öðrum í liði því, er sent var suðr til Holtsetalands og beið þar Rússa, og úr þeim leiðangri kom hann heim með í hernaðar-tösku sinni margar erlendar og undarlegar frætegundir. Hann plantaði þær umhverfis bæ sinn; en með tímanum dóu þær út hver eftir aðra; að eins nokkrir grenikönglar, sem einhvern veginn höfðu slæðzt þar með, höfðu blómgazt og orðið að stórum skógi, sem skygði nú að húsunum á alla vegu. Holtsetalands-fari þessi hafði heitið Þorbjörn eftir afa sínum; elzti sonr hans Sæmundr eftir föður hans, og þannig höfðu eigendr jarðarinnar heitið á víxl Þorbjörn og Sæmundr alt frá ómunatíð. En það orð lék á, að aldrei fylgdi hamingjan nema öðrum hvorum feðga á víxl í allri þeirri Grenihlíðar-ætt, og það var aldrei sá, sem Þorbjarnarnafnið bar. Sá hét Sæmundr, sem nú átti jörðina, og fyrst er honum fæddist sonr, var hann á báðum áttum, hvað úr skyldi ráða, en hafði þó ekki í fullu tré með að brjóta fornan ættarsið, og lét því sveininn heita Þorbjörn. Var hann mjög hugsandi um það, hvort eigi mundi mega takast að ala drenginn svo upp, að ekki yrði honum að fótakefli sá forlagasteinn, er munnmæli manna höfðu orpið á æfibraut hans. Hann var ekki alveg viss um það, en honum f a n s t hann verða var við stórlyndis-vott í

stráknum. »Það verðr að uppræta það«, sagði hann við móður hans; og þegar er Þorbjörn var þrévetr, settist faðir hans oft niðr með vönd í hendinni og knúði svo drenginn til að bera á sinn stað aftr hverja spýtu, sem hann hafði dregið aflaga, taka upp bollann, sem hann hafði fleygt í gólfið, og klappa kettinum, sem hann hafði klipið. En þegar þetta kom að Sæmundi, fór húsfreyja venjulega fram.

Það þótti Sæmundi kynlegt, að því eldri sem drengrinn varð, því fleira var það í fari hans, er leiðrétta þurfti, og það þótt Sæmundur gjörðist honum æ strangari. Hann hélt honum snemma til bókarinnar, og hafði hann með sér þegar hann var við útivinnu, svo hann gæti haft auga á honum. Húsfreyja hafði stórt heimili að annast og fullt hús barna; hún gat ekki meira að gjört en klappa Þorbirni og áminna hann á hverjum morgni, þegar hún klæddi hann, og tala hljótt við föður hans, þegar þau voru öll saman á helgidögum. En þegar Þorbjörn var barinn fyrir það, að *a* og *b* var *ab*, en ekki *ba*, eða fyrir það, að hann mátti ekki gefa Ingiríði litlu systur sinni ráðningu, eins og faðir hans gaf honum, þá hugsaði hann með sjálfum sér: »Það er þó merkilegt, að ég skuli eiga svona slæmt, og að öll litlu systkinin mín skuli eiga svo gott«.

Þorbjörn var oftast með föður sínum, en við hann þorði hann fátt að tala, og varð hann því fámáll, en hugsaði því fleira. Einu sinni er þeir voru að rifja vott hey, skrapp þó upp úr honum að segja: »Af hverju er allt heyið orðið þurt og komið í hús þarna yfir á Sunnuhvoli, og hér er það vott enn?«—»Af því að þeir hafa oftar sól þar en við hér«.—Hann hafði oft haft ánægju af að horfa á sólskinið þar fyrir

handan, en aldrei tekið eftir því fyrri en nú, að hann var sjálfr fyrir utan það sólskin. Eftir þennan dag rendi hann oftar en áðr augum yfir að Sunnuhvoli. »Sittu' ekki þarna glápandi!« sagði faðir hans og ýtti við honum; »okkur hérna veitir ekki af að erja, alt sem við megnum, bæði ungum og gömlum, ef við eigum að hirða nokkurt strá«.

Um það leyti er Þorbjörn var um 7 eða 8 ára að aldri, urðu vinnumannaskifti hjá Sæmundi. Áslákr hét nýi vinnumaðrinn, og hafði þegar flækzt víða, þótt hann væri unglingr að aldri. Kveldið, sem hann kom í vistina, var Þorbjörn háttaðr; en daginn eftir þegar hann sat og var að lesa í stafrófskverinu, var hurðinni hrundið upp með þvílíku sparki, að hann hafði aldrei heyrt slíkan aðgang fyr, og það var Áslákr, sem kom ganandi með stóreflis viðar-fang — þeytti því með slíku kasti á gólfið, að brenniskíðin hrutu í allar áttir. Sjálfr hoppaði hann hátt upp, til að stappa af sér snjóinn, og við hvert hopp kallaði hann: »Það er kalt, sagði skessan, hún sat í ís upp að beltisstað!« Bóndi var ekki inni, — en húsfreyja sópaði saman snjónum og bar hann út þegjandi. »Á hvað ertu þú að góna?« sagði Áslákr við Þorbjörn. — »Ekki á neitt«, svaraði hann; því honum fór ekki að verða um sel. — »Hefirðu séð hanann, sem er aftast í kverinu þessu?«—»Já.« — »Það er fult af hænsum kringum hann, þegar kverið er látið aftr; — hefirðu séð það?« — »Nei.«— »Reyndu!«— Drengurinn gjörði það.—»Þú ert þorskr!« sagði Áslákr við hann. — En upp frá þeirri stund hafði enginn slíkt vald yfir honum sem Áslákr.

»Þú kannt ekkert«, sagði Áslákur einn dag við Þorbjörn, þegar Þorbjörn sem oftar rann á hælun-

um á honum, til að taka eftir. »Jú, ég kann út að fjórða kapítula«. — »Og svei! Nei, þú hefir ekki einu sinni heyrt um tröllkarlinn, sem dansaði við stúlkuna, þangað til sól rann upp og hann sprakk eins og kálfr, sem drukkið hefir súrmjólk! Á sinni lífsfæddri æfi hafði Þorbjörn aldrei heyrt svona mikinn fróðleik í einu. »Hvar var það?« spurði hann. »Hvar?—Jú það—jú, það var þarna yfir á Sunnuhvoli!« Þorbjörn starði hissa. »Hefirðu heyrt um manninn, sem seldi sig fjandanum fyrir eina skinnsokka?« Þorbirni varð orðfall, svo hlessa var hann. »Þú ert líklega að hugsa um, hvar það hafi verið — hvað? — — Það var líka þarna yfir á Sunnuhvoli, þarna þráðbeint niðri í læknum, sem þú sér! — — — Herra trúr! Kristindómsþekkingin þín, Tobbi, sú er ekki á marga fiska!« sagði hann enn fremr. »Þú hefir líklega ekki einu sinni heyrt getið um hana Katrínu trépilzu?« Nei, um hana hafði hann ekkert heyrt. Og meðan Áslákr vann nú sem óðast, bar hann enn óðara á að segja sögurnar — bæði um Katrínu trépilzu; um kvörnina, sem malaði salt á mararbotni; um kölska á trésköm; um tröllkarlinn, sem festi skeggið í tréstofninum; um sjö grænu jómfrúrnar, sem reyttu líkhárin af fótleggjunum á honum Byssu-Brandi, meðan hann svaf og gat aldrei vaknað; og alt hafði þetta fram farið á Sunnuhvoli. »Hvað, í herrans bænum, er um að vera með drenginn?« sagði móðir hans daginn eftir. »Þarna hefir hann legið á hnjánum í bekknum síðan lýsti og mænt yfir að Sunnuhvoli«. — »Já, hann á annríkt í dag«, sagði faðir hans, sem lá og hvíldi sig, af því að sunnudagr var. »Ó, þeir eru að segja, hann sé búinn að fastna sér hana Sigrúnu á Sunnuhvoli«, sagði Ás-

lákr; »en það er nú svo margt skrafað«, bætti hann við. Þorbjörn skildi hann reyndar ekki til fulls, en kafroðnaði samt allr í framan. En þegar Áslákr fór að hafa orð á því, að hann roðnaði, þá skreið hann niðr af bekknum, tók kverið sitt og fór að lesa. »Já, hugga þú þig með guðsorði, drengr minn«, sagði Áslákr; »hana færð þú þó aldrei hvort sem er«.

Þegar svo langt var liðið fram í vikuna, að hann hélt þetta væri gleymt, þá spurði hann móður sína í hljóði (því að hann kom sér varla að því): »Heyrðu,— hver er þessi Sigrún á Sunnuhvoli?«—»Það er dálítil stúlka, sem einhvern tíma á að eignast Sunnuhvolinn«. —»Hefir hún þá ekkert trépilz?« Móðir hans horfði forviða á hann; »hvað ertu að segja, barn?« sagði hún. Hann skildi þá, að hann hafði sagt einhverja heimsku, svo hann þagnaði. »Aldrei hefir neinn séð fallegra barn en hún er«, sagði svo móðir hans, »og það hefir guð gefið henni, af því að hún er alt af svo væn og góð og iðin að lesa«. Nú vissi hann þá það líka.

Einn dag hafði Sæmundr verið úti við sem oftar með Ásláki. Þegar hann kom heim um kveldið, sagði hann við Þorbjörn: »Þú mátt ekki vera með Ásláki framar«. Þorbjörn gaf því lítinn gaum. Nokkru síðar segir faðir hans við hann: »Ef ég finn ykkur Áslák oftar saman, þá skaltu sjálfan þig fyrir hitta!« Eftir það læddist Þorbjörn til Ásláks, þegar faðir hans sá ekki til. En svo kom hann að þeim, þar sem þeir sátu og voru að spjalla saman; þá fékk Þorbjörn ráðningu og var rekinn inn. En eftir það stalst hann til Ásláks, þegar faðir hans var að heiman.

Einn sunnudag, þegar faðir hans var í kyrkju,

varð Þorbjörn heldr óþarfr heima. Hann var í snjókasti við Áslák. »Æ nei, nei! þú kæfir mig!« sagði Þorbjörn; »við skulum heldr kasta í eitthvað báðir saman». Áslákr var undir eins til í það. Svo reyndu þeir fyrst að hæfa litla grenitréð hjá búrinu, svo búrhurðina og loksins búrgluggann—ekki gluggann sjálfan, sagði Áslákr, heldr gluggakarminn. Þorbjörn hæfði nú samt eina rúðuna í staðinn, og fölnaði upp. »Tarna! Hver ætli komist eftir því? Kastaðu betr!« Þorbjörn gjörði það, en hitti aðra rúðuna til. »Nú kasta ég ekki meira«. Í því bili kom elzta systir hans, Ingiríðr litla, út. »Kastaðu í h a n a!« Þorbjörn var undir eins til í það; stúlkan fór að gráta, og nú kom móðir þeirra út. Hún sagði honum að hætta. »Kastaðu, kastaðu!« hvíslaði Áslákr að honum. Þorbjörn var orðinn heitr og æstr; hann gjörði eins og Áslákr sagði honum. »Ég held þú sért frá vitinu!« sagði móðir hans og hljóp að honum. Hann hélt undan, hún á eftir—alt í kring um bæinn; Áslákr hló að Þorbirni, en móðir hans ógnaði honum. Loksins náði hún honum uppi í skafli og fór að lemja hann. «Ég ber þig aftr; það er manna siðr«.—Móður hans féllust höndr, og horfði forviða á hann. »Þetta hefir einhver annar kent þér«, sagði hún svo, tók þegjandi í hönd honum og leiddi hann inn. Hún talaði ekki orð til hans meira, en lét vel að hinum börnunum og fór að tala við þau um, að senn kæmi pabbi heim frá kyrkjunni. Þá fór sumum að þykja fullheitt í stofunni. Áslákr bað um leyfi til að skreppa á bæ; það fékk hann þegar; þá fór nú að verða alt minna úr Þorbirni þegar Áslákr var farinn. Hann fékk ónota-magakveisu, og svitnaði svo á höndunum, að

hann kámaði blöðin í bókinni sinni. Æ, ég vildi hún vildi nú ekki segja pabba frá neinu, þegar hann kemr heim; en hann gat ekki af sér fengið að biðja hana um það. Það var eins og alt, sem hann leit á, breytti útliti, og stofuklukkan á veggnum segði: »fleng-ing—fleng-ing—fleng-ing—fleng-ing!« Hann varð að fara út að glugga og horfa yfir að Sunnuhvoli. Hann lá þar einn snæþakinn í kyrrð og glóði við sól eins og vant var. Þar stóð húsið, og var sem bros léki á hverri rúðu, og víst var um það, að engin þeirra var brotin; reykrinn þyrlaðist svo glaðlega upp úr reykháfnum, svo hann þóttist skilja, að þar væri líka verið að elda handa kyrkjufólkinu. Þar var ugglaust Sigrún úti, að horfa eftir föður sínum, og átti sjálfsagt ekki von á neinni flengingu, þegar hann kæmi heim. Hann vissi ekki, hvað hann átti af sér að gjöra, og fór alt í einu að verða svo góðr við systur sínar, að engu tali tók. Við Ingiríði var hann svo góðr, að hann gaf henni spegilfagran hnapp, sem Áslákr hafði látið hann fá. Hún hljóp upp um hálsinn á honum og hann faðmaði hana að sér: »Elsku-góða Inga mín, ertu reið við mig?« — »Nei, aumingja Þorbjörn; þú mátt gjarnan kasta í mig svo miklum snjó sem þú vilt!« En nú var einhver að stappa snjóinn af sér fyrir utan dyrnar! Það stóð heima, það var faðir hans; hann sýndist svo blíðlegr og í góðu skapi, og það var enn þá verra. »Nú, nú?« sagði hann og litaðist um, — og það var mikið að klukkan skyldi ekki detta niðr af veggnum. Húsfreyja bar á borið. »Hvernig líðr hérna?« spurði bóndi um leið og hann settist og tók skeiðina í hönd sér. Þorbjörn leit til móður sinnar með tárin í augunum. »Svo-na!« svaraði hún ótrúlega seint, og

Þorbjörn þóttist sjá, að hún ætlaði að segja meira. »Ég leyfði Ásláki að bregða sér að heiman«, sagði hún.—»Frestr er á illu beztr» hugsaði Þorbjörn—hann tók að leika sér við Ingiríði, og lét sem ekkert væri. Svona lengi hafði faðir hans aldrei verið að éta, og loks tók Þorbjörn að telja hvern bita; en þegar hann var kominn að þeim fjórða, datt honum í hug að reyna, hvað hátt hann gæti talið milli fjórða og fimta bita, og á því fipaðist hann í bitatölunni. Loksins stóð faðir hans upp og gékk fram. Hann fékk eins og rúðubrotshljóm fyrir eyrun, og hann fór að gæta að, hvort rúðurnar í stofunni væru heilar. Jú, þær voru allar heilar. En nú fór móðir hans fram líka. Þorbjörn tók Ingiríði litlu í fang sér og sagði svo blíðlega, að hún starði á hann og vissi ekki, hvaðan á sig stóð veðrið: »Eigum við ekki að leika gulldrottning á engi?« Jú, það vildi hún fegin. Og svo söng hann, titrandi á beinum:

Engja-blómi,
bala sómi,
heyrðu, heillin mín!
Viltu' ekki kærastinn verða minn?
Svo vænan gef ég þér kyrtilinn
með perluskrúð skært
og gullið glært.
Korriró og dillidó —
Sólin gyllir grund og mó.

Svo svaraði hún:

Gulldrotning,
perludrottning,
heyrðu, heillin mín!
Ég vil ekki kærastinn verða þinn,
èg vil ekki þiggja' af þér kyrtilinn
með perluskrúð skært

og gullið glært.
Korriró og dillidó —
Sólin gyllir grund og mó.

En þegar þau voru í bezta gæti að leika sér, kom faðir þeirra inn og hvesti á hann augun. Hann þrýsti Ingiríði fastara í fang sér, og datt als ekki niðr af stólnum. Faðir hans snéri sér undan, sagði ekki neitt; svo leið ein hálf stund að hann sagði ekki neitt, — og Þorbjörn var nærri því farinn að hugsa um að verða glaðr, en hann þorði það ekki. Hann vissi ekki, hvað hann átti að hugsa, þegar faðir hans hjálpaði honum sjálfr til að afklæða sig; það fór að fara smátitringr um hann aftr. Þá klappaði faðir hans á kollinn á honum og strauk á honum kinnina. Það hafði hann ekki fyr gjört alla þá tíð, sem Þorbjörn til mundi, og því hitnaði honum svo um hjartarætrnar og allan kroppinn, að óttinn rann af honum eins og ís fyrir sólbráð. Hann vissi ekki, hvernig hann komst í rúmið, og með því að hann gat hvorki farið að syngja né kallað upp yfir sig, þá lagðist hann grafkyrr og krosslagði hendrnar og las faðirvor sex sinnum áfram og sex sinnum aftr á bak, undr lágt — og það fann hann, þegar hann sofnaði, að það var þó enginn í öllum heiminum, sem honum þótti eins vænt um, eins og föður sinn.

Morguninn eftir vaknaði hann í ógrlegri sálarangist yfir því, að hann gat engu hljóði upp komið; því strýkingu átti hann nú samt sem áðr að fá. Þegar hann lauk upp augunum, þá var honum mikil hugléttir að sjá, að þetta hafði ekki verið nema draumr; en þó varð hann þess brátt var, að það var annar, sem átti ráðningu yfir höfði sér, og það var Áslákr.

Sæmundr gékk um gólf fram og aftr, og það göngulag þekti Þorbjörn helzt til vel. Sæmundr var maðr í lægra lagi, en þrekvaxinn, loðbrýnn, og af því augnaráði, sem nú kom undan þeim loðnu brúnum, þóttist Áslákr kenna, hvert veðr bjó í lofti. Áslákr sat á botninum á stórri tunnu og dinglaði fótunum. Hann var með hendrnar í vösunum, eins og hann var vanr, og húfuna aftr á hnakka, svo að hárið, sem var þykt og svart, hékk í togum fram undan skygninu. Munnrinn var í verunni dálítið skeifr, en nú í skakkasta lagi; hann hallaði nú ögn undir flatt og gaut hornauga til Sæmundar með hálfopnum augum. »Já, strákrinn þinn er nú fullbaldinn, en verra er hitt, að tröllin hafa ært hestinn þinn«. Sæmundr nam staðar; »þú ert óþokki!« sagði hann, svo drundi við í stofunni, og Áslákr lygndi augunum enn meira aftr. Sæmundr gékk um gólf á ný; Áslákr sat kyrr stundarkorn. »Já, víst hafa töllin ært hann; það er greinilegt!« sagði Áslákr og gaut augunum eftir Sæmundi, til að sjá, hvernig þetta verkaði á hann. »Ónei, en hann er skógfælinn«, sagði Sæmundr og gékk enn um gólf; »þú hefir felt á hann tré í skóginum, ódráttrinn þinn, og því ræðr enginn við hann framar í skógi«. Áslákr hlýddi á þetta um stund. »Jæja, trú þú því, sem þér bezt líkar. Trúin lætr engum til skammar verða. En ég efa samt, að hún gjöri hestinn þinn saman aftr«, bætti hann við, og ók sér um leið lengra upp á tunnuna og bar handlegginn fyrir höfuðið. Það stóð líka heima, að Sæmundr snaraðist að honum og sagði lágt að vísu, en býsna reiðulega: »Þú ert óræstis- — —»— »Sæmundr!« sagði Ingibjörg kona hans rétt í því; hún sat við arninn, en þaggaði nú niðr í

honum, eins og yngsta barninu, sem var hrætt og ætlaði að fara að skæla. Barnið hafði þagað áður, og nú þagnaði líka Sæmundr; en hnefann reiddi hann þétt upp að nösum Ásláks; var hnefinn mjög smár á svo þrekvöxnum manni; Sæmundr hélt hnefanum þar um stund og beygði sig fram um leið og horfði framan í Áslák, og var sem honum brynni eldr úr augum. Síðan gekk hann um gólf sem fyr og leit snöggvast til Ásláks við og við. Áslákr var mjög fölr, og var þó hlátr á hálfu andlitinu, þeim megin, er að Þorbirni vissi, en mesti alvörusvipr hinu megin, sem að Sæmundi snéri. »Drottinn góðr gefi oss gott þolgæði!« sagði hann eftir litla hríð, en brá um leið ölnboganum upp, eins og til að bera fyrir högg. Sæmundr stanzaði hvatlega og sagði byrstur með fylsta rómi sínum, og stappaði í gólfið um leið, svo að Áslákr hrökk saman: »Nefndú hann ekki — þú!« Ingibjörg stóð upp með ungbarnið í fanginu og tók hæglátlega í handlegg honum. Hann leit ekki við henni, en feldi þó aftr handlegginn, sem hann hafði reitt til höggs. Hún settist niðr, en hann gékk aftr um gólf; enginn mælti orð frá vörum. Eftir stundarlanga þögn byrjar Áslákr á ný: »Já, hann hefir víst mikið að gjöra hér í Grenihlíð!« — »Sæmundr! Sæmundr!« sagði Ingibjörg hljótt; en áðr en það næði Sæmundi, hafði hann snarazt að Ásláki; Áslákr spyrnti fæti á móti, en Sæmundr tók í knésbót honum og beygði fótinn; hélt hann því taki annari hendi, en þreif hinni í hálsmálið á treyju Ásláks, hóf hann á loft og kastaði honum á lokaða hurðina, og gékk fellingin úr hurðinni og Áslákr öfugr á höfuðið út um gatið. Húsfreyja, Þorbjörn og öll börnin æptu og báðu Ásláki vægðar, og heyrðist ekki nema

óp og kveinstafir í öllu húsinu. En Sæmundr út á eftir honum, og var hann þá svo óðr, að hann gleymdi að ljúka upp hurðinni, heldr sló út það, sem eftir var af henni, og fór út um gatið. Tók hann nú til Áslåks og hóf hann upp annað sinn, bar hann fram af svalgólfinu[1] og út á hlaðið, hóf hann þar hátt á loft og kastaði honum svo niðr af alefli. En sem hann varð þess var, að þar var of þykk fönn, til þess að Áslákr gæti kent til að marki, setti hann kné fyrir brjóst honum og grúfði sig fast að andliti hans, hóf hann enn upp ið þriðja sinn, bar hann þangað, sem auðari var jörð, eins og úlfr, sem dregr sára-flakandi hund, fleygði honum aftr óþyrmilegar en fyr, lét svo kné fylgja kviði — og er bágt að vita, hver þar hefðu leikslok orðið, hefði ekki Ingibjörg komið þjótandi með unga barnið í fanginu. »Gáðu að Guði, og vinndu þér ekki til voða, maðr!« æpti hún.

Stundu síðar sat Ingibjörg aftr í stofunni, Þorbjörn var að klæða sig, en Sæmundr gékk um gólf, og saup endr og sinnum á vatni; en höndin skalf svo á honum, að vatnið skvettist úr bollanum og slettist út um gólfið. Ekki kom Áslákr inn, og eftir litla stund bjóst Ingibjörg út að ganga. »Vertu inni«, sagði Sæmundr, og þó ekki eins og hann snéri orðum til hennar, en hún settist aftr. Skömmu síðar gékk hann þó út sjálfr. Hann kom ekki inn aftr. Þorbjörn tók kverið sitt, þuldi án afláts og leit ekki upp úr, en festi þó ekki svo mikið sem eina setningu í hug af því, sem hann fór með.

Síðar, er á leið morguninn, var alt í sínum gömlu

1) Svo nefnist trépallr fyrir framan húsdyrnar á bæj- í Noregi. *Þýð.*

skorðum á heimilinu, og þó var öllum sem nýriðinn væri ókendr gestr um garð. Þorbjörn hætti á að koma út, og sá fyrsti, sem hann mætti utan stokks, var Áslákr; hafði hann borið allan farangr sinn á sleða; en sleðann átti Þorbjörn. Þorbjörn starði á hann, því að hann var ófrýnn ásýndum. Hann var blóðstorkinn um alt andlitið, var smá-hóstandi og tók oft höndinni fyrir brjóstið. Hann horfði um hríð þegjandi á Þorbjörn og sagði svo heldr hást: »Illa geðjast mér þessi augu í þér, strákr!« Með það settist hann klofvega á sleðann og rendi sér ofan brekkuna. »Þú getr nú vitað til, hvar þú finnr sleðann þinn!« sagði hann, og hló um leið og hann snéri vér við að Ásláki enn einu sinni og rak út úr sér tunguna. Þannig fór Áslákr af bænum.

En vikuna þar á eftir kom sýslumaðr þangað; Sæmundr varð stundum að fara að heiman, Ingibjörg grét, og hún varð einnig að fara að heiman nokkrum sinnum. »Hvernig stendr á þessu, mamma?« — »O, því hefir Áslákr öllu valdið«.

Svo einn góðan veðrdag urðu þau vör við, að Ingríðr litla var að syngja þetta:

Lifðu vel, ljúfasti heimur!
leiður er mér þinn sveimur;
stelpan snýst um strokkinn kring,
strákrinn verður að umskipting,
í fletinu hímir húsbóndinn,
en húsfreyjan þynnir vatnsgrautinn;
kisa er hygnust í kotinu,
hún kýlir vömb sína' á flotinu.

Það var farið að rekast eftir, hvar hún hefði lært þessa vísu. Jú, Þorbjörn hafði kent henni. Hann varð dauðhræddr og sagðist hafa lært hana af Ásláki. Honum var þá sagt, að ef hann syngi sjálfr

eða kendi henni fleiri slíkar vísur, þá yrði hann barinn. Rétt á eftir varð Ingiríði litlu það á að blóta. Aftr var kallað á Þorbjörn, og Sæmundr sagði það væri bezt að láta hann kenna á vendinum þegar í stað; en hann grét og lofaði öllu fögru, svo að hann slapp í þetta sinn.

Næsta sunnudag, sem messað var, sagði faðir hans við hann: »Það er nú bezt að þú gjörir engan óskunda af þér heima í dag, og skalt þú nú fara með mér til kyrkju«.

---

## Annar kapituli.

Alþýð maðrinn hefir háar hugmyndir um kyrkjuna. Hann hugsar sér hana ávalt út af fyrir sig, friðlýsta, með grafanna þögulu tignar-ró umhverfis, en messugjörðarinnar lifandi athöfn inni. Hún er eina húsið í dalnum, sem hann hefir kostað nokkru skrauti til, og því mænir og turnspíra hennar nokkuð hærra en hún sýnist að ná. Þegar hann gengr til kyrkju heiðskíran sunnudagsmorgun, heilsa kyrkjuklukkurnar honum langt álengdar, og hann tekr ávallt ofan fyrir þeim, eins og hann væri að þakka þeim fyrir síðast. Það er eitthvert það samband milli hans og þeirra, sem enginn þekkir. Á æskualdri stóð hann í bæjardyrum og hlustaði á þær, meðan hæglátir hópar af kyrkjufólki fóru hjá fyrir neðan garð. Faðir hans bjóst þá til kyrkju, en sjálfr var hann enn of ungr til þess. Margar hugmyndir vöknuðu þá í brjósti hans við þennan þunga, sterka

hljóm, sem bergmálaði milli fjallanna eina eða tvær stundir; ein hugsun var þeim óaðskiljanlega samtengd: hrein, ný föt, bjartar meyjar, gljákembdir eykir og fáguð aktygi.

Og svo er hann einn sunnudag sjálfur í þriðja himni, í spánýjum fötum, sem sniðin eru heldr mikið við vöxt, og gengr heldr státinn við hlið föður síns. Það er fyrsta kyrkjuferðin hans. En sá gleðihljómr, sem þá er í kyrkjuklukkunum! Þá er eins og að þær hringi upp allar dyr framtíðarhugsjóna hans. Og á heimleiðinni dunar hljómr þeirra enn fyrir eyrum honum, og í þessum þunga, vaggandi hljómi svífr enn þá, hvað innan um annað, sálmasöngr, tón og prédikunarorð, og innan um þetta sveima samhliða allar þær myndir, sem fyrir augun báru, altaristaflan, búningar og ókunn andlit; — og þá myndar einnig hljómr þeirra, eitt skifti fyrir öll, eins konar hvelfingu yfir öll þessi áhrif í einu, og vígir þannig ina minni kyrkju, sem upp frá því býr í hugskoti hans.

Svo verðr hann nokkru eldri, og þá verðr hann að liggja í seli yfir búsmala uppi í heiði. Svo sitr hann á smalasteini einn fagran og döggríkan sunnudagsmorgun, búsmalinn allr í breiðu fyrir neðan hann með klingjandi bjöllum um háls og í hornum; en bjölluglamrið hverfr alveg fyrir klukkuhljómnum frá kyrkjunni, og verður honum þá þungt í skapi. Því það er eitthvað bjart og létt og laðandi í þessum klukkuhljómi neðan úr dalnum, endrminning um kunningjafólk við kyrkjuna, glaðværðin þar, og þá ekki síðr á heimleiðinni, góðgætismatr þegar heim kemr, foreldrar, systkini, leikr barnanna úti á

túni á sunnudagskveldið, — endrminningin um alt þetta svífr honum fyrir sjónir, og hjartað litla gjörir uppreisn í inu unga brjósti. En leikslokin verða þó alt af þau, að hann minnist þess, að það vóru kyrkjuklukkurnar, sem hljómuðu; svo rennr honum í hug eitthvert sálmvers, sem hann kann; það syngr hann með krosslögðum höndum og rennir hugsjúku auga ofan í dalinn, biðr svo stuttan bænarstúf á eftir, stökkr svo upp, kátr og glaðr, og þeytir lúðrinn[1] sinn, svo að bergmálar í fjöllunum.

Hér í inum kyrlátu fjalldölum talar kyrkjan enn þá með sínum rómi til manna á hverju aldrsskeiði og sérhver lítr hana sínum eigin hugaraugum; mörgu skýi getr fyrir brugðið, en aldrei byrgir neitt hana gjörsamlega. Hún stendr fullvaxin og þroskuð fyrir fermingarbarninu,—með upplréttum fingri, hálfaðvarandi, hálf-bendandi fyrir æskumanninum, sem kosið hefir sitt lífsins hlutskipti,—herðibreið og sterk yfir harmi mannsins,—rúmgóð og mild hvelfist hún yfir örþreyttan öldunginn. Í miðri guðsþjónustunni eru ungbörnin færð í kyrkjuna og skírð, og það er alkunnugt, að meðan á þeirri athöfn stendr, er fjálgleikinn[2] mestr.

Enginn getr því lýst norskum alþýðumönnum, spiltum né óspiltum, svo að kyrkjan komi þar ekki líka við söguna. Það kann að þykja tilbreytingarleysi, en er þó, ef til vill, ekki sízta tilbreytingarleysið. Þess skal hér getið eitt skipti fyrir öll, en ekki beinlínis sakir kyrkjuferðar þeirrar, er hér skal afsagt.

1) Norskir seljasmalar hafa jafnaðarlega lúðr, sem þeir þeyta til að hóa saman fénaðinum.

2) „Fjálgleiki“ er eina íslenzka orðið, sem til er yfir „andagt.“ *Þýð.*

Þorbjörn hlakkaði mjög til ferðarinnar og þess, er fyrir mundi bera; honum varð æði marglitt í augum úti fyrir kirkjunni og fann hann til þess kyrlætisþunga, sem yfir öllum og öllu hvíldi í kyrkjunni áðr en guðsþjónustan byrjaði; og þótt hann gleymdi sjálfr að lúta höfði meðan bænin var lesin, þá var þó eins og hann fyltist lotningar við að sjá nokkur hundruð manna hneigja höfuð sín. Svo kom söngrinn, og allir sungu í einu alt í kring um hann, svo að honum þótti nóg um, og sat hann í þeirri leiðslu, að hann hrökk upp eins og af draumi við það, að faðir hans lauk upp stólsætinu, sem þeir sátu í, fyrir manni, sem kom þar inn og settist hjá þeim. Þegar úti var sálmrinn, tók faðir hans í hönd manni þessum og spurði hann: »Hvernig líðr á Sunnuhvoli?«

Þorbjörn rak upp stór augu; en hversu sem hann glápti, þá var ekkert galdralegt né tröllskaparlegt við þennan mann. Það var góðmannlegr, bjartleitr maðr, stóreygr, bláeygr, ennibreiðr og hár í sessi; hann brosti þegar við hann var mælt; játti öllu, sem Sæmundr sagði, en var fámáll annars. — »Þarna getrðu nú séð hana Sigrúnu á Sunnuhvoli,« sagði faðir Þorbjarnar og laut að honum, tók hann á kné sér og benti yfir í kvennsætið gagnvart þeim. Þar stóð dálítil telpa á knjánum uppi á bekknum og gægðist upp yfir bríkina. Hún var enn þá bjartleitari en maðrinn í sætinu hjá þeim, svo bjartleit, að hann hafði aldrei séð hennar líka. Hún hafði rauð reimabönd á höfuðfati sínu, hárið var ljósgult, og nú brosti hún yfir um til hans, svo að hann gat lengi ekki haft augun af mjallhvítu tönnunum hennar.

Hún hélt á logagyltri sálmabók í annari hendinni, en samanbrotnum rauðgulum vasaklút í hinni, og var að leika sér að slá með vasaklútnum á sálmabókina. Því meira sem hann starði, því meira hló hún, og hann vildi líka liggja á knjánum upp við bekkjarbríkina. Svo kinkaði hún til hans kolli. Hann horfði alvarlega á hana nokkra stund; svo kinkaði hann kolli til hennar aftr. Hún hló, og kinkaði aftr kolli; hann kinkaði aftr kolli, og enn aftr og enn einu sinni. Hún hló, en kinkaði ekki kolli aftr,—fyr en eftir dálitla stund, þegar hann var aftr búinn að gleyma því; þá kinkaði hún til hans kolli.

»Ég vil líka fá að sjá!« heyrði hann sagt fyrir aftan sig,—og í sama bili var tekið í fætrna á honum og reynt að draga hann niðr á gólfið, svo að hann var nærri dottinn; það var lítill, þrekvaxinn piltr, sem sótti rösklega á að komast upp í hans stað. Hann var ljóshærðr, hárið liðalaust og nefið snubbótt. Áslákr hafði nú kent Þorbirni, hvernig hann ætti að taka slæmum strákum, sem hann kynni að hitta við kyrkju eða í skólanum. Þorbjörn kleip því strákinn í endann, svo honum lá við að æpa, sat þó á sér og skreið í þess stað sem hraðast niðr af bekknum og þreif sinni hendi í hvort eyra Þorbirni. Þorbjörn tók í hárið á honum og keyrði hann undir sig. Piltrinn æpti enn ekki, en beit Þorbjörn í lærið; Þorbjörn kipti að sér lærinu, snéri stráknum á grúfu og keyrði andlitið á honum í gólfið. Í því var tekið í treyjukraga Þorbjarnar, og honum kipt á loft eins og dúnpoka; það var faðir hans, sem setti hann á kné sér. Faðir hans kreisti höndina á honum, svo að hann kendi til hreint ofan í tær, og hvíslaði að

honum: »Ef við værum ekki í kyrkjunni, skyldirðu verða barinn«. Hann mintist nú Sigrúnar, og leit yfir um; hún stóð þar enn, en svo starandi og forviða, að hann fór að renna grun í, hvað hann hafði að hafzt, og að það mundi vera in mesta óhæfa. Undir eins og hún varð þess vör, að hann horfði á hana, skreið hún niðr af bekknum og sást ekki framar.

Djákninn kom fram, prestrinn kom fram; hann heyrði þá að vísu og sá; aftr kom djákni og aftr kom prestr, — en hann sat þar enn í kjöltu föður síns og hugsaði með sér: »Skyldi hún ekki bráðum líta upp aftr?« Piltrinn, sem hafði dregið hann niðr af bekknum, sat nú á skemli innar í stólnum við fætr gamalmennis, sem dottaði og dró ýsur, en vaknaði í hvert sinn, sem strákr ætlaði að standa upp, og dunkaði í bakið á honum. »Skyldi hún ekki fara að líta upp aftr bráðum,« hugsaði Þorbjörn með sér, og hver rauð reim, sem hann sá hreyfast, minti hann á reimarnar á höfuðbúnaði hennar. Jú, þarna gægðist hún upp, en undir eins og hún kom auga á hann, kom á hana alvörusvipr og hún grúfði sig niðr aftr. — Djákninn kom fram og las bænina; það var hringt út, og fólk stóð upp úr sætunum. Faðir hans talaði aftr lágt við bjartleita manninn; þeir gengu saman yfir að kvennsætinu; kvennfólkið var þar líka staðið upp. Sú fyrsta, sem kom fram úr sætinu, var bjartleit kona; hún var brosandi eins og maðrinn, þó öllu minna; hún var smávaxin og föl, og leiddi Sigrúnu við hönd sér. Þorbjörn vék þegar að henni; en hún hafði sig undan ið hraðasta aftr fyrir móður sína og hélt í kjólinn hennar. »Láttu mig vera!« sagði hún. »Hann hefir víst ekki verið í kyrkju fyrri, þessi piltr,« sagði bjartleita konan og klapp-

aði á kollinn á honum. »Nei, því flýgst hann nú líka á í fyrsta sinn, sem hann er þar,« sagði Sæmundr.—Þorbjörn varð sneyptr, leit upp á konuna, svo framan í Sigrúnu, og sýndist honum hún enn alvarlegri. Þau gengu öll út,—eldra fólkið var að tala saman, en Þorbjörn gekk á eftir Sigrúnu; en hvert sinn, sem hann nálgaðist hana, hypjaði hún sig sem þéttast upp að móður sinni. Ekki sá hann aftr piltinn, sem hann hafði flogizt á við. Á vellinum fyr utan kyrkjugarðinn staðnæmdist fólkið og hóf þar langt samtal. Þorbjörn heyrði Áslák nefndan oftar en einu sinni,og af því hann var hálfhræddr um, að sín kynni að verða eitthvað getið um leið, fór hann að hafa sig heldr fjær. »Þú átt ekki að hlusta á þetta!« sagði móðir Sigrúnar við hana; »farðu burt á meðan, góða mín; farðu burtu, segi ég!«. Sigrún hafði sig á burtu, og þó hálfnauðug. Þorbjörn gékk þá til hennar og horfði á hana, og hún horfði á hann, og svo stóðu þau langa stund og horfðu hvort á annað þegjandi. Loks sagði hún: »Svei!« — »Af hverju ertu að sveia?« sagði hann. — »Og svei!« sagði hún aftr. »Svei, skammastu þín!« bætti hún við. — »Hvað hefi ég þá gjört?« — »Þú hefir flogizt á í kyrkjunni, meðan prestrinn var að messa, — svei!« — »Já, en það er nú svo langt síðan.« Þetta sló hana, og hún sagði eftir litla stund: »Ert það þú, sem heitir Þorbjörn í Grenihlíð?« — »Já, og ert það þú, sem heitir Sigrún á Sunnuhvoli?« —» Já, ——ég hefi alt af heyrt, að þú værir svo vænn drengr.« »Nei, það er ekki satt; því ég er svo lang-verstr á öllu heimilinu,» sagði Þorbjörn. — »Nei, hefi eg nú aldrei heyrt — — —« sagði Sigrún og klappaði saman litlu lófunum; »mamma, mamma! hann segir —.«

—»Þegiðu, góða mín, og farðu í burtu,« sagði móðir hennar, svo hún staðnæmdist og gékk svo hægt og hægt aftr á bak til Þorbjarnar, en mændi stóru, bláu augunum sínum á mömmu sína. »Ég hefi alt af heyrt, að þú værir svo væn,« sagði Þorbjörn. — »Já, stundum, þegar ég hefi lesið vel,« svaraði hún. — — »Er það satt, að það sé svo skelfing fult af huldufólki og tröllum og öðru illþýði þarna yfir frá hjá ykkr?« spurði hann, og stakk hendinni í síðuna og steig fram öðrum fætinum, en stóð í hinn, — alveg eins og hann hafði séð Áslák gjöra. — »Mamma, mamma! veiztu hvað hann segir? Hann segir að — —.« — »Æ, láttu mig vera í friði; heyrirðu það! og komdu ekki hingað fyr en ég kalla á þig!« Aftr varð hún að hopa á hæl, stakk svuntuhorninu sínu í munninn, beit í það og togaði svo í. »Er það þá öldungis ekki satt, að huldufólkið leiki á hljóðfæri á hverri nóttu yfir í hólunum hjá ykkr?« — »Nei!« — »Hefirðu þá aldrei séð tröll?« — »Nei!« —«En í herrans nafni og fjörutíu — —.« — »Svei. þetta máttu ekki segja!« — »Tarna; ég held það sé ekki mikið«, sagði hann og spýtti um tönn, til að sýna henni, hvað langt hann gæti spýtt. — »Jú, jú,« sagði hún; »þú mátt ekki leggja guðs nafn við hégóma, því þá ferðu til helvítis!«—»Helduröu það?« spurði hann og setti töluvert niðr í honum, því hann hafði í hæsta lagi hugsað sér, að hann kynni að verða barinn fyrir það, og nú stóð faðir hans svo langt frá honum. — »Hver er helzt sterkastr þarna yfir frá hjá ykkr?« spurði hann, og hallaði húfunni í vangann—. »Nei, það veit ég ekki.« — »Já, hjá okkr er það nú pabbi; hann er svo sterkr, að hann getr barið Áslák, og Áslákr er þó sterkr, það segi ég þér satt.« — «Ja,

svo!« — »Hann hefir einu sinni tekið upp hest.« — »Hest!« — »Já, það er svo satt, sem ég — — hann hefir sjálfr sagt mér það.« Þá trúði hún líka. »Hver er þessi Áslákr?« spurði hún. — »Já, það er nú bági piltrinn, skal ég segja þér. Hann pabbi barði hann svo, að enginn lifandi maðr í heiminum hefir verið barinn svo fyrri.« — »Fljúgizt þið á í illu þarna fyrir handan?« — »Já, stundum — — Gerið þið það ekki hjá ykkr?« — »Nei, aldrei.« — »Hvað gerið þið þá þar?«—«O, mamma býr til matinn, prjónar og saumar, og það gerir Katrín líka, en ekki eins vel eins og mamma, því Katrín er svo löt. En Ranka hirðir kýrnar; pabbi og piltarnir eru ýmist við útivinnu eða þá heima.« Þetta þótti honum fullnægjandi svar. »En á hverju kveldi lesum við, og svo er sungið,« sagði hún enn fremr, og það gjörum við á sunnudögum líka.« — »Öll saman?« — »Já.« — »Það má vera leiðinlegt — —.« — »Leiðinlegt! mamma, hann segir—« en þá mundi hún eftir, að hún mátti ekki koma þangað. — »Skelfing á ég margar kindr,« sagði hún. — »Nei, svo?« — »Já, þrjár ær á ég, sem eru með lömbum í vetr, og ein þeirra er ég nú alveg viss um, að verðr tvílembd.«—»Svo, þú átt kindr?«— »Já, ég á líka kýr og grísi; átt þú enga?« — »Nei.« — Komdu yfir til mín, þá skal ég gefa þér gimbrlamb. Þú munt reyna það, að þér æxlast fleira út af því«.— »Skelfing má það verða gaman.« Þau stóðu þegjandi um hríð; »ætli Ingiríðr litla geti ekki líka fengið lamb?« spurði hann svo. »Hvaða Ingiríðr?« — »Hún Ingiríðr, vesalingrinn hún Ingiríðr. — Þekkirðu hana ekki?« — Nei, hana þekti hún ekki. »Er hún minni en þú?« — »Já, víst er hún minni en ég, — svona á stærð við þig.« — »Nei, er það nú satt?

þú verðr endilega að hafa hana með þér, mundu eftir því!« Jú, hann sagðist skyldi muna það. »En« sagði hún, »fyrst að þ ú færð lamb, þá getr h ú n fengið grís«. Þetta fanst honum nú líka miklu hyggilegra, og nú sögðu þau hvort öðru frá kunningjum, sem bæði þektu, en þeir vóru nú reyndar ekki margir. Foreldrar þeirra vóru þá búin til heimferðar, og þau urðu að fara heim.

Um nóttina dreymdi hann, að hann þóttist vera kominn yfir að Sunnuhvoli og sjá þar tóm hvít lömb, og hjá þeim dálitla bjartleita stúlku með rauðar reimar. Ingiríðr og hann vóru á hverjum degi að tala um að fara þangað yfir um. Þóttust þau mundu fá svo margra lamba og smágrísa að gæta, að vandséð væri, hversu þau gæti við því snúizt. En það þótti þeim kynlegast, að þau skyldu ekki mega fara yfir um undir eins. »Þó að barnunginn hafi boðið ykkr?« spurði móðir þeirra; »skárra er það nú.« — »Jæja, bíddu nú þangað til á sunnudaginn kemr,« sagði Þorbjörn; »þá skaltu nú sjá«.

Sunnudagrinn kom. »Það er sagt, að þú sért svo óttalega raupsamr og ósannsögull og blótir svo mikið,« sagði Sigrún þá við hann, »svo að þú fær ekki að koma yfir um fyrri en þú hefir vanið þig af því.«—»Hver hefir sagt þér það?« spurði Þorbjörn forviða.—»Hún mamma mín«.

Ingiríðr beið óþolinmóð eftir heimkomu Þorbjarnar, og sagði hann henni og móður sinni, hversu farið hefði. »Þarna sérðu nú, drengr minn«, sagði móðir hans. Ingiríðr þagði. En upp frá þessu hafði bæði hún og móðir hans gætr á honum í hvert sinn sem hann blótaði eða fór að raupa. En hann og

Ingiríðr lentu í áflogum út úr því, hvort það væri blótsyrði að segja: rækallinn hafi það. Ingiríðr mátti sín miðr, og svo sagði hann við hvert orð: »ólukkiun hafi það« allan daginn. En um kveldið heyrði faðir hans þetta til hans, og rak honum utan undir, svo að hann rauk um koll. Þorbjörn skammaðist sín mest fyrir Ingiríði; en skömmu á eftir kom hún til hans og klappaði honum.

Nokkrum mánuðum seinna fengu systkinin bæði að fara yfir að Sunnuhvoli; síðan kom Sigrún til þeirra, þau aftr til hennar, og gekk svo öll þeirra uppvaxtarár.

Þorbjörn og Sigrún keptust hvort við annað með kverið; þau gengu bæði saman í skóla, og fór honum loksins að ganga betr, og það svo vel, að prestrinn fór sjálfr að segja honum til. Ingiríði gekk öllu miðr, og hjálpuðu þau henni bæði. Hún og Sigrún urðu svo samrýndar, að fólkið í sveitinni kallaði þær »rjúpurnar«, af því að þær vóru alt af saman að flögra og báðar vóru mjög bjartleitar.

Af og til kom það fyrir, að Sigrún lagði fæð á Þorbjörn, af því hann var heldr ofsafenginn og lenti einatt í áflogum. Ingiríðr gékk þá ávalt á milli og kom sáttum á. En þegar móðir Sigrúnar frétti, að hann hefði flogizt á í illu, þá fékk hann ekki að koma yfir að Sunnuhvoli þá vikuna, og naumast þá næstu. Enginn þorði að segja Sæmundi frá slíku; »hann er of harðleikinn við drenginn«, sagði kona hans, og bað alla fyrir, að segja ekki Sæmundi.

Þau uxu nú þannig upp öll þrjú og urðu fríð sýnum, og þó á sinn veg hvert. Sigrún varð há og grönn, fékk gult hár og var hörundsfín og andlitsbjört, bláeyg, og augnaráðið stillilegt. Henni lék

bros á vörum þegar hún talaði, og snemma var það mál manna, að inndælt væri að verða fyrir því brosi. Ingiríðr var lægri, en þrekvaxnari, var enn bjartari á hár, smáfeld í andliti, þykkleit en sléttleit. Þorbjörn var meðalmaðr á vöxt og harðla vel vaxinn, svarthærðr, með dimmblá augu, andlitsskarpr og þreklega limaðr. Þegar móðrinn var á honum, var hann sjálfr vanr að segja, að hann væri eins vel læs og skrifandi eins og barnakennarinn, og engan mann kvaðst hann óttast þar í dalnum — nema föður sinn, hugsaði hann með sér; en um það gat hann ekki.

Þorbjörn vildi snemma láta ferma sig, en af því varð þó ekki; »meðan þú ert ófermdr, ertu eins og annar krakki, og þá á ég hægra með að ráða við þig«, sagði faðir hans. Svona atvikaðist það, að hann og Sigrún og Ingiríðr géngu öll til prestsins í einu. Það hafði líka verið dregið að ferma Sigrúnu; hún var nú fimmtán ára, á því sextánda. »Maðr kann aldrei fullnóg, þegar maðr á að staðfesta guði heit sitt«, hafði móðir hennar alt af sagt, og faðir hennar, Guttormr á Sunnuhvoli, hafði verið á sama máli. Það kom sér því ekki sem þægilegast, að tveir biðlar fóru að festa augastað á Sigrúnu, annar heldri manns sonr, en hinn nábúi þeirra auðugr. »Nei, þetta er alveg fráleitt! og hún er ekki staðfest enn þá, stúlkan!«—»Ja, það er þá ekki annað fyrir, en að við verðum að láta ferma hana«, sagði faðir hennar. Ekki vissi Sigrún sjálf neitt af þessu.

Á prestssetrinu leizt kvennþjóðinni svo vel á Sigrúnu, að þær buðu henni inn, til að tala við hana. Þau systkinin stóðu eftir úti hjá hinum börnunum, og sagði þá einn af drengjunum við Þorbjörn: »Svo þér var ekki hleypt inn með henni? Það tekr hana

sjálfsagt frá þér.« Þetta kostaði piltinn glóðarauga. Upp frá þessu var það siðr hinna drengjanna, að erta hann upp á Sigrúnu, enda varð það brátt sýnt, að ekkert reitti hann eins til reiði. Af þessu tilefni varð loksins heilmikill hardagi í skógarrjóðri nálægt presstsetrinu. Höfðu nokkrir drengir veitt Þorbirni þar fyrirsát; gengu æ fleiri og fleiri í móti Þorbirni, svo að hann átti við heilan hóp að berjast í einu. Stúlkurnar vóru farnar á undan, svo að enginn var til að skilja þá, og varð því atgangrinn verri og verri. Þorbjörn vildi með engu móti bera lægri hlut, en einlægt sóttu fleiri og fleiri að honum, og sást hann að lokum lítt fyrir í vörninni; veitti hann þá mörg högg og stór, sem síðan vóru beztr þegjandi vottrinn um, hvað þar hafði í gjörzt. Tilefnið til bardagans varð þá og hljóðbært um leið, og var margt um það hjalað í sveitinni. Næsta sunnudag, sem messað var, vildi Þorbjörn ekki fara til kyrkju; og næsta dag þar á eftir, er börnin skyldu ganga til prestsins, lagðist Þorbjörn í skrópum. Ingiríðr fór því ein. Þegar hún kom heim aftr, spurði hann hana, hvað Sigrún hefði sagt. »Ekki neitt«.

Næsta sinni, er hann fór til kyrkju eins og hin börnin, fanst honum alt fólkið stara á sig og fermingarbörnin kýma að sér, en Sigrún kom seinna en hin börnin, og var mikið inni við hjá prestsfólkinu þann dag. Hann var hræddr um, að prestrinn mundi ávíta sig, en hann komst brátt að því, að þeir einu tveir í allri sveitinni, sem ekkert vissu um bardagann, vóru þeir prestrinn og faðir hans. Það var nú ekki svo afleitt; en hvernig hann ætti aftr að fá Sigrúnu í tal, það vissi hann ekki; því að nú í fyrsta sinni gat hann einhvern veginn ekki fengið af sér,

að biðja Ingiríði að ganga á milli. Sigrún fór aftr inn til prestsfólksins þegar búið var að spyrja börnin; hann beið þangað til allir aðrir vóru farnir; en loksins varð hann að fara líka. Ingiríðr hafði farið með þeim allra-fyrstu.

Næsta spurninga-dag var Sigrún komin á undan öllum hinum börnunum, og var á gangi úti í garði með einni af prestsdætrunum og unglings-karlmanni. Prestsdóttirin var að taka blómstr upp úr garðinum, sem hún gaf Sigrúnu; ungi maðrinn var að hjálpa þeim til, og Þorbjörn stóð hjá hinum börnunum fyrir utan garðinn og horfði á. Þau töluðu svo hátt, að börnin öll heyrðu, og vóru þau að segja henni, hvernig ætti að fara að planta blómin, og lofaði Sigrún að gjöra það sjálf, svo að það yrði alveg rétt gjört, eftir því sem þau höfðu sagt henni fyrir. »En þú getr ekki gjört það ein«, sagði ókunni maðrinn, og hugsaði Þorbjörn eftir því.

Þegar Sigrún kom til hinna barnanna, gáfu þau henni meiri gaum en vant var; en Sigrún gékk að Ingiríði, heilsaði henni blíðlega og bað hana að ganga með sér ofan á völlinn. Þar settust þær niðr; því að það var langt síðan að þær höfðu talað saman í næði. Þorbjörn stóð eftir hjá hinum börnunum, og varð honum starsýnt á hin fögru, útlendu blóm Sigrúnar.

Þennan dag fór Sigrún jafnsnemma og hin börnin. »Á ég ekki að bera blómin þau arna fyrir þig?« sagði Þorbjörn. »Það getrðu gjört«, svaraði hún blíðlega, en leit þó ekki upp á hann; svo tók hún í hönd Ingiríði og leiddust þær á undan. Niðr af Sunnuhvoli staðnæmdist hún og kvaddi Ingiríði. »Ég skal nú sjálf bera þau þennan spöl, sem eftir er,«

sagði hún, og tók körfuna, sem Þorbjörn hafði sett frá sér. Hann hafði alla leiðina verið að hugsa um að bjóða henni að planta fyrir hana blómin, en nú kom hann sér ekki að því, því skilnað þeirra bar svo brátt að. Og svo var hann alt af að hugsa um þetta á eftir, að hann hefði þó átt að hjálpa henni með þessi blóm. »Um hvað eruð þið báðar að tala, þegar þið eruð saman?« spurði hann Ingiríði. »Ekki um neitt«.

Um kveldið þegar allir voru háttaðir fyrir stundu, klæddist Þorbjörn og gékk út. Það var fagrt kveld og hlýindi og logn; himininn huldi þunn breiða af blágráum skýjum með smáskýja-rofum hér og hvar, svo að sást út í himinblámann eins og gegn um glugga. Engan mann var neinsstaðar að sjá, hvorki fjær né nær; en í grasinu alt í kring tístu engispretturnar, keldusvín skríkti á hægri hönd honum og annað tók undir á vinstri hönd. Síðan hófst sá söngr í grasinu, og færðist úr einum stað í annan, að honum þótti, þegar hann gekk, sem hann hefði mikla fylgd með sér, þó hann engan sæi. Skógrinn blasti við alt upp að urðinni, og sló eins og bláma á, og þó æ dökkvara og dökkvara, eftir því sem nær urðinni dró, svo að hann var yfir að sjá eins og stór þokufláki. En í skóginum heyrði hann orrana gala og kveðja sér hljóðs, ein kattugla ýlfraði þar einhversstaðar á grein og fossinn kvað sitt gamla, dynþunga lag enn þá átakanlegar en vant var, — nú, þegar alt hafði eins og sezt niðr til að hlýða á hann.

Þorbjörn horfði yfir að Sunnuhvoli og lagði á stað. Hann fór ekki alfaraveginn, heldr beinustu leið; var hann fljótr áleiðis og var von bráðar kom-

inn yfir í litla garðinn, sem Sigrún átti; garðrinn lá beint undir loftglugganum á öðrum gaflinum, einmitt þeim glugganum, sem Sigrún svaf við. Hann litaðist um og hlustaði, en alt var hljótt. Hann skygndist um í garðinum eftir verkfærum, og það stóð heima, hann fann þar bæði spaða og kvísl. Það hafði verið byrjað að stinga upp beð; það hafði ekki verið búinn nema lítill blettr, og í hann höfðu þegar verið sett tvö blóm, líklega til að sjá, hvernig þau færu. »Hún hefir þreyzt, vesalingrinn, og hefir hætt við það,« hugsaði hann með sér; »þetta er líka karlmannsverk,« hugsaði hann enn fremr, og tók þegar til starfa; hann fann ekki ið minsta til svefns, og fanst hann aldrei hafa unnið svo létt verk á æfi sinni. Hann mundi glögt, hvernig átti að setja blómin, hann mundi líka eftir garðinum prestsins og gætti þess, að alt stæði heima. Nóttin leið; hann tók ekki eftir því. Hann gaf sér varla eins augnabliks hvíldarstund og stakk upp alt beðið, setti niðr blómin, flutti sum til aftr, svo þau skyldu fara enn betr og alt verða sem fegrst, og af og til rendi hann hornauga upp í loftgluggann, til að gæta að, hvort nokkur yrði sín var. En hvorki þar né annarsstaðar varð hann nokkurs var, og ekki heyrði hann svo mikið sem hund gelta, fyrr en haninn fór að gala og vakti skógarfuglana, sem settust þá upp hver á fætr öðrum, til að syngja sinn morgunsálm. Meðan hann stóð þarna og var að sópa moldinni upp að rótum blómanna, komu honum í hug öll þau æfintýri, sem Áslákr hafði sagt honum, og mintist hann þess, að hann eitt sinn hafði trúað því, að alt væri fult af tröllum og álfum á Sunnuhvoli. Hann leit upp í loftgluggann og brosti með sjálfum sér að því, hvað

Sigrún mundi nú hugsa, þegar hún vaknaði og henni yrði litið út um morguninn. Það var orðið allbjart og mesti glaumr í fuglunum; hann vatt sér því yfir skíðgarðinn og skundaði sem hraðast heim, svo að enginn skyldi sagt geta, að það væri hann, sem hefði verið þar yfir frá og plantað blóm í garðinum hennar Sigrúnar á Sunnuhvoli.

---

## Þriðji kapituli.

Nú liðu stundir fram, og var margt hjalað í sveitinni; þó kunni enginn með nokkurri vissu frá neinu að segja. Aldrei sást Þorbjörn framar á Sunnuhvoli eftir að þau voru bæði fermd, og þetta var það, sem menn sízt skildu í. Ingiríðr kom þangað oft; gengu þær Sigrún þá oft sér til skemtunar í skóginn; — »verið þið nú ekki of lengi í burtu«, kallaði móðir Sigrúnar á eftir þeim. »O nei«, svaraði Sigrún, — og svo komu þær ekki heim fyrr en í rökkri. Báðir biðlarnir hófu nú bónorð sitt af nýju. »Það er bezt að hún sé sjálfráð«, sagði móðir hennar, og faðir hennar var á sama máli. Svo var Sigrún tekin á eintal og þessa leitað við hana, en hún gaf báðum afsvör. Síðan komu fleiri þangað í biðilserindum, en aldrei fréttist það, að neinn kæmi bænheyrðr úr bónorðsför frá Sunnuhvoli.

Einu sinni var Sigrún með móður sinni og voru þær mæðgur að þvo nokkur mjólkrtrog; þá spurði móðir hennar hana, hvern hún væri að hugsa upp á. Þetta kom svo flatt upp á Sigrúnu, að hún kafroðn-

aði. »Hefirðu heitið nokkrum eiginorði?« spurði móðir hennar aftr og hvesti á hana augun. »Nei,« svaraði Sigrún stutt. Feldu þær svo talið.

Það var hvorttveggja, að Sigrún var beztr kvennkostr, er menn höfðu af að segja þar um slóðir, enda varð margr langeygðr eftir henni þegar hún sást við kyrkju; annarsstaðar sást hún ekki utan heimilis; því að aldrei var hún við dans eða aðrar skemtanir, með því foreldrar hennar voru »lesarar«. Þorbjörn sat beint andspænis henni í kyrkjunni, en aldrei töluðust þau við, svo að menn yrðu varir við. Þó þóttust allir vita, að eitthvað væri þeirra á milli, og af því þau umgengust ekki hvort annað á sama hátt og aðrir trúlofaðir unglingar í dalnum, spanst af því ýmislegr orðrómr. Það var eins og Þorbjörn væri ekki meira en svo vel látinn. Hann fann víst líka til þess sjálfr; því hann var heldr óþjáll í fjölmenni, svo sem við dansleika og í brúðkaupsveizlum; og bar það þá til, að hann gaf sig stundum beinlínis í áflog. Þó gjörðist það æ fátíðara smátt og smátt, eftir því sem fleiri fengu að kenna á, hver kraftamaðr hann var; Þorbjörn vandist því snemma á, að þola engum að troða sér um tær.—»Þú ert nú orðinn sjálfum þér ráðandi,« sagði Sæmundr faðir hans; »en minstu þess, að enn er ég, ef til vill, okkar sterkari.«

Svo leið haustið og vetrinn og vor kom á ný, að ekkert vissi fólk enn með nokkurri vissu. Það gengu svo margar sögur um hryggbrot þau, sem Sigrún hefði biðlum gefið, að hún varð eins og einmana síns liðs. En Ingiríðr var með henni; þær ætluðu nú báðar að liggja saman í seli það ár, því Sunnu-

hvols-fólkið hafði keypt part í Grenihlíðarselinu. Það mátti heyra sönginn í Þorbirni efst uppi í hlíðum, því að hann var að færa hitt og þetta í lag fyrir þær.

Einn góðan veðrdag þegar kvelda tók og hann hafði lokið dagsverki sínu, settist hann niðr og var að hugsa um hitt og þetta, og það ekki sízt, hvað talað var í sveitinni; hann lagðist aftr á bak í mórauðu lynginu með hendrnar undir hnakkanum, og fór að horfa upp í himininn, sem hvelfdist blár og skínandi bak við ið þétta lim trjánna. Það var frá honum að sjá eins og laufið grænt og barrið flyti á himninum í titrandi straumi, og greinarnar dökkvar, sem stungu í stúf við hitt, drógu undarlega og óskipulega drætti á strauminn. En í himininn sjálfan sá að eins þegar eitthvert blaðið blakti frá; en aftr fjær milli krónanna á trjánum, sem ekki náðu saman, þar skein himininn í gegn, eins og breið elfr rynni þar yfir í undarlegum bugðum. Þetta hafði áhrif á huga hans, og hann fór að hugsa um það, sem fyrir augun bar — —.

— Björkin leit aftr brosandi þúsund augum upp til granarinnar; furan stóð þar með þögulli fyrirlitingu og steytti broddana í allar áttir; því eftir því sem hlýrra varð í lofti, kviknuðu fleiri og fleiri veiklegir nýgræðingar, þutu upp og stungu spánýju laufinu beint upp í nefið á furunni. »Hvar voruð þið í vetr, vesalingar?» spurði furan, veifaði að sér svala og sveittist kvoðunni í þessum óþolandi hita. »Nei, þetta er þó næstum fráleitt! — svona norðarlega — svei, svei!«.

En svo var þar ein gömul, gráskölIótt fura, sem mændi upp yfir öll hin trén, og gat þó beygt marg-

fingraða grein nálega þráðbeint niðr og gripið í ennistoppinn á djörfum hlyn, sem gægðist upp með henni, svo að hann skalf allr á beinum. Þessa feðmingadigru furu höfðu mennirnir kvistað hærra og hærra upp eptir bolnum, þar til henni leiddist þetta loksins, svo að hún teygði sig alt í einu svo hátt í loft, að gröninni veiku við hliðina á henni fór ekki að verða um sel, og spurði hana, hvort hún myndi nú líka eftir vetrarstormunum. »Hvort ég man eftir þeim?« sagði furan, og löðrungaði grönina svo, með aðstoð norðanvindsins, að gröninni lá við svima og varð ilt í höfðinu. In þrekvaxna, svipdimma fura hafði nú fest svo vel fætr í jörðu, að trén héldu sér í sex álna fjarlægð frá henni og skipuðu sér þar enn þá þéttara, heldr en utan um seljuna, þar sem hún er þéttust, eftir því sem seljan í trúnaði hvíslaði eitt kveld að humlinum, sem ástfanginn vafði sér utan um hana. In skeggjaða fura vissi vel, hvað hún mátti sér, og hún skaut hverri greininni á fætr annari út í loftið miklu hærra en mennirnir næðu til, og sagði svo við þá: »Kvistið þig mig nú, ef þið getið!«

»Nei, þeir geta ekki kvistað þig!« sagði örninn, og var svo náðugr, að setjast á furuna, lagði saman vængina með viðhöfn, og nuddaði dálítið sauðarblóð af fjöðrum sínum. »Ég held ég verði að biðja drotninguna að setjast hér að; það stendr svo á, að hún þarf að verpa nokkrum eggjum,« sagði hann lægra og leit ofan á lappir sér; því hann eins og hálf-fyrirvarð sig fyrir, að honum flugu í hug nokkrar blíðar endrminningar frá þessum fyrstu vordögum, þegar maðr verðr eins og hálftöfraðr af blessuðu sólskininu.

En brátt leit hann upp aftr og rendi augunum undan inum fjaðrskygðu brúnum upp í svörtu urðirnar, og skygndist eftir, hvort hann sæi ekki drotninguna eggþungaða og þjáða einhversstaðar þar á sveimi. Svo fló örninn af stað, og skömmu síðar sá furan hjónin á flugi bera við bláan og heiðskíran himininn, svifu þau þar fram og aftr jafnhátt hæsta fjallstindinum, og voru að ræða um heimilisástæður sínar. Það var ekki laust við, að furunni væri heldr órótt; því að alt svo mikið sem hún fann til sín, þá fanst henni þó enn meiri hefð í að fá arnarunga til að vagga. Þau svifu líka bæði niðr og beina leið til hennar. Þau töluðu ekkert saman, en fóru þegar að sækja sér kvisti og sprek. Og furan þandi sig enn meir út, — en það var heldr enginn, sem gat meinað henni það.

En það varð heldr skrafsamt milli hinna trjánna í skóginum, þegar þau sáu, fyrir hvaða upphefð stórfuran varð. Þar var nú til að mynda dálítið geðsleg björk, sem stóð og speglaði sig í tjörn, og hugsaði að hún mætti heldr búast við hlýlegu af gráhvítri maríu-erlu, sem vön var að taka sér í henni miðdagsdúr. Hún hafði ilmað rétt upp í nefið á maríu-erlunni og límt flugur og fiðrildi föst á blöðin sín, svo að auðgjört var að veiða þau; meira að segja, hún hafði loksins í hitanum reist og beygt saman ofrlítið þétt greinahús, þakið með spánýju laufi, — svo að maríu-erlan var hálfpartinn farinn að búa um sig til sumarsins. En nú fór á annan veg: arnarhjóninn höfðu sezt að í stórfurinni, og nú varð hún að hafa sig á burt. En sú sorg! Hún söng dillandi kveðjusöng, en ofboð lágt, svo að örnin skyldi ekki heyra það. Ekki fór bauninni betr fyrir nokkrum

smátitlingum, sem bjuggu þar í elrirunni; þeir höfðu slarkað þar svo gjálíft, að presti einum, sem bjó þar í aski rjett hjá, hafði aldrei orðið að liði að sofna á réttum tíma, og varð hann stundum svo fokvondr, að hann tautaði yfir þeim, svo að alvarleg spæta þar í næsta tré hafði hlegið, svo að henni lá við að veltast um. En svo sáu þau örninn í stórfurunni! og þröstrinn og smátitlingarnir og spætan og alt, sem fleygt var, hypjaði sig á stað, hver sem hraðast mátti, sumir yfir og sumir undir greinunum. Þröstrinn bölvaði sér upp á það, þegar hann flaug á stað, að hann skyldi ekki oftar leigja þar bústað, sem hann hefði titlingana fyrir nábúa.

Svo stóð skógrinn þar umhverfis auðr og hugsjúkr mitt í glaða sólskininu. Hann átti nú af hafa alla sína ánægju af stórfurunni, en það var auma ánægjan. Skógrinn laut óttasleginn, hvert sinn sem norðanvindrinn blés; stórfuran lamdi út í loftið með sínum voldugu greinum, og örninn flaug í hring um hana, spakr og gætinn, eins og það væri ekki nema auðmjúkr kastvindr, sem »þjónustusamlega« flytti honum vesalt smjaðr frá skóginum. En öll furuættin var himinglöð; ekki ein af þeim mintist þess, að hún hafði sjálf engu hreiðri að vagga þetta ár. — »Komið þið ekki of nærri okkr,« sögðu þær, »við erum af ættinni!«

— — — »Hvað er það, sem þú ert að hugsa um barna?« spurði Ingiríðr, — hún kom brosandi fram úr þéttum runni og beygði frá sér greinarnar. Þorbjörn stóð upp; »og það er svo margt, sem í mannshugann kemr,« sagði hann, og leit með þrályndis-svip yfir trén. »Fólk er annars heldr málugt hér í sveitinn um þetta leyti,« sagði hann svo og dustaði af sér

rykið. — »En hvað þú skulir líka alt af vera að kæra þig um, hvað fólk hjalar!«—»Ég veit ekki alminnilega; — en — enn þá hefir fólk ekkert það sagt, sem ekki hafi mér til hugar komið, þótt ekki hafi ég framkvæmt það.« — »Nú er ljótt að heyra til þín.« — »Já, svo er það,« sagði hann; «en satt er það,« sagði hann svo aftr eftir litla hríð. Hún settist niðr í grasið, en hann stóð og horfði til jarðar. »Ég get auðveldlega orðið eins og þeir vilja hafa mig; þeir ættu að láta mig vera eins og ég er.« — »Það verðr þó í rauninni þér að kenna á endanum samt.« — »Það getr vel verið; en hinna sök er það samt að nokkru leyti líka. — Ég segi, ég vilji hafa frið!« hálfkallaði hann upp yfir sig, og leit upp til arnarins. »Þorbjörn!« sagði Ingiríðr í hálfum hljóðum. Hann snéri sér að henni og hló. »Jæja, jæja,« sagði hann;« eins og ég sagði: margt getr leikið í manns-huganum. — Hefirðu talað við Sigrúnu í dag?«—»Já; hún er komin upp í sel.«—»Í dag?«—»Já.«—»Með Sunnuhvols-fénaðinn?« — »Já.« »Hæ, hæ!

Og sól á meiði blikar blítt
í skógi!
„Ertu þar, glóandi gullið mitt frítt?"
Ó-hæ, ó-hó!
Upp hrökk fuglinn og fló:
„Hvað er þetta þó?" —

»Á morgun leysum við út búsmalann,« sagði Ingiríðr; hún vildi víkja talinu í aðra átt. — »Ég ætla að hjálpa ykkr til að reka í selið,« sagði Þorbjörn. — »Nei, pabbi ætlar sjálfr að vera með,« sagði hún. »Svo!« sagði hann nokkuð seinlega og þagnaði. — »Hann spurði eftir þér í dag,« sagði hún. — »Það er svo,« sagði Þorbjörn, skar kvist af grein með

hnífnum sínum og fór að tálga hann. — — »Þú ættir að tala oftar við pabba en þú gjörir«, sagði hún blíðlega; »honum þykir undr vænt um þig.« — »Það getr vel verið,« sagði hann. — »Hann er oft að tala um þig, þegar þú ert úti.« — »Því sjaldnara þegar ég er inni.« — »Það er þ é r að kenna.« — »Það getr vel verið.« — »Svona máttu ekki tala, Þorbjörn; þú veizt sjálfr, hvað ykkr ber á milli.« — »Hvað er það þá?« — »Á ég að segja það?« — »Á sama stendr það, Ingiríðr; þú veizt það, sem ég veit.« — «Jú, jú; honum þykir þú stilla lítt skapi þínu þegar hann er ekki við; það veiztu að honum líkar ekki.« — »Nei, hann vildi líklega helzt alt af leiða mig og halda í höndina á mér.« — »Já, og helzt þegar þú reiðir hana til höggs.« — — »Á þá fólk að fá að segja og gjöra hvað sem það vill?» — »Nei, nei; en þú gætir líka oftar sneitt úr vegi en þú gjörir. Það hefir hann gjört, og er orðinn mikilsvirtr maðr.« — »Honum hefir ef til vill verið minna storkað.« — Ingiríðr þagði um hríð, svo litaðist hún um og sagði: »Það er líkast ekki til neins, að tala meira um þetta; en alt um það — þú ættir að forðast að fara þangað, sem þú veizt óvina þinna von.« — »Nei, þar vil ég einmitt vera; ég heiti Þorbjörn í Grenihlíð eftir forfeðrum mínum, og því nafni vil ég á lofti halda.« Hann hafði flegið börkinn af hríslukvistinum, og skelti hann nú þvert í sundr. Ingiríðr sat og horfði á hann og spurði hann svo nokkuð seinlega: »Ætlarðu að Norðr-Haugi á sunnudaginn?« — »Já.« Hún þagði nú nokkra hríð og horfði ekki á hann og segir síðan: »Veiztu, að Knútr á Norðr-Haugi er kominn heim til að vera í brúðkaupi systur sinnar?« — »Já.« — Nú leit hún á hann og sagði:« Þorbjörn, Þorbjörn!« —

»Því á hann fremr nú en áðr að fá að troða sér upp á milli mín og annara?«—»Hann kemst hvergi upp á milli; ekki framar en aðrir vilja.» — »Það er bágt að vita, hvað aðrir vilja.« — »Það veiztu nú fullvel.« — »Að minnsta kosti segir hún ekkert sjálf.« — »En að heyra til þín, maðr!« sagði Ingiríðr, og leit hálf-önugt til hans, stóð svo upp og leit aftr fyrir sig. Hann fleygði nú kvistinum, sem hann var að tálga, slíðraði hníf sinn og snéri sér að henni: »Heyrðu, — ég er af og til hálf-leiðr yfir þessu. Fólk leggr óorð bæði á mig og hana, af því að öllu er leynt fyrir manna sjónum. Og hins vegar kem eg ekki einu sinni nokkurn tíma yfir að Sunnuhvoli, — af því að foreldrum hennar geðjast ekki að mér, eftir því sem hún segir. Ég má ekki heimsækja hana, eins og aðrir ungir menn heimsækja unnustur sínar, af því hún er nú af þessu helga fólki—náttúrlega!«—»Þorbjörn!« sagði Ingiríðr og varð hálf-óróleg; en hann hélt áfram: »Faðir minn vill ekki tala mínu máli; hann segir, að ég fái hana, ef ég verðskuldi hana. Bull, tómt bull annars vegar,—og ekkert til að vega upp á móti bullinu hins vegar.—Já, ég veit ekki einu sinni, hvort hún í rauninni — —« Hér hljóp Ingiríðr að honum, tók hendinni fyrir munninn á honum og leit aftr um leið. Þá var greinunum aftr vikið til hliðar, og há og grannvaxin mær kom fram úr runnanum, stokkrjóð í framan; það var Sigrún.

»Sæl verið þið!« sagði hún. Ingiríðr leit til Þorbjarnar, eins og hún vildi segja: Þarna getrðu nú séð! — Þorbjörn leit til Ingiríðar, eins og hann vildi segja: Þetta hefðirðu ekki átt að gjöra! Hvorugt þeirra leit til Sigrúnar. »Má ég ekki setja mig dálítið niðr hjá ykkr? Ég hefi gengið mikið í dag.«

Hún settist niðr. Þorbjörn snéri sér við, eins og hann væri að gæta að, hvort það væri þurt þar sem hún settist. Ingiríðr hafði verið að skygnast heim að bænum í Grenihlíð, og alt í einu kallar hún upp yfir sig: »Nei, nei, nei! Hún Fríða hefir þá slitið sig lausa og er komin inn á miðjan akr. Kýrskömmin! Og Svarthúfa líka! Nei, nú ætlar mér ekki að dáma! Þær eru ekki lengr heima hafandi, þeim veitir ekki af að komast í selið!« — Og án þess að kveðja Þorbjörn eða Sigrúnu, hljóp hún á stað niðr allar hlíðar. Sigrún reis þegar á fætr. »Ætlarðu að fara?« spurði Þorbjörn. »Já«, sagði hún, en fór þó ekki.

»Þér er óhætt að bíða dálítið«, sagði hann, en leit ekki upp.—»Í annað sinn«, sagði hún lágt.—»Þess getr orðið langt að bíða«. Hún leit upp og hann líka og litu nú hvort framan í annað; en stundarkorn leið svo, að hvorugt sagði neitt. »Seztu niðr aftr«, sagði hann hálf-feiminn. »Nei«, svaraði hún og stóð. Nú fór að vakna stríðlyndið í honum; en þá gjörði hún nokkuð, sem hann hafði ekki við búizt; hún gékk skrefi nær honum, laut að honum, leit framan í hann og sagði brosandi: »Ertu reiðr við mig?« En þegar hann leit framan í hana, sá hann, að hún var með tárin í augunum. »Nei«, sagði hann og eldroðnaði.

Hann rétti að henni höndina, en henni var svo vott um augu, að hún sá það ekki, og dró hann svo höndina að sér aftr. Svo segir hann loksins: »Þú hefir þá heyrt til okkar?« — »Já«, sagði hún og leit upp brosandi, en tárin runnu nú enn tíðara af augum hennar; hann vissi ekki, hvað hann átti að gjöra eða segja, og varð honum ósjálfrátt að orði: »Ég

hefi líklega verið of slæmorðr«. Hann sagði þetta mjög blíðlega; hún leit niðr, hálf-vék sér undan og sagði: »Þú mátt ekki dæma um það, sem þú þekkir ekki«. Þetta var sagt með grátkæfðri rödd, og varð honum mjög órótt við það; honum fanst hann vera eins og krakki, og sagði því líka, með því honum hugkvæmdist ekki annað: »Fyrirgefðu mér«. En þá gat hún ekki lengr á sér setið að hágráta. Þetta gat hann ekki staðizt, svo hann gékk til hennar og tók utan um mittið á henni, laut að henni og sagði: »Elskarðu mig nú líka af öllu hjarta, Sigrún?«—»Já«, sagði hún grátandi.—»En þú finnr ekki fullsælu í þessari ást?«—Hún svaraði engu. »En þú finnr ekki fullsælu í þessari ást?« endrtók hann aftr. Hún grét nú enn meira, en fyrr, og ætlaði að vinda sig af honum. »Sigrún!« sagði hann, og tók fastara utan um hana. Hún hneig að barmi honum og grét mikið.

»Komdu, við skulum tala betr saman«, sagði hann, og setti hana hjá sér í lyngið. Hún þurkaði tárin af augum sér og reyndi að brosa; en það vildi ekki takast. Hann hélt í aðra höndina á henni og horfði framan í hana. »Elsku-Sigrún, því má ég aldrei koma yfir að Sunnuhvoli?«—Hún þagði. »Hefirðu aldrei beðið um það?—Hún þagði. »Því hefirðu aldrei gjört það?« spurði hann og dró hendina á henni nær sér. — — — »Ég þori það ekki«, sagði hún undr lágt.

Hann sótroðnaði, dró dálítið að sér annan fótinn, studdi ölnboganum á knéð og studdi svo hönd undir kinn. — — »Með því móti kem ég líklega aldrei yfir um þangað«, sagði hann loksins. Hún svaraði engu, en fór að reyta upp lyngið við hliðina

á sér. »O-ja — ég hefi nú ef til vill gjört margt, — sem—var ekki eins og vera skyldi. — — En dálítið umburðarlyndi mætti þó með mér hafa. — — Vondr er ég ekki (hér þagnaði hann dálítið við); ég er líka svo ungr enn þá—liðlega tvítugr«. — — — Það var eins og hann gæti ekki haldið strax áfram.—»En sú, sem elskaði mig af ö l l u h j a r t a«, sagði hann aftr, — — »hlyti þó —« hér þagnaði hann alveg. Þá heyrði hann sagt lágt við hliðina á sér: »Svona máttu ekki tala — — þú veizt ekki, hvað mikið ég — — ég þori ekki einu sinni að segja Ingiríði það; (hér kom upp hjá henni ákafr grátr)—ég——tek svo — — mikið út!« Hann lagði handlegginn utan um hana og dró hana fast að brjósti sér. »Talaðu við foreldrana þína«, hvíslaði hann að henni, »og þá skaltu sanna, að verðr gott úr öllu.« —»Hvað úr öllu verðr, er alt undir þ é r komið«, sagði hún aftr lágt.—»Undir m é r komið?« Þá snéri Sigrún sér að honum og lagði hönd um háls honum. »Ef þú elskaðir mig eins og ég elska þig!« sagði hún hjartans-blítt og reyndi að brosa.—»Og heldrðu ekki að ég gjöri það?« sagði hann blítt og lágt. — »Nei, nei; þú vilt engin mín ráð hafa; þú veizt, hvað gæti leitt okkr saman, en þú gjörir það ekki. Því gjörirðu það ekki?«—Og þegar hún var nú einu sinni komin á lagið, þá hélt hún hiklaust áfram: »Ó, guð minn góðr! ef þú vissir, hversu ég hefi þráð þann dag, að ég fengi að sjá þig á Sunnuhvoli, en s í f e l t skal eitthvað heyrast, sem ekki er eins og vera skyldi, — og sárast er, að það skuli vera sjálfir foreldrarnir, sem færa manni það«.— Það var eins og hann vaknaði af draumi; nú sá hann svo glögt í huga sér, hvernig hún gekk þarna daginn út og daginn inn á

Sunnuhvoli og beið eftir ofrlítilli friðarstund, svo að hún gæti leitt hann blíðlega fram fyrir foreldra sína; — en þessa friðarstund veitti hann henni aldrei.

»Þetta hefðirðu átt að segja mér fyrri, Sigrún!« — «Hefi ég ekki gjört það?« — »Nei, ekki svona«. — Hún hugsaði sig um dálitla stund; svo lagði hún svuntufaldinn sinn í fellingar og sagði um leið: »Það hefir þá líklega verið af því, að ég þorði það ekki alminnilega«. En þetta, að hún skyldi hafa ótta af honum, það fékk svo á hann, að í fyrsta sinni á æfi sinni kysti hann hana.

Henni varð svo mikið um kossinn, að grátrinn stöðvaðist alt í einu; það var eins og móðu drægi fyrir augun á henni, hún reyndi að brosa, svo leit hún niðr, svo upp á hann, og svo brosti hún fyrir alvöru. Þau töluðu ekki meira saman,—þá tóku þau höndum saman aft, en hvorugt þeirra þorði að þrýsta fyrst höndina á hinu. Svo dró hún hægt að sér höndina, og fór að þurka sér um augun og andlitið og slétta á sér hárið, sem hafði úfnað dálítið. Hann sat þar og hugsaði með sjálfum sér, meðan hann horfði á hana: Þó hún sé ófrekari en hinar stúlkurnar í sveitinni og vilji láta fara öðruvísi að sér, þá er ekkert um það að segja.

Hann fylgdi henni upp að selinu, sem lá þar skamt frá. Hann langaði til að leiða hana; en það var eins og eitthvað það væri komið yfir hann, að hann þorði naumast að snerta hana, og honum fanst það undarlegt, að hann skyldi mega ganga við hliðina á henni. — Því sagði hann líka við hana, þegar þau skildu: »Nú vona ég að það líði á löngu, áðr en þú fréttir nokkuð misjafnt af mér«.

Þegar hann kom heim, var faðir hans að bera korn í mylnuna; því grannfólkið þar í sveitinni var vant að fá malað í Grenihlíðar-mylnunni, þegar vatnið þraut hjá þeim; því í Grenihlíðar-ánni þraut aldrei vatn. Það vóru margir sekkir, sem bera þurfti, sumir dávænir og sumir óhemju-stórir. Kvennþjóðin stóð þar nálægt, og var að vinda föt í þvotti. Þorbjörn gekk til föður síns, tók í einn pokann og sagði: »Á ég ekki að hjálpa þér?« — »O, ég kem því einn af«, sagði Sæmundr, lyfti röskloga á sig poka og hélt á stað til mylnunnar.

»Þeir eru margir hér«, sagði Þorbjörn, tók tvo stóra sekki, setti bakið að og þreif sinni hendi hvorn yfir axlir sér, og stóð upp með þá. Miðja vega mætti hann Sæmundi, sem kom aftr til að sækja meira. Sæmundr gaf syni sínum hornauga þegar þeir mættust, en sagði ekkert. Þegar Þorbjörn kom aftr frá mylnunni, mætti hann Sæmundi, sem bar á baki sér tvo sekki miklum mun stærri. Í þetta sinni tók Þorbjörn einn sekk lítinn á bakið og fór með; þegar Sæmundr mætti honum, leit hann til hans og horfði á hann nokkru lengr en í fyrra sinni. Svo æxlaðist svo til, að þeir komu skömmu síðar jafnsnemma að skemmunni. — »Það eru komin boð hingað frá Norðr-Haugi«, sagði Sæmundr; »þér er boðið þar í brúðkaupsveizlu á sunnudaginn«. — Bæði Ingiríðr og móðir Þorbjarnar litu bænaraugum til hans, þaðan sem þær vóru við verk sitt. — »Það er svo«, sagði Þorbjörn þurlega, en í þetta sinu tók hann tvo stærstu sekkina, sem vóru í skemmunni. »Ætlarðu að fara?« spurði Sæmundr svipþungr.—»N e i«.—(Framh. næst.—*J. Ólafss.* þýddi).

# Dánumenskan.

Eftir

## Mark Twain.

---

Báðir þeir, sem frá verður skýrt í sögu þessari, voru dálítið í ætt saman. Þeir höfðu báðir mist foreldra sína í barnæsku, en höfðu seinna verið teknir í sonar stað af barnlausum hjónum, er Brant hétu. Fósturforeldrarnir innrættu þeim þetta heilræði: »Sjáið til, að þið séuð sómapiltar, ráðvandir og reglusamir og bindindissamir, ástundunarsamir og kurteisir við fólk, þá eruð þið vissir með að komast áfram í heiminum«. Drengirnir höfðu heyrt þessi orð þúsund sinnum áður en þeir skildu þau, og kunnu þau utan bókar áður en þeir kunnu: »Faðir vor!«; orðin stóðu sem sé líka uppi yfir skóladyranum, svo þau hafa víst verið hið fyrsta sem þeir lærðu í þessu lífi. Þessi fagra lífsregla átti að verða ófrávíkjauleg mælisnúra fyrir æfiferil Edvarðs Mills. Þau hjónin Brant lagfærðu orðin stundum dálítið og sögðu: »Sjáið til að þið séuð sómapiltar, ráðvandir og reglusamir og bindindissamir og kurteisir við fólk, þá mun ykkur aldrei vanta vini«.

Edvard litli Mills var vel látinn af öllum, sem

kynni höfðu af honum. Þegar hann bað um sykur og sætindi, þá gegndi hann ætíð rödd skynseminnar og var þolinmæðin sjálf. En þegar Georg litli Benton krafði sykurs og sætinda, þá grenjaði hann þangað til kröfum hans var fullnægt. — Edvarð fór gætilega með barnagull sín, en Georg mölvaði sín hið skjótasta og var svo óþolandi keipóttur, að menn húsfriðarins vegna fengu Edvarð litla með góðu til þess að að eptirláta uppeldisbróðurnum sín barnagull.

Þegar drengirnir stálpuðust, varð Georg fósturforeldrum sínum fjarska-kostnaðarsamur; hann hlífði ekki fötum sínum hið minsta og spjátraði sig því jafnaðarlega í spánýum fötum, þar sem Edvarð aptur nýtti út sín gömlu föt. Báðir tóku hinum bezta þroska og urðu stórir. Edvarð mátti kalla upprennandi aðstoð, en Georg vaxandi byrði. Bæði Edvarð einhvers, þurfti ekki annað en að segja: »Heldur vildi eg að þú létir það vera« — nefnilega það að fara í sjó, renna sér á skautum, ganga í samdrykkjur, eða til reiðsýninga, sem drengjum hættir við að hafa gaman af. En þess konar svör bitu ekki á Georg; óskum hans hlaut framgengt að verða, hvað sem kostaði, og hann hafði ávalt sitt fram. Það hefir þá líklega ekki verið neinn drengur, sem meira hefir synt, rent sér á skautum o.s.frv. heldur en hann; enginn hafði lifað glaðari barnæsku. Hin »skikkanlegu« Brants hjón leyfðu ekki uppeldisbörnum sínum að hlaupa út og leika sér eptir kl. 9 á sumarkvöldin; á þeim tíma upp á slagið áttu þau að hátta. Edvarð hlýddi þessu boði allraskyldugast, en Georg smaug optast nær út um gluggann kl. 10, og var að drabba þangað til um miðnætti. Það sýndist lengi vel ó-

kleyft að koma honum af þessum óvana, þangað til þeim Brants hjónum tókst loksins að festa hann við heimilið með eplum og sleikjusætindum. Hinir »skikkanlegu« fósturforeldrar gerðu sér alt ómak, sem hugsazt gat, til að betra Georg, en það varð árangurslaust. Þau sögðu með tárin í augunum, að Edvarð gerði sér aldrei hina minstu sorg; hann væri svo góður og hugulsamur og í öllum greinum sannkölluð fyrirmynd annara barna.

Eptir nokkurn tíma liðinn voru drengirnir orðnir nógu stórir til að vinna og áttu þá að nema einhverja handiðn. Edvarð leitaði sér vinnu fríviljuglega, en fyrir Georg varð að dekra og gefa honum gjafir til þess að fá af honum, að láta eptir foreldrunum. Edvarð vann með ástundun jafnt og þétt og gat fætt sig og klætt; Brants hjónin hældu honum og meistarinn eins; Georg þar á mót strauk burtu úr kensluvistinni og kostaði það herra Brant bæði tíð og peninga að fá hann leitaðan upp og heimfluttan. Skömmu síðar strauk hann aptur, og kostaði það aptur tíð og peninga, svo strauk hann enn einu sinni og stal í tilbót einhverju smávegis og hafði burt með sér. Þarna hafði herra Brant í þriðja sinn áhyggjur og útgjöld hans vegna, og það var með mestu naumindum, að meistarinn varð fenginn ofan af því að tilkynna lögreglustjórninni þjófnaðinn.

Edvarð vann ótrauður með stöðugu áframhaldi og að endingu tók meistarinn hann í félag með sér. Hins vegar varð Georg ekkert ágengt, heldur gerði hann sínum tryggu velgjörðamönnum hverja sorgina á fætur annari, og veitti þeim ærið að sýsla, þar sem þeir urðu alt af að hafa hugann á því, að verja hann

við fullkominni glötun. Eðvarð hafði þegar á drengja aldri hneigt mjög huga sinn að sunnudagaskólum, kvennafélögum til sjúkrahjúkrunar, trúarboðsmálefnum, félögum til útrýmslu tóbaksreikinga o. s. frv.; nú varð hann sem fullorðinn maður úthaldsgóður og áreiðanlegur aðstoðari í safnaðarmálum, hófsemdarfélögum og í stuttu máli að segja í allri viðleitni til þess að hefja mannfélagið á æðra stig.

Loksins dóu gömlu hjónin. Í erfðaskjali sínu höfðu þau lýst yfir ánægju sinni með Eðvarð—og ánafnað Georg sínar litlu eigur, því hann þyrfti þeirra með, þar sem um Eðvarð væri öðru máli að gegna—svo væri »náðugri forsjón« fyrir þakkandi. En arfurinn tilféll Georg ekki nema með einu skilyrði: hann átti sem sé að verja honum til að kaupa samlagsmann Eðvarðs út úr félaginu; að öðrum kosti skyldu peningarnir ganga til einnar guðsþakkastofnunar, sem sé »fangelsisfélagsins«. Eptir hjónin önduð fanst líka bréf, og var það inntak þess, að þau báðu Eðvarð að ganga í sinn stað, hvað Georg snerti, og hjálpa honum og reyna að halda honum í horfinu eins og þau hefðu gert.

Eðvarð varð dyggilega við þessari bæn þeirra og tók Georg í samlagið með sér. En hann var ekki neitt góður samlagsmaður. Hann hafði þegar áður hneigzt nokkuð til áfengra drykkja og vandi sig nú á að staupa sig daglega; það fór fljótt að verða auðséð á andliti hans.

Eðvarð hafði alllengi verið að draga sig eptir ungri stúlku og laglegri. Þeim þótti innilega vænt hvoru um annað. En svo fór Georg að ganga eptir henni líka og sótti það svo ákaft, að stúlkan kom

loksins grátandi til Eðvarðs og sagðist glögglega sjá, hvað heilög og háleit skyldan byði sér; hún þyrði ekki lengur að láta leiðast af eigingjarnlegum óskum sjálfrar sín—hún mætti til að giptast »veslingnum honum Georg« og reyna að frelsa hann. Hún kvaðst reyndar vita, að hjarta Eðvarðs mundi bresta við það tiltæki sitt o. s. frv.; en skylda væri skylda. Hún giptist þá Georg, og er sjálfsagt, að bæði hennar hjarta og Eðvarðs lá við að bresta. Alt um það mannaði Eðvarð sig upp og kvæntist annari ungri stúlku og í tilbót mjög svo elskuverðri.

Báðum hjónunum varð barna auðið. María gerði alt sem hún gat til að frelsa Georg, en það var henni um megn. Hann sökk alt af dýpra og dýpra og seinast misþyrmdi hann jafnvel sinni hjálparlausu konu og sínum saklausu börnum. Margir töluðu um fyrir honum þessu viðvíkjandi; hann tók átölum þeirra hógværlega, eins og væru þær verðskuldaðar, en breytti samt ekki háttalagi sínu. Svo hneigðist hann enn að öðrum lesti; hann gerðist spilari. Hann safnaði skuldum og tók í pukri peningalán upp á samlagsins reikning og það svo freklega, að fóetinn kom einn góðan veðurdag og lokaði búðinni, svo báðir uppeldisbræðurnir stóðu nú tómhentir eptir á strætinu.

Nú var illa komið fyrir þeim og þó varð það enn verra. Eðvarð flutti með sig og sína upp í þakhýsi og leitaði, já, sníkti eptir atvinnu dag og nótt; en alt saman til ónýtis. Hann varð hlessa þegar hann sá, hversu hann var ókærkominn alstaðar, og hversu lítið mönnum var orðið um hann gefið móts við það sem áður var. En vinnu varð hann endilega að fá sér. Hann sekti því sorgina og gremjuna í

brjósti sér og hélt áfram að leita og leita fyrir sér. Loksins fékk hann þá vinnu sem undirtylla við múrsmíði og þáði það fegins hendi; en enginn vildi nú framar kannast við hann og enginn kærði sig neitt um hann. Hann gat ekki lengur greitt tillag sitt til hinna ýmsu félaga, sem hann áður hafði unnið fyrir, og var því nafn hans strykað út á félagaskránum.

En að sama skapi sem fólk hætti að sinna Eðvarði, að sama skapi fór það að láta sér hugað um Georg. Eina morgunstund hafði hann fundizt gauðrifinn og dauðadrukkinn í rennusteini. Einhver úr »Kvennahófsemdarfélagsnefndinni« náði honum upp, tók hann að sér og stofnaði til samskota handa honum, hélt honum svo ófullum í heila viku og útvegaði honum einhverja stöðu. Þetta kom í dagblöðin, athygli manna alment beindist að þessum veslings skelmi og margir hjálpuðu honum með ráði og dáð. Í tvo mánuði bragðaði hann ekki nokkurn dropa af »spiritus« og var þann tíma dýrðlingur allra dándismanna. Svo valt hann útaf— í rennusteininn, — og olli sá atburður alsherjar sorg og harmatölum. En hið veglynda systra-félag frelsaði hann aptur. Þeim tókst að gera hann hreinan, þær leiddu hann á réttan veg, hlýddu á hans angurværa iðrunar kvak og útveguðu honum aptur stöðu hans, er hann hafði brotið af sér. Þetta lofsverk þeirra var og gert heyrum kunnugt og múgurinn flaut í feginstárum af því, að þessi vesalings syndari, sem snapsarnir höfðu á kné komið, skyldi hafa rétt sig við aptur. Það var haldinn afarmikill hófsemdarfundur, og áður en honum var slitið, sagði forsetinn með tilhlýðilega

4*

skjálfandi málrómi: «Nú er aðeins eptir að skora á fundarmenn, að skrifa undir bindindis loforðið, og munuð þér í því tilefni fá að sjá þá sjón, sem fáir munu geta á horft með þurrum augum«. Eptir það varð stutt þögn, en því næst kom inn Georg Benton og fylgdu honum kvennfélagar úr »Kvennahófsemdarfélaginu«, með rauðar yfirhafnir; skrifaði hann svo nafn sitt undir hið hátíðlega framlagða heitsskjal. Yfir þessu varð ákaflegur fögnuður með lófataki og hver maður var þar með tár í augum. Allir, sem við voru, þrýstu hönd hins aptur horfna syndara; laun hans voru hækkuð frá næsta degi; hann varð alt í einu höfuðgarpur og ekki um annað talað í borginni en hann. Greinileg skýrsla kom út um allt, sem fram hafði farið á fundinum.

Georg Benton hrapaði í spillingu reglulega þriðja hvern mánuð, en varð eins reglulega frelsaður aptur, og var honum jafnan komið í einhverja góða starfsvist. Loksins var hann svo sem aptur horfinn drykkjumaður ráðinn og launaður til að ferðast um landið og halda ræður.

Hann var svo vel látinn í átthögum sínum og hafði — milli túranna — svo mikla tiltrú meðal manna, að hann gat eptirritað nafn annars borgara og tekið út töluverða peningaupphæð í bankanum. Þrátt fyrir það, að vinir hans gerðu sitt sárasta til að koma honum undan hegningu fyrir afbrot þetta, þá var hann samt dæmdur til tveggja ára fangavistar. En þegar fyrra árið var liðið, tókst þó vinum hans eptir langa mæðu að hafa sitt fram, og var honum slept út úr fangelsi með náðunarbréf í vasanum. »Fangelsafélagið« var undir eins til taks við útgöngu hans úr prísundinni og sá honum fyrir góðri stöðu

með góðum launum, og allir góðgjörðasamir borgarar studdu hann með ráðum, upphvatningum og hjálpsemi.

Meðan alt þetta gerðist, hafði Eðvarð gengið upp og niður í lífsbaráttu sinni. Hann var enn þá fátækur, en hafði komizt að við banka nokkurn, af því hann hafði kynt sig sem heiðvirðan og skilríkan gjaldkyra; hann hafði þar föst laun, en heldur sparleg. Georg kom aldrei til hans og spurði aldrei, hvernig honum liði. Sá hinn sami Georg hafði nú verið lengi heiman að og fóru að ganga af honum ljótar sögur.

Eitt vetrarkvöld brutust þjófar nokkrir með grímur fyrir andlitum inn í bankann og hittu þar Eðvarð Mill aleinan. Þeir kröfðu þegar, að hann segði sér, hvernig ætti að ljúka upp peningaskápnum. Hann færðist undan. Hann sagði að bankastjórnin hefði traust á sér og hann vildi ekki sýna sig þess trausts ómaklegan; lífið gæti hann látið ef svo skyldi vera, en leyndarmálið um lásinn vildi hann með engu móti gera uppskátt.

Innbrotsþjófarnir drápu hann.

Uppgötvunarmennirnir við lögregluna komust á réttan rekspöl og handtóku fantana; Georg Benton var forsprakki þeirra. Menn kendu alment mjög í brjóst um ekkju hins heiðarlega gjaldkyra og hin munaðarlausu börn hans, og öll dagblöð í landinu skoruðu á bankana að sýna viðurkenningu og virðingu fyrir trúleik og hugrekki hins drepna gjaldkyra með því að skjóta saman álitlegri peningaupphæð handa ekkju hans og börnum. Árangurinn af þeim samskotum varð samtals nokkur hundruð krónur,

að jafnaðartali 5 aurar frá hverjum banka í Bandafylkjunum.

Mót Georg Benton var höfðað sakamál. Ekkert var sparað til að frelsa hann, hvorki peningar, né málsmetandi manna tillögur, en það var sama sem að berja í steininn; hann var dæmdur til lífláts. Þegar dómurinn var upp kveðinn, hafði dómarinn engan frið fyrir bænarskrám um breytingu á dómnum eða um náðun. Bænarskrárnar voru frambornar af tárfellandi yngisstúlkum, sorgbitnum gömlum jómfrúm, hátíðlega harmþrungnum ekkjum og hópum biðjandi barna frá munaðarleysingja húsunum. En það tjáði ekkert; landstjórinn synjaði allrar bænheyrslu.

Georg Benton hafði þá ekki annað til að flýja en huggun trúarinnar og greip hana dauðahaldi. Þessi gleðilegu tíðindi þutu eins og flugeldur úr einum stað í annan. Eptir það var fangaklefi hans alt af fullur af ungum stúlkum, frúm og ferskum blómstrum; allan liðlangan daginn var beðizt fyrir, sungnir sálmar eða talað um guðrækilegt efni, nema hvað einstöku sinnum voru málhvíldir á milli, þegar fólk þetta þurfti að fá sér hressingu. Með þetta var haldið áfram alt til hins síðasta dags og Georg hófst hróðugur til hæða með svarta grímuhettu[1] í augsýn hins harmandi mannfjölda, þar sem inir beztu og merkustu dándismenn borgarinnar voru saman komnir.

Ekkja gjaldkyrans lifir í mesta vesaldóm með börnum sínum. En það voru nokkrir skynugir menn, sem ómögulega gátu eirt því, að slíkur

1) Á þá, sem eiga að hengjast, er látin svört grímu-hetta

frækleikur og dyggleikur, sem hann hafði sýnt af sér, skyldi ólaunaður verða, og því tóku þeir sig til og söfnuðu með samskotum rúmum 120,000 krónum — og hafa þeir í minningarskyni bygt kyrkju fyrir þá peninga.

*Stgr. Th.*

# Steinhöggvarinn.

Japanskt æfintýr.

---

Einusinni var fátækur steinhöggvari í *Japan;* hann vann stöðugt baki brotnu í grjótnámunum, en fénaðist lítið, og var þess vegna sí-óánægður með hlutskipti sitt.

»Ó væri eg að eins svo ríkur, að eg gæti hvílt mig almennilega, og sofið á þykkum mottum og gengið í silkislopp«.

Svo látandi kvörtun sendi hann upp til himins, og tók einn af englunum eptir henni.

»Þér skal verða að ósk þinni«, mælti engillinn. Og maðurinn varð ríkur, svaf á þykkum mottum og gekk í fallegum silkislopp.

Þá bar svo til, að keisarinn fór fram hjá með stórri riddara og hirðmannasveit og umkringdur af þjónum, sem báru gullna hlíf yfir höfði honum. —

»Hvaða gagn hef eg af því að vera ríkur«, sagði steinhöggvarinn, »meðan eg hef ekki skrautlega sveit til fylgdar mér og gullna sólhlíf yfir höfuðið? Því er eg ekki keisari?«

»Það skalt þú verða«, mælti engillinn.

Og hann varð það í raun og veru. Föruneyt

hans var ríkmannlegt og ljómandi og gullin sólhlíf skýldi höfði hans.

Sólin skrældi jarðríki með sínum brennandi geislum; endurskinið frá jörðinni blindaði og þreytti augun.

»Það er þá gagn í því að vera keisari«, kallaði steinhöggvarinn, »þegar hitinn er svona megn og sólin svona voldug. Eg vil heldur vera sól«.

»Líttu frá þér; ertu svo ánægður?« sagði engillinn.

Og hann varð að sól. Hann sendi geisla sína upp á við og niður á við, til hægri og vinstri og alla vega kringum sig.

Hann sveið grænku jarðarinnar og hörund konunganna.

Þá gekk ský nokkurt á milli hans og jarðarinnar og varnaði geislum hans að komast niður á við.

»Hart er þetta«, sagði hann, »það þarf ekki nema eitt ský til að storka veldi mínu. Eptir því væri betra að vera ský«.

»Verði svo«, mælti engillinn.

Í sama vetfangi varð breytingin og nýja skýið skaut sér drembilega milli sólar og jarðar; það bægði geislunum frá jörðinni, svo löndin fóru að grænka og blómgast aptur í hinum skýlandi skugga.

Því næst sendi það rigningu og dynjandi úrfelli niður á jörðina; þá hljóp vöxtur í vötnin, svo þau flóðu yfir löndin og eyddu þau.

Ekkert stóðst við þessu almenna flóði; að eins einn klettur gnæfði upp úr eyðileggingunni fastur og óbifandi.

Það var til einskis, þó bylgjurnar ólmuðust á

honum, því hann stóð óhreyfður og óskekinn, en þær brotnuðu og dóu við fætur hans.

»Þessi eini klettur setur mér þá lög« sagði skýið. »Eg vildi óska að eg væri í hans sporum«.

»Þú skalt verða það«, mælti engillinn.

Og samstundis varð hann að hinum fasta, óbifandi kletti, sem sólargeislarnir unnu ekkert á, og sem rigningarnar og bylgjurnar fengu ekki grafið fætur undan.

En fyrir neðan sig sá hann allt í einu einhvern lítilmótlegan mann og fátæklega til fara, og var hann útbúinn með járnmeitil og hamar. Þessi maður klauf af honum hverja blökkina eptir aðra, og hjó þær í einlæg teningsmynduð stykki.

»Hvað er þetta?« kallaði kletturinn. Einn maður skyldi megna að rífa heilar blakkir úr brjósti mínu? Eg væri þá eptir því óstyrkari en hann? Betur eg væri orðinn að þessum manni«.

»Verði þinn vilji«, sagði engillinn.

Og hann varð fátækur steinhöggvari, eins og hann var í fyrstu, almúgamaður og erfiðismaður í grjótnámunum. Hann hafði harða vinnu, varð að strita án afláts, og fékk lítið í aðra hönd, en var nú héðan af vel ánægður með hlutskipti sitt.

*Stgr. Th.*

---

# Kvæði.

---

## Fyrsta lóukvak.

Í *apríl* var hlánað úr helgadd og snæ,
Mig heillaði veðráttan þýða,
Og *Esjan* frá miðju var bláum með blæ,
Og brúnleitt var láglendið víða,
En brattar um gnýpur í hvítleitum hrönnum
Sig hnappaði þokan og lá yfir fönnum;
Og engin hreyfðu sig andkul stirð,
Í unaðsljúfri kyrð.
Á háholti stóð jeg sem hniginn í draum,
Þá heyrði jeg fugls röddu blíða,
Jeg lagði við hlustir og gaf henni gaum
Og girntist enn lengur að bíða;
Það var lóunnar kvak, sem úr loptinu bar,
Jeg leit mig í kring og vissi ei, hvar það var,
Hið fyrsta lóukvak, sem gall úr geim
Með gleðiboð um vor í norðurheim

Svo kom það við endalok illviðra grands
Um æginn til heimverustaðar
Það vængborið óskbarn hins einmana lands
Í úthafi norðurs við jaðar.

Það kvaddi þau suðrænu, sólbjörtu löndin,
Með segulkrapt teygði það fósturlandsströndin,
Og nú við hraunin og holt og mó
Það hjörtum gefur fró.
Þó veit jeg í löndunum sunnar er sagt,
Að sorglega heiðlóan kveði,
Þar vorið sitt hljómfagra lag hefir lagt
Með lævirkjans dillandi gleði.
Þar er lóunnar kvak svo sem auðnarhljóð eitt,
En efst við norðrið það gleði fær veitt,
Hið fyrsta lóukvak; — þá hverfa hjörn
Við hrjóstrin grá það kætir Íslands börn.

*Stgr. Th.*

---

## Excelsior[1].

Eptir
Longfellow.

Af rökkur-faldi fold var skygð,
Þá fór um þorp í *Alpa* bygð
Einn ungur sveinn á ísa slóð
Með undra fána, hvar á stóð:
*Excelsior.*

Hrygg var hans brá, þó brunnu snörp
Und brúnum augun hvöss og skörp,
Og silfurlúðurs áþekkt óm
Með annarlegum kvað hann róm:
*Excelsior.*

---

1) Orðið Excelsior þýðir: hærri, og er með því táknuð in háleita og himneska stefna æskumannsins, som fram kemur í kvæðiuu.

Hann arinbálin hýr og heit
Í húsum friðar skína leit;
Hið efra jökulbeltin breið —
Frá brjósti sveinsins andvarp leið:
*Excelsior.*

»Far skarðið ei! — hann býr til byl«,
Svo bóndinn gamli lagði til,
»Með flugstraum grenjar gljúfrafljót«.
Þá gall við hljóðskært svar á mót:
*Excelsior.*

»Bíð, bíð«, kvað meyjan, »hvíldu hér
Þitt höfuð þreytt á brjósti mér«.
Þá stóð í unglings auga tár,
En aptur röddin sama tjá'r:
*Excelsior.*

»Á feysknu brúnni forsjáll ver,
Við flóð og skriður gæt að þér!«
Það kotmanns ráð og kveðja var,
Úr klettum efra heyrðist svar:
*Excelsior.*

Þá birta tók um björgin köld
og *Bernhards*-klausturs munka fjöld
Sitt þráfalt lesna þuldi spjall,
Með þyt um loptið heyrðist kall:
*Excelsior.*

Hjá tryggum hund fannst hulinn einn
Til hálfs í skafli göngusveinn,

Og hönd hans frostköld fastgreipt var
Um fánann, sem að orðið bar:
*Excelsior.*

Hann fagur þar en lífiaus lá,
Er lýsti morgunskíman grá,
En fjær úr lopti heiðu hvell
Ein himnesk rödd sem stjarna féll:
*Excelsior.*

*Stgr. Th.*

---

## Brúðför í Harðangri.

Eptir

A. Munch.

Það tindrar heiðsumars hita-blær
Of *Harðangurs* fjarðdjúpi væna,
Þar bratthlíða fjöllin björt og skær
Við bláhimin tignarleg mæna.
Á ísbreðann stirnir og hágræn er hlíð,
Í helgidags búning er sveitin fríð,
Því, sjá, hvar á blágrænum bárum
Fer brúðfylgd á skipi með árum.

Sjá, gullkrýnd og vafin í skallaz-skrúð.
In skrautbúna situr í stafni!
Sem fjarðsveit og dagurinn fríð er sú brúð
Og fornaldar kóngsdætra jafni;
Og brúðguminn hattinum hringveifa fer,
Því hróðugur kvennval hann flytur með sjer,
Og líf það, sem brúðförin boðar,
Í bláþýðum augum hann skoðar.

Það berast um vogana glymhljóð gjöll
Af gangsöng[1] og brúðslætti[2] nógum;
Við skothvelli bergmála fellin og fjöll
Og fegins óp svara frá skógum.
Við brúðar þernur er gamnað og gletzt,
Og gildismeistarinn annast sem bezt,
Til hjónanna heiðurs og æru
Að hella á könnurnar skæru.

Með lystilegt hljómspil og lætin kát
Þeir líða yfir sæflötinn skíra,
Og sjá má þar róandi bát eptir bát
Með brúðkaupsgestina hýra.
Það stirnir á breðann og blánar um skörð,
Og blómhlaðnir apaldrar ilma við fjörð;
Það klingir frá kirkjunni á tanga
Í klukknahljóm signingin langa.

*Stgr. Th.*

---

## Tára-fró.

Eptir
Goethe.

Hví ert þú einn svò angurvær,
Er allir kætast nú?
Þín glúpnuð augun greina mér,
Að grátið hefir þú.

---

1) Á norsku: Gang = göngulag, (mars), eða lag til að ganga eptir.

2) Á n. Brudeslaat hljóðfæralag, sem leikið er við brúðkaup.

Og ef eg grátið aleinn hef,
Þá er það sjálfs míns böl,
En sæt í tárum svölun er,
Þau sefa hjartans kvöl.

Svo heyrðu þinna bræðra bæn:
Snú brjóstum vorum að,
Og ef þú hefir eitthvað mist,
Þá okkur segðu það.

Þið skiljið ei mín tregatár,
En truflið mig með ys;
Nei, ekkert misst eg enn þá hef,
En eins eg fer á mis.

Sem ungur sveinn með afl og dug
Þú upp þig manna skalt,
Því æskan hefir þrótt og þor
Og þrek sem vinnur alt.

Æ, unnið það eg aldrei get,
Það er mjer helzt of fjær;
Í himinsfegurð hátt það skín
Sem hinnig stjarna skær.

Að girnast stjörnur gagnar ei,
Menn gleðjast þær að sjá,
Og hrifnir mæna á heiðri nótt
Í hæðir jörðu frá.

Og eins í hæð um heiðan dag
Eg hrifinn margopt lít;
Um nóttu þar til tæmast tár
Eg tárum mæðast hlýt.

*Stgr. Th.*

# Sigrún á Sunnuhvoli.

## Saga

eftir

## Björnstjerne Björnson.

### Fjórði kapituli.

Það var fögr útsjón frá Grenihlíðarselinu; þaðan mátti sjá um alla sveitina, fyrst og fremst Sunnuhvol, með öllum sínum fjöllita skógi umhverfis, og svo hina bæina, þar sem þeir lágu umkringdir af skógi, og grænan völlinn næst umhverfis bæinn og bæjarhúsin í miðjunni, svo að hver bær leit út eins og friðlýstr blettr, sem numinn hefði verið herskildi frá viltri mörkinni. Það mátti telja fjórtán bæi frá Grenihlíðarselinu; af bæjarhúsunum í Grenihlíð sáust ekki nema þekjurnar og þó ekki nema frá yzta fætinum á selvellinum. Alt um það sátu stúlkurnar oft langtímum saman að horfa á reykinn, sem lagði upp úr reykháfunum þar. »Nú er mamma að elda miðdegisverðinn,« sagði Ingiríðr; »í dag er skamtað saltkjöt og svínsflesk«. — »Heyrðu til, nú er verið að kalla á piltana,« sagði Sigrún; »hvar ætli þeir sé að vinna í dag?» Og svo horfðu þær á eftir reyknum, sem þyrlaðist ótt og fjörlega upp í sólglatt loftið og tært, en spektist svo aftr, hugsaði sig um,—og lagðist svo í flatri breiðu út yfir skóginn,

alt af þynnri og þynnri, loksins eins og blaktandi blæja, og hvarf svo loks sjónum. Mörg hugsun kom þá og upp í huga þeirra og breiddist út yfir bygðina. Þennan dag mættust hugir þeirra beggja á Norðr-Haugi. Það var reyndar tveim dögum eftir hjónavígsluna, en með því veizlan skyldi standa eina sex daga, þá heyrðu þær enn þá endr og sinnum skot og skot á stangli og einstöku sinnum óm, þegar allra hæst var hrópað eða kallað. — »Það er kátt þar fólkið,« sagði Ingiríðr.—»Ekki skal èg öfunda það af því,« sagði Sigrún, og tók prjónana sína. — »Skrambi væri nú samt gaman að vera þar með,« sagði Ingiríðr, hún sat á fótum sér og horfði niðr að bænum, þar sem fólk var að ganga fram og aftr húsa milli; sumir gengu til stafbúrs, þar var nú líklega matr á borð borinn; aðrir leiddust til og frá eins og væru þeir að tala saman.—»Ekki veit ég hvað það er, sem fólk getr gengizt fyrir í þessum veizlum,« sagði Sigrún. — »Og það veit eg nú naumast sjálf,« sagði Ingiríðr, og sat sem fyrri; »það skyldi vera dansinn,« sagði hún svo. Sigrún svaraði engu. »Hefirðu aldrei dansað?« spurði Ingiríðr. — »Nei«. — «Heldrðu þá, að það sé synd að dansa?« — »Ég veit ekki alminnilega.« Ingiríðr ræddi ekki meira um þetta að sinni; því hún mundi, að »lesarar« fyrirbjóða stranglega dans, og hún vildi ekki fara frekara út í að grenslast eftir, hvað fylgisöm Sigrún væri skoðun foreldra sinna í þessu efni. En hvernig sem nú hugrinn hefir reikað, þá leið ekki á löngu, að hún sagði: »Engan dansara hefi ég vitað betri en Þorbjörn.« Sigrún þagði fyrst, en sagði svo: »Já, hann kvað dansa vel.«—»Ja, þú ættir að sjá hann dansa,« sagði Ingiríðr og snéri sér við að henni. »Nei, það

vil ég ekki,« sagði Sigrún, og var skjót til svars. Ingiríði varð hálf-hvert við svarið, sem kom svo hvatlega. Sigrún laut niðr yfir prjónana sína og taldi upp lykkjurnar. Alt í einu lagði hún prjónana í keltu sér, horfði beint fram undan sér og sagði: »Það er langt síðan ég hefi verið eins innilega glöð og í dag.«—»Af hverju er það?« spurði Ingiríðr. — »Æ, það er af því, að hann er ekki að dansa í dag á Norðr-Haugi!« Ingiríðr sat hugsandi. »Já, þar kváðu vera stúlkur, sem langar eftir honum,« sagði hún svo. Sigrún opnaði munninn, eins og hún ætlaði að segja eitthvað, en hætti við það aftr, dró prjóninn úr síðustu lykkjunni og byrjaði nýja umferð. »Þorbjörn langar nú þangað sjálfan; það er ég viss um,« sagði Ingiríðr, og hugsaði ekki út í, hvað hún sagði, fyrri en á eftir að hún leit framan í Sigrúnu, sem sat kafrjóð yfir prjónunum. Ingiríði varð nú eins og litið aftr í svip yfir alla samræðu þeirra, sló hún þá saman höndunum og færði sig til í lyngmónum, svo að hún sat nú á fótum sér fyrir framan Sigrúnu — og fór hún nú að virða hana fyrir sér; en Sigrún hélt áfram að prjóna. Þá hló Ingiríðr og sagði: »Nú hefirðu enn einu sinni leynt mig nokkru í langa herrans tíð.« — »Hvaða bull er nú í þér?« sagði Sigrún og leit hikandi augnaráði til hennar. — »Þér þykir ekkert að því, að Þorbjörn dansar,« sagði Ingiríðr sem fyr. Sigrún svaraði engu; alt andlitið á Ingiríði var nú í einu brosi, hún lagði hendrnar um hálsinn á Sigrúnu og hvíslaði að henni: »En það eina, sem þér þykir að, er það, að hann dansar við aðrar stúlkur en þig!«

»En hvað upp úr þér getr komið!« sagði Sigrún,

sleit sig af henni og stóð upp. Ingiríðr stóð líka upp og gékk á eptir henni. »Það er skaði, að þú skulir ekki kunna að dansa, Sigrún!« sagði hún hlæjandi;—»sannarlega stór skaði! komdu nú, það er jafn-gott að ég fari nú undir eins að kenna þér það!« Og svo tók hún utan um mittið á Sigrúnu, »Hverju ætlarðu nú að taka upp á?« spurði hún. »En að kenna þér að dansa, svo að þá þurfir ekki að reyna lengr þá sorg í heiminum, að hann dansi við aðrar en þig!« Nú varð Sigrún líka að hlæja, eða að minsta kosti látast hlæja. »Það kann einhver að sjá til okkar,« sagði hún. »Blessuð vertu fyrir þetta svar, svo heimskulegt sem það var,« sagði Ingiríðr, og fór þegar að raula og koma Sigrúnu úr sporum eftir hljóðmálinu.—»Nei, nei! það tjáir ekki!«—»Þú sagðir rétt í þessu, að þú hefðir ekki verið í langa tíð eins glöð og nú; komdu nú!«—»Ef ég vissi það væri óhætt!«—»Reyndu, svo skaltu sjá, hvort ekki er öllu óhætt!«—»En það kvikasilfr, sem í þér er, Ingiríðr!«—»Svo sagði kisa við titlinginn, þegar titlingrinn vildi ekki bíða, þangað til kisa gat klófest hann; komdu nú!«—»Mig langar satt að segja til þess, en . . . . .«—»Nú er ég Þorbjörn og þú ert unga konan hans, sem vilt ekki að hann dansi við aðra en þig.«—Ingiríðr raulaði nú danslag; Sigrún var að malda í móinn, en var þó komin á stað að dansa. Það var stökkdans og gékk Ingiríðr á undan með stórum skrefum og karlmannlegum handleggjaburði, Sigrún á eftir smástíg og undirleit,—og svo söng Ingiríðr:

Sig bældi refur und bjarkar-rót
:|: út við móinn. :|:
Og hérinn stökk þar með hraðan fót

:|: yfir móinn. :|:
Og geislum stafar á bjarka-blöð,
því blessuð sólin hún skín svo glöð
:|: yfir móinn. :|:

Þá brosti refur und bjarkar-rót
:|: út við móinn. :|:
Og hérinn hljóp og hann ugði' ei hót,
:|: yfir móinn. :|:
Hæ! nú er ekkert sem mæðir mig!
—Já, mikið leggur þú undir þig
:|: yfir móinn! :|:

Og refur beið undir bjarkar-rót
.|: út við móinn. :|:
Og hérinn beint honum hljóp á mót
:|: yfir móinn. :|:
Æ. æ! hver þremillinn þarna er!
—Ert þú það, frændi, sem dansar hér
:|: yfir móinn? :|:

»Bærilega gekk nú þetta,« sagði Ingiríðr, þegar þær loksins tóku hvíld til að kasta mæðinni.

Sigrún hló og sagði sig langaði meira til að dansa vals. Ingiríðr kvaðst hugsa, að það væri ekki mikið á móti því, og bjuggust þær brátt til að reyna, og fór Ingiríðr að sýna henni, hvernig sporin væru stigin; »því valsinn er vandlærðr.«—»Ég hugsa það takist, ef viðað eins náum hljóðmáli saman«, sagði Sigrún, og vildi þá Ingiríðr að þær reyndu. Þær gjörðu það, Ingiríðr söng, og Sigrún söng með, lágt í fyrstu, en síðar með fullum rómi. En alt í einu staðnæmdist Ingiríðr, slepti Sigrúnu og sló saman höndunum forviða; »þú kant þá vals!« sagði hún.

»Þey! við skulum ekki minnast á það framar,« sagði Sigrún og tók aftr dans-tökum á Ingiríði til að

halda áfram.—»En hvar hefir þú lært . . . .»—»Tra-la-la-la-!« söng Sigrún og sveiflaði Ingiríði í dans. Þá byrjaði Ingiríðr fyrst fyrir alvöru, og svo söng hún:

„Á Valafells-brún dansar eygló enn,
dansaðu', unnusta mín, því það kvöldar senn!
Sjá, elfar dansa' o'n í dimmblá höf;
nú, nú! dansaðu strákur, þar bíður þín gröf!
Sjá, björkin sveiflast við svalvinds-kast;
eins þér sveiflaðu, fjöruga mær!—Hvað brast?
Sjá, — —"

»Það eru svo undarlegar vísur, sem þú syngr,« sagði Sigrún og hætti að dansa.—»Eg tek ekkert eftir, hvað ég syng; Þorbjörn hefir sungið þetta.»—»Það var ein af vísunum hans Bents »slafa,« sagði Sigrún; »ég þekki þær.«—»Nei, er það ein af þeim?« sagði Ingiríðr hálfsmeik. Hún starði fram undan sér og þagði; alt í einu varð hún einhvers vör niðri á þjóðveginum. »Sko!—þarna ekr einhver niðr frá Grenihlíð og svo á þjóðveginn!« — Sigrún leit nú einnig í sömu átt.—»Er það hann?« spurði hún svo. —»Já, það er Þorbjörn; hann ætlar inn í kaupstað.«

— Það var Þorbjörn og hann ætlaði inn til kauptúns. En það var langr vegr inn í bæinn eða kauptúnið; hann hafði þungt hlass á vagni og ók því í hægðum sínum; vegir voru þurrir og því ryksamt. Vegrinn lá svo, að til ferða hans sást frá selinu; heyrði hann nú hóað hvelt þar efra; þóttist hann vita, hver það væri, og stóð því upp á vagnhlassinu og hóaði aftr, svo að hljómrinn bergmálaði í fjöllunum. Þá var þeyttr lúðr þar efra og barst hljóðið niðr til hans; hann hlýddi til, og þegar það hætti, stóð hann aftr upp og svaraði á ný með því að hóa. Svona gékk um hríð, og Þorbjörn var í

bezta skapi. Hann leit yfir að Sunnuhvoli og fanst hvollinn hafa aldrei fyrr verið svo sólríkr sem nú. En meðan hann ók og mændi yfir þangað, gleymdi hann alveg hestinum og lét hann renna sjálfráðan. Þá hrökk hann upp við það, að hestrinn stökk út undan sér þvert úr vegi svo sviplega, að annar vagnskökullinn brast, en hestrinn fældist og stökk yfir þvert engið á Norðr-Haugi, því að þar lá vegrinn um. Hann stóð upp í vagninum og tók í taumana, það er hann mátti; varð þar aflraun þreytt milli hans og klársins; klárinn ætlaði að hlaupa fram af bakka, en Þorbjörn tók sem fastast í taumana, svo fast, að hestrinn prjónaði; þá stökk hann af vagninum, og áðr en hestrinn rynni á stað aftr, hafði Þorbjörn náð taki um tréstofn,—og hlaut þá klárinn kyrr að standa. Nokkuð af hlassinu, sem á vagninum hafði verið, var oltið af honum, annar vagnskökulinn brotinn og hestrinn stóð skjálfandi á beinum. Hann gekk nú framan að hestinum, tók í beizlið og kjassaði hann; hann snéri honum svo við, til þess að vera óhultr fyrir brekkunni, ef hann skyldi fælast aftr. En hestrinn var orðinn svo styggr, að hann gat ekki fengið hann til að standa kyrran, og hann varð að hlaupa við fót til að fylgjast með klárnum, og svona barst leikrinn alt yfir að veginum aftr. Hann fór þá fram hjá föggum sínum, sem lágu þar um völlinn eins og þær höfðu oltið af vagninum; ílátin voru brotin og sumt til spillis farið af því, sem í þeim var. Þorbjörn hafði til þessa mest hugsað um háskann, en nú fór hann að taka eftir tjóninu og tók honum nú að sinnast; hann sá fram á, að það yrði ekkert úr neinni kaupstaðarferð í þetta sinn, og því meir sem hann hugleiddi það,

hversu komið var, því meir rann honum í skap. Þegar upp á veginn kom, þá kom aftr fælnis-kippr að klárnum, og tók hann enn viðbragð til að reyna að slíta sig lausan—og nú gat Þorbjörn ekki lengr á sér setið. Hann þreif taumana í vinstri hönd, en í hægri hönd reiddi hann sína löngu og þungu ferðasvipu, og lét hann nú með henni dynja hvert höggið á fætr öðru um lendar hestsins, og það svo ómjúklega, að dýrið varð sem trylt, og setti framhófana á brjóst honum; en hann hélt klárnum frá sér og barði hann enn óþyrmilegar enn áðr, og beitti nú skaftinu á keyrinu. »Ég skal kenna þér, þrjózku-bykkjan!« sagði hann og barði hann. Hestrinn hneggjaði og kvíaði, en Þorbjörn barði hann því ákafara. »Hér skaltu finna krafta í köglum!« sagði hann og lét höggin dynja. Hestrinn fnaus, svo að froðan vall um hönd Þorbirni, en hann barði enn hestinn: »Þetta skal vera fyrsta og síðasta sinni, krypplingrinn þinn! Svona! eitt enn! það var rétt, húðarjálkrinn þinn! Nú skaltu kenna á manns-aga!« og alt af dundu höggin. Þeir höfðu snúizt við á vellinum undir þessum aðgangi; hestrinn veitti nú enga mótspyrnu framar, en skalf og titraði undir hverju höggi, og kipraði sig hneggjandi saman, þegar hann sá keyrið ríða að sér í loftinu. Þá var eins og Þorbjörn hálf-skammaðist sín; hann hætti. Í því bili kom hann auga á mann, sem sat á ræsisbakkanum, studdist upp við ölnboga og hló að honum. Hann vissi varla, hvað að sér kom; honum sortnaði nálega fyrir augum, hann teymdi hestinn á eftir sér og óð að manninum með reidda svipu. »Þú skalt fá nokkuð til að hlæja að!« Höggið reið af, en hitti ekki nema til hálfs, því að

maðrinn hljóðaði upp yfir sig og velti sér niðr í skurðinn. Þar lá hann á fjórum fótum, en leit um öxl hornauga til Þorbjarnar og skældi kjaftinn eins og hann hlægi, en hlátrinn sjálfan heyrði Þorbjörn ekki. Þorbjörn varð forviða; því að þessa kæki hafði hann fyrri séð. Jú, það var Áslákr.

Þorbjörn vissi ekki, hvernig á því stóð, en honum fanst sem færi sér kalt vatn á milli skinns og hörunds. »Það ert líklega þú, sem hefir fælt hestinn í hvorttveggja sinnið«, sagði hann.—»Ég, sem lá hér sofandi«, sagði Áslákr og reis upp nokkuð; »og svo vaktirðu mig þegar þú lézt við hestinn eins og vitlaus maðr«.—»Það varst þú, sem fældir hann; þig fælist hver skepna«, sagði Þorbjörn og klappaði nú hestinum, en hann var svo sveittr, að rann af honum.—»Hann er nú líklega loksins orðinn hræddari við þig en mig; svona hefi eg aldrei með neinn hest farið«, sagði Áslákr; hann var nú kominn á knén í skurðinum. »Vertu ekki alt of kjafthvor!« sagði Þorbjörn og reiddi upp keyrið. Þá reis Áslákr á fætr og skreið upp úr skurðinum. »Ég? Ég kjafthvor? Nei! — — En hvert ætlar þú að halda, sem fer svo geist?« sagði hann blíðlega og gekk nú að Þorbirni, en slagaði á báðar hliðar; því að hann var fullr.—»Það verðr nú ekki lengra líklega ferðalagið mitt í dag«, sagði Þorbjörn og spretti hestinum frá vagninum. »Þetta var annars leiðinlegt«, sagði Áslákr og kom nú enn nær en áðr, tók ofan og heilsaði. »Nei, í hamingju-bænum!« sagði hann svo; »en hvað þú ert orðinn vöxtulegr maðr og vænn ásýndum, síðan ég sá þig síðast;« hann hafði báðar höndrnar í vösunum og rambaði á fótunum svo vel, sem hann gat, og virti Þorbjörn fyrir sér.

Þorbjörn var í vandræðum með að losa hestinn alveg frá vagninum; hann þurfti manns-hjálpar, en hann gat ekki af sér fengið að biðja þennan garm að rétta sér hjálparhönd; enda var Áslákr illa útlítandi; fötin hans voru út ötuð úr skurðinum; á höfðinu hafði hann afgamlan »blank«-hatt, og stóð hárið ógreitt í lýjum niðr undan hattinum; og þótt andlitið væri að vísu enn ið sama sem til forna, þá lék þó sífelt eitthvert bros á því, og augunum lygndi hann nú enn meir aftr, svo að hann hallaði höfðinu lítið eitt aftr og hálf-gapti, þegar hann horfði á einhvern. Allir andlitsdrættir voru orðnir fjörlausir, og líkaminn allr slyttulegr; því að Áslákr var drykkfeldr. Þorbjörn hafði séð hann oft áðr, en það lét Áslákr sem hann vissi ekki. Hann hafði verið landprangari og flækzt um alt héraðið, og var hann oft þar að hitta, sem glaumr og svall var á ferðum; því að hann kunni margar vísur að kveða og vel sögur að segja, og fèkk þá brennivín að skemtunar launum. Þannig hafði hann nú verið í brúðkaupinu á Norðr-Haugi; en eftir því sem Þorbjörn komst síðar að, þá hafði honum þótt ráðlegast að hafa sig á brott nokkra hríð, eftir að honum að vanda hafði tekizt að etja nokkrum saman, þar til úr því urðu áflog í illu, og var þá að því komið að hann fengi sjálfr að kenna á knefum þeirra, sem hann hafði spanað upp. »Það er eins gott að binda klárinn við vagninn, eins og að leysa hann frá«, sagði hann nú við Þorbjörn; »þú verðr þó, hvort sem er, að fara upp að Norðr-Haugi, til að fá mannhjálp«. Þorbirni hafði sjálfum dottið sama í hug, en ekki fengið af sér að ráða það við sig. »Það er fjölment boð þar«, sagði hann. — »Já, því er líka mannval gott til hjálpar þar«, svar-

aði Áslákr. Þorbjörn stóð enn og var á báðum áttum; en hann sá, sem var, að án mannhjálpar kæmist hann hvorki fram né aftr, og því væri bezt að ganga heim að Norðr-Haugi. Hann batt því hestinn á meðan og fór upp eftir. Áslákr fór á eftir honum. Þorbjörn leit um öxl við honum; »ég kem þá með góðu föruneyti til veizlunnar aftr«, sagði Áslákr hlæjandi. Þorbjörn svaraði engu, en gekk leiðar sinnar snúðugt. Áslákr gékk í hámót á eftir og raulaði fyrir munni sér:

„Það ríða tveir bændur í brúðkaups-hóf" o. s. frv.,

en það var gamalt og alkunnugt kvæði. »Þú gengr bratt«, sagði hann svo eftir nokkra hríð; »þú kemst leiðar þinnar, þótt þú farir hægra«, bætti hann svo við. Þorbjörn svaraði engu. Þeir heyrðu nú óm af dansi og hljóðfæraslætti, og sáu ýmis andlit líta út í rúðurnar á gömlu gluggunum á inu tvíloftaða bæjarhúsi. Fólk stóð í hnöppum á hlaðinu. Hann sá, að þetta fólk mundi vera að tala um það sín á milli, hverjir það væru, sem að garði bæri; svo sá hann að þeir mundu vera þektir, og að fólkið færi smám saman að koma auga á hestinn niðr frá og flátin, sem lágu út um völlinn. Dansinn hætti og alt fólkið þusti út á hlaðið rétt í því að þeir komu. »Hér kemr þá brúðkaups-gestr, þótt nauðugr komi!« kallaði Áslákr upp fyrir aftan Þorbjörn, þá er hann nálgaðist fólksþyrpinguna. Menn heilsuðu Þorbirni og þyrptust utan um hann.

»Hamingjan blessi hófið, góðan bjór á borði, fríðar gentur á gólfi og fima fiðlara á stóli«, sagði Áslákr og tróðst inn í mannþröngina. Nokkrir hlógu, aðrir voru alvarlegir; einhver sagði: »Alt af liggr vel á Ásláki prangara«. Þorbjörn hitti þegar fyrir kunn-

fólk sitt, og varð hann að segja þeim sínar farir ekki sléttar; hann fékk ekki að fara sjálfr ofan eftir aftr eftir hesti sínum og farangri, heldr voru aðrir sendir eftir því. Brúðguminn var ungr maðr, og höfðu þeir Þorbjörn gengið saman í barnaskóla, bauð hann því Þorbirni inn til að bergja á brúðkaupsölinu, og gengu þeir til stofu. Sumir vildu nú halda áfram að dansa, einkum kvennþjóðin. Aðrir vildu nú sinna miði og munngáti um hríð, og fá Áslák til að segja sögur, úr því hann væri kominn til hófsins aftr. »En vertu nú ofr-lítið gætnari en síðast«, bætti einn við. Þorbjörn spyr nú, hvar alt boðsfólkið væri. »O«, sagði þá einhver; »það varð dálítið róstusamt hér áðan fyrir skemstu; nú eru sumir lagztir fyrir, aðrir sitja úti í hlöðu og spila; en nokkrir sitja líka þar, sem Knútr á Norðr-Haugi er«. Þorbjörn spurði ekki, hvar Knútr væri.

Faðir brúðgumans var gamall maðr; hann sat og reykti úr leirpípu og drakk öl; hann sagði nú við Áslák: »Komdu þá með eina sögu; það getr verið nógu gaman að heyra til þín svona einu sinni«.

»Eru fleiri, sem biðja mig þess?« spurði Áslákr; hann hafði nú sezt á baklausan stól álengdar frá borðinu, sem hinir sátu við. »Víst er svo«, sagði brúðguminn og gaf honum staup af brennivíni; »nú bið ég þig þess«.—»Eru það margir, sem svona biðja?« sagði Áslákr.—»Til er það«, sagði ung kona á hliðbekknum og bauð honum staup af víni. Það var brúðurin, kona um tvítugs-aldr, björt yfirlitum, en holdskörp, angnstór, með fremr strengdan drátt um munninn. — »Ég hefi alt af gaman af því, sem þú segir frá«, bætti hún við. Brúðguminn leit á hana og faðir hans á hann. »Já, Norðr-Haugsfólkið hefir

alt af haldið upp á sögurnar mínar«, sagði Áslákr. »Heiðr sé því!« sagði hann og tæmdi staup, sem einn brúðarsveinninn rétti honum. »Komdu nú með eitthvað!« kölluðu nú ýmsir. »Um Sigríði flökkukind«, sagði einhver. »Nei, það er svo ljótt um hana!« sögðu þá aðrir, einkum kvennfólkið. »Segðu söguna af Hlíðarbardaganum!« sagði Sveinn trumbari. »Nei, heldr eitthvað gamansamt!« sagði ungr sveinn grannvaxinn, snöggklæddr, sem stóð og hallaðist upp að veggnum; hann lèt hægri höndina hanga lausa niðr með hliðinni, en var svo að smá-skjótast að með henni að strjúka hárið á nokkrum ungum stúlkum, sem sátu þar hjá; þær tautuðu honum til fyrir það í hvert sinn, en færðu sig þó ekki úr stað.

»Nú segi ég frá því, sem mér sýnist«, sagði Áslákr. »Og svei nú því!« sagði aldrhniginn maðr, sem lá þar uppi á rúmi og var að reykja; hann hengdi annan fótinn fram af rúmstokknum, en hinum fætinum var hann að sparka í fína treyju, sem hékk á rúmstöplinum.—»Sjáðu treyjuna mína í friði!« kallaði piltrinn til hans, sá er stóð upp við vegginn. — »Sjáðu dætrnar mínar í friði«, sagði maðrinn, sem á rúminu lá. Nú færðu stúlkurnar sig úr stað.—»Jú, ég segi frá því, sem ég vil sjálfr!« sagði Áslákr; »brennivín örvar blóð og bilaðan hressir móð«, sagði hann og klappaði saman lófunum, svo að small í. »Segðu frá því, sem v i ð viljum«, sagði maðrinn á rúminu; »því að o k k a r er brennivínið«.—»Hvernig er það að skilja?« spurði Áslákr og hafði nú alopin augu. »O! þegar við ölum grísinn, þá er það til frálags«, sagði maðrinn og dinglaði fætinum. Áslákr lygndi nú aftr augunum á ný, en hélt höfðinu eins og áðr

og sat svo um hríð; svo hneig höfuðið niðr á brjóst honum, og hann sagði ekkert.

Ýmsir yrtu nú á hann; en hann heyrði það ekki. »Brennivínið svífr nú á hann«, sagði maðrinn á rúminu. Þá leit hann upp aftr og setti upp gamla brosið; »jú, nú skuluð þið fá að heyra skemtilega sögu«, sagði hann, »Já, anzans ári skemtilega!« sagði hann svo eftir nokkra stund og brosti breiðu brosti, en þó svo, að enginn hlátr heyrðist til hans. »Hann er rétt í essinu sínu í dag«, sagði faðir brúðgumans. «Það er eitthvað til um það!« sagði Áslákr; — »eitt staup á ferðina þá!« sagði hann og rétti fram höndina. Það kom, og hann rendi það hægt út, hallaði aftr höfðinu með síðasta sopann upp í sér, kyngdi honum svo og sagði við manninn á rúminu: »Ég er nú aligrísinn ykkar hvort heldr er!« og hló svo þennan þögula hlátr eins og í fyrra sinn. Hann spenti nú greipum um kné sér og smályfti svo fætinum og ruggaði jafnframt fram og aftr á stólnum—og tók svo til máls: »Jú, það var einu sinni stúlka, sem átti heima í einum dal. Hvað dalrinn hét, stendr nú á sama, og eins, hvað hún hét. En stúlkan var fríð sýnum; svo þótti bóndanum á . . . þey! þey! —það var hjá honum, að hún var vinnukona. Hún fékk gott kaup; það var víst og satt; og hún fékk enda meira en um var samið, því hún eignaðist þar barn líka í vistinni; og mál manna var, að hann hefði gefið henni þann kaupbæti; en það sagði hann ekki, húsbóndinn, því að hann var kvæntr maðr; og hún sagði það heldr ekki, því hún var svo stolt, veslingrinn. Svo var þá logið til um faðernið, þegar krakkinn var skírðr; en það var líka endemis-strákr, þessi krakki hennar, svo það gjörði minst til, þótt

hann væri skírðr í lygi. En hún var sett í tómthús-klofa rétt við túnið, og það féll húsfreyjunni illa, sem von til var. Þegar stúlkan kom þangað heim á bæinn, þá hrækti konan á eftir henni; en ef drenggarmrinn hennar kom heim á bæinn til að leika sér við syni hjónanna, þá sagði hún þeim að reka hann burtu, herjans ekki sinn hóru-ungann; hann væri ekki betra verðr, sagði hún.

Hún nauðaði á bónda sínum nótt og dag um, að reka óræstis-stelpuna á hreppinn. En hann lét ekki undan með það meðan nokkurt manns-mót var að honum; en svo fór hann að drekka, og þá fékk konan yfirhöndina. Úr því var það eymdar-æfi, sem stúlku-garmrinn átti; og versnandi fór það ár frá ári, þar til svo var komið, að ekki lá annað fyrir henni en að svelta í hel með veslings-strákinn sinn; og hann vildi með engu móti skilja við móður sína.

Það var nú eitt árið, og annað árið eins, og átta voru þau orðin als, þessi ár; en ekki var stúlkan enn komin burt úr kofanum; en nú átti hún að hrekjast burt, hvað sem gilti.— — Og svo hraktist hún burt! — — En áðr stóð bærinn hjónanna í ljósum loga, og bóndinn brann inni; því að hann var fullr,— konan bjargaðist með börnunum, og hún sagði, að það væri bannsett dækjan í kotinu, sem hefði brent bæinn. Það getr nú verið, að svo hafi verið. — — En það getr líka verið, að svo hafi ekki verið. — — Það var undarlegr strákr, sem hún átti. Í átta ár hafði hann séð móður sína líða böl og mæðu, og hann vissi vel, hvers skuld það var; því móðir hans sagði honum það oft, þegar hann spurði hana, því hún væri alt af að gráta. Það gjörði hún líka daginn áðr en hún átti að hrekjast frá kofanum sínum, og því var

hann að heiman um nóttina.— — En hún lenti í hegningarhúsinu æfilangt, því að hún sagði sjálf við dómarann, að hún hefði kveikt þennan fallega eld þarna heima á bænum. Drengrinn fór á vonarvöl um hreppinn, og allir hjálpuðu honum, af því að hann átti svo slæma móður. Svo fór hann úr þeim hrepp og í annan langt í burt, og þar var lítið um hjálpsemi manna við hann, því að þar var víst enginn, sem vissi, hvað vonda móður hann átti. Ég held hann hafi ekki borið það út sjálfr. — Síðast er ég heyrði um hann getið, þá var hann fullr, og þeir segja hann sé orðinn æði-drykkfeldr í seinni tíð; hvort það er satt, skal èg láta ósagt; en það er satt, að ég veit ekki, hvað hann ætti betra að gjöra. Hann er vondr maðr og illr í sér, það segi ég ykkr satt; honum er illa við fólk, og einkum er honum illa við, að menn séu hver öðrum góðir, og verst er honum við, að menn séu honum góðir sjálfum. Og hann vildi helzt, að allir væru eins og hann sjálfr,— en þó segir hann það nú samt ekki, nema þegar hann er fullr. Og þá grætr hann líka, grætr svo, að tárin flóa af honum,—yfir als engu; því að yfir hverju ætti hann annars að gráta? Því að hann hefir ekki stolið eyris-virði frá nokkrum manni eða gjört neitt það ílt, svo sem margir aðrir gjöra, svo hann hefir víst ekkert að gráta yfir. Og samt grætr hann, og grætr svo, að tárin flóa af honum. Og ef þið skylduð sjá hann gráta, þá festið þið aldrei neitt mark á því, því að það er ekki nema þegar hann er fullr, og þá er ekkert mark á honum að taka«. — Þegar hér var komið sögunni, hneig Áslákr aftr á bak af stólnum og setti að honum grát minn; en hann sefaðist brátt, því að hann sofnaði út af. — »Nú er hann út

úr, svínið að tarna,« sagði maðrinn á rúminu; »þá sofnar hann alt af skælandi.«—»Þetta var ljót saga,« sagði kvennfólkið og reis á fætr, til að komast burt. »Ég hefi aldrei heyrt hann segja öðruvísi sögur, þegar hann hefir mátt vera sjálfráðr,« sagði nú gamall maðr, sem reis á fætr fram við dyrnar. »Hamingjan má líka vita, því fólk vill vera að hlusta á hann,» sagði hann svo enn fremr og leit til brúðarinnar.

## Fimti kapituli.

Sumir gengu út, en aðrir reyndu til að fá fiðlarann inn aftr, svo að dansinn gæti byrjað aftr. En fiðlarinn var sofnaðr í krók þar frammi í ganginum, og nokkrir urðu þá til að biðja honum vægðar, að hann mætti sofa í friði. »Síðan Lars félagi hans var barinn til óbóta, hefir Ólafr orðið að sitja við á annan sólarhring.« — Nú var heim komið með hest Þorbjarnar og farangr; honum var léðr annar vagn í stað þess, er bilað hafði, því að hann vildi af stað halda, hvað sem hver sagði. Sér í lagi lagði brúðguminn mikið að honum að vera kyrr; »hér er, ef til vill, ekki svo mikil gleði á ferðum fyrir mig, sem virðast mætti,« sagði hann, og vöktu þau orð hans athygli Þorbjarnar; en alt um það einsetti hann sér að fara af stað áðr en kvöldaði. Þegar fólkið sá, að hann var einráðinn í því, þá dreifðist það út um hlað; þar var mannfjöldi mikill, en smátt um gleðskap og lítill brúðkaups-bragr á öllu saman. Þorbjörn þurfti

að fá sér nýjan silatein, og fór að leita sér að efni í hann; hann fann enga spýtu hentuga á hlaðinu, og gekk hann því til viðarbyrgis þar hjá og fór þar inn; hann fór hægt og hljótt, því að hann var að hugsa út í það, sem brúðguminn hafði við hann sagt. Hann fann þar efni það, er hann vantaði, og settist hann niðr eins og í leiðslu upp við annan vegginn með kníf og spýtu í hendinni. Þá heyrði hann stunið þungan rétt hjá sér; það var hinu megin við skilrúmið, sem hann sat upp við; var þar vagnbyrgi hinu megin og örþunnt skilrúms-þil á milli; hlustaði hann nú eftir, hvað hann heyrði. »Æ, ert það—þá —þú?« heyrði hann sagt; það var karlmanns rödd, og auðheyrt, að þeim var þungt um, sem talaði, því að hann tók hvíldir milli orðanna. Þá heyrði hann grát, en það var enginn karlmanns-grátr. — »Því varstu líka að koma hingað?« heyrði hann nú spurt, og það þóttist hann nú skilja, að kvennmaðrinn segði, sem var að gráta; því að það var grátstafr í málrómnum.—»Hm,—í hvaða brúðkaupi hefði ég fremr átt að slá hljóðfæri en í þínu?« sagði nú karlmaðrinn. Það er víst Lars, fiðlarinn, sem liggr þar inn, hugsaði Þorbjörn með sér. Lars var vaskr maðr og fríðr sýnum; móðir hans var gömul kona og bjó í hjáleigukoti þar á Norðr-Haugi. En hitt hlaut að vera brúðrin!—»Því hefirðu heldr aldrei látið neitt á þér skilja?« sagði hún lágt og hægt, og var eins og henni væri líka örðugt um málið. »Mér datt ekki í hug, að þess gjörðist þörf okkar á milli,« svaraði hann heldr hvatlega. Svo var stundar-löng þöng; svo segir hún aftr: »Þú vissir þó, að h a n n vandi komur sínar hingað.« — »Ég hugsaði þú værir fastari fyrir.« — Hann heyrði nú ekki annað en tóman grát; loks

sagði hún aftr: »því vaktir þú aldrei máls á þessu?«

»það hefði varla verið til mikils fyrir soninn hennar gömlu Birgittu, að vekja bónorð til dóttur hjónanna á Norðr-Haugi,« svaraði hann eftir stundar-bið, og hafði honum veitt þungt á meðan um andardráttinn og oft stunið. Nú beið hann svars. — »Nú höfum við þó litið hýru auga hvort til annars í svo mörg ár,« sagði hún.

— »þú varst svo stolt, að ég kom mér ekki alminnilega að því, að tala við þig.« — »það var þó enginn hlutr í þessum heimi, sem ég hefði fremr óskað.—Ég beið og bjóst við þessu hvern dag,—mér fanst næstum ég hafa sjálfa mig á boðstólum. Svo hugsaði ég þú vildir mig ekki.« — Nú sló aftr öllu í þögn. þorbjörn heyrði nú ekkert svar, engan grát; hann heyrði ekki einu sinni andardrátt ins sjúka manns.

þorbjörn hugsaði til brúðgumans, sem hann þóttist þekkja að væri valmenni, og þótti honum mjög fyrir þessu hans vegna. þá heyrði hann að hún sagði: »Ég er hrædd um, að honum verði lítill gleði-fengr í mér, honum, sem ...» — »Hann er valmenni«, sagði sjúki maðrinn, og var eins og lát á honum nú aftr; það var auðheyrt á honum, að hann þjáðist fyrir brjóstinu. það var eins og henni félli þungt um að heyra þetta; því að hún sagði: »þér er víst þungt um nú; — — en — við hefðum líklega aldrei við talazt, ef þetta hefði ekki fyrir komið. þegar þú slóst Knút, þá skildi ég þig fyrst.« — »Ég gat ekki afborið það lengr.« sagði hann, — og svo stundu síðar: »Knútr bróðir þinn er vondr maðr.« — »Hann er misendis-maðr,« svaraði hún.

Þau þögðu nú nokkra hríð; svo sagði hann: »Það skal mikið vera, ef ég kemst nokkru sinni til heilsu framar. O jæja, það má nú líka á sama standa.«—»Líði þér illa, þá líðr mér ekki betr,« og svo setti að henni ákafan grát. »Ætlar þú nú að fara?« spurði hann svo.—»Já,« svaraði hún og bætti svo við: »Æ guð almáttugr hjálpi mér! hvaða líf verðr þetta fyrir mig!«—»Gráttu ekki svona,« sagði hann; »drottinn gjörir nú bráðum enda á mínum þjáningum, og sannaðu nú til, þá hægist þér um.«—»Ó, Jesús minn, Jesús minn! að þú skyldir aldrei um þetta tala!« sagði hún með örvæntingar-rómi. Þorbjörn þóttist skynja, að hún mundi hafa farið um leið, eða þá að hún kæmi lengi engu orði upp; því hann heyrði ekkert nokkra hríð og fór því út.

Þorbjörn spurði þann fyrsta, sem hann mætti á hlaðinu: »Hvað bar þeim á milli, Lars fiðlara og Knúti á Norðr-Haugi?«—»Hvað þá? þeim á milli?« sagði Pétr í Hjáleigu og kipraði andlitið, eins og hann vildi leyna einhverju í fellingunum; »já, það er von þú spyrjir, því að það var ekki stórvægið; Knútr spurði Lars rétt, hvort það væri hvellr hljómr í fiðlunni hans í þessu brúðkaupi.« Rétt í þessu gekk brúðrin þar fram hjá, sem þeir Þorbjörn stóðu; hún leit í aðra átt, en er hún heyrði Lars nefndan, leit hún til þeirra hikandi augnaráði, en augun voru rauð og þrútin. Annars var andlitið kaldlegt, svo kaldlegt, að Þorbjörn gat ekki samrýmt við það orð hennar, er hann hafði nýlega heyrt. Tók hann nú að ráða í meira.

Framar á hlaðinu stóð hestr hans og beið; hann festi sila-teininn og litaðist um eftir brúðgumanum til að kveðja hann. Hann vildi þó ekki fara að leita

hans, og var nærri feginn að hann skyldi ekki vera við, og steig því upp á vagninn. Í því heyrðist hávaði og köll frá hlaðs-horninu vinstra megin, þeim megin sem hlaðan lá. Það var heill hópr, sem kom út úr hlöðunni; þrekvaxinn maðr, sem á undan gekk, kallaði: »Hvar er hann?—Hefir hann falið sig?—Hvar er hann?«—»Þarna, þarna!« sögðu þá nokkrir. »Látið hann ekki koma hingað,« sögðu þá aðrir; »það stafar einhver ógæfan af því.«—»Er það Knútr?« spurði Þorbjörn lítinn pilt, sem stóð hjá vagninum. »Já, hann er fullr, og þá vill hann alt af berjast.« Þorbjörn var seztr á vagninum og keyrði nú hestinn á stað.—»Nei, bíddu við, lagsmaðr!« heyrði hann einhvern segja fyrir aftan sig; hann reyndi að stöðva hestinn, en hestrinn vildi áfram, og lofaði Þorbjörn honum það þá. »Hvað? Ertu hræddr, Þorbjörn í Grenihlíð?« var nú kallað enn nær honum en áðr. Nú stöðvaði hann hestinn, en leit ekki við.

»Stígðu af vagninum og komdu til góðra félaga!« kallaði einn til hans. Þorbjörn leit við. »Þakka ykkr fyrir, en ég ætla að halda heim,« sagði hann. Þeir fóru nú að þæfa um þetta, og safnaðist nú allr hóprinn að vagninum; Knútr gekk framan að hestinum, klappaði honum fyrst og tók svo um hausinn á honum og horfði framan í hann. Knútr var fremr hár vexti, ljóshærðr og stríðhærðr með snubbótt nef; hann var munnstór og munnrinn vöðvamikill, augun dökkblá og djarfleg. Honum svipaði í fáu til systur sinnar, að eins voru þau nokkuð lík til munnsins, og hann hafði sams konar þverbeint enni eins og hún, en minna, enda var eins og allir inir smágjörvu andlitsdrættir hennar kæmu stórgerðir fram á honum. »Hvað viltu hafa fyrir klárinn þinn?« spurði Knútr.

»Hann er ekki falr,« sagði Þorbjörn.—»Þú hugsar, ef til vill, að ég geti ekki borgað hann?« sagði Knútr. »Það er mér ókunnugt um.«—»Svo? þú efast um það? Þú ættir annars að vara þig á því,« sagði Knútr. Sveinninn, sá er áðr hafði staðið upp við vegg í stofunni og strokið hár meyjanna, sagði nú við þann, er næstr honum stóð: »Knútr hefir ekki í fullu tré í þetta sinn.«

Þetta heyrði Knútr. »Þori ég ekki? Hver segir það? Þori ég ekki?« æpti hann. Fleiri og fleiri þyrptust nú að. »Úr vegi, sko, klárinn!« sagði Þorbjörn og sló í hest sinn, því að nú ætlaði hann að halda af stað. »Skipar þú mér að víkja úr vegi?« spurði Knútr.—»Ég var að tala við hestinn; ég verð að komast á stað,« sagði Þorbjörn, en vék þó ekki hestinum úr vegi heldr.—»Hvað? ætlarðu að keyra ofan á mig?« spurði Knútr. — »Farðu þá úr vegi!« og nú varð hestrinn að lyfta hausnum, því að annars hefði hann sett hann á brjóst Knúti. Þá tók Knútr í taumana, og klárinn, sem mundi eftir tökunum frá því fyrri um daginn, tók að skjálfa. Þorbjörn kendi í brjósti um skepnuna, og iðraði hann nú meðferðar sinnar á henni; þess varð nú Knútr að gjalda; því nú reis Þorbjörn upp í vagninum og lét svipuna ríða um höfuð Knúti. »Slærðu mig?« æpti Knútr og hljóp að vagninum; Þorbjörn stökk ofan. »Þú ert illmenni,« sagði hann náfölr og rétti taumana sveininum áðr nefnda, sem bauðst til að taka við þeim. En gamli maðrinn, sem við dyrnar hafði setið og staðið upp þegar Áslákr hafði lokið sögu sinni, gekk nú að Þorbirni, tók í handlegg honum og mælti: »Sæmundr í Grenihlíð er of góðr maðr til þess, að sonr hans sé að berjast við slíkan áflogahund.« Þor-

björn hægðist við þetta, en Knútr æpti nú: »Er ég áflogahundr? Þá er hann það engu síðr en ég, og faðir minn er í engu síðri maðr en faðir hans. — Komdu, ef þú þorir! — Það er bezt að sveitungar okkar fái einu sinni að sjá, hvor okkar er betr að manni,« bætti hann við, og tók af sér hálsklútinn. — »Það er ætíð nógr tíminn til að reyna það,« sagði Þorbjörn. Þá sagði maðrinn, sem legið hafði í rúminu: »Þeir eru eins og kettir; þeir verða fyrst að mjálma í sig móðinn.« Þorbjörn heyrði þetta, en svaraði engu. Þá hlógu sumir í hópnum, en aðrir sögðu, að það væri ljóta skömmin að öllum þessum áflogum í þessu brúðkaupi, og að þetta væri að slást upp á aðkomumann, sem vildi fara leiðar sinnar í friði. Þorbjörn litaðist um eftir hesti sínum; hann ætlaði að halda á stað. En drengrinn hafði þá snúið hestinum og vagninum við og flutt þá á afvikinn stað. »Eftir hverju ertu að horfa?« spurði Knútr; »hún Sigrún er langt fjarri nú.« — »Hvað kemr hún þér við?«—»Nei, slíkar skinhelgis-drósir varðar mig reyndar ekki um,« sagði Knútr; »en vera má hún dragi úr þér kjarkinn.« Þetta stóðst Þorbjörn ekki; nú sáu menn að hann litaðist um til að skoða bardaga-völlinn. Nú gengu aftr nokkrir rosknir menn á millum, og kváðu þeir Knút hafa nóg ílt gert af sér í þessu brúðkaupi. — »Hann skal ekkert mér gjöra!« sagði Þjörbjörn, og þegar hinir heyrðu það, þá þögnuðu þeir. Aðrir sögðu það væri bezt að lofa þeim að fljúgast á; svo yrðu þeir góðir vinir á eftir, enda hefði þá nógu lengi fýst að reyna með sér. — »Já, satt er það,« sagði einhver, »þeir þykjast hvor um sig vera fræknastr í þsssu bygðarlagi; nú er bezt að sjá!« — »Hefir nokkr ykkar orðið var við

hann Þorbjörn í Grenihlíð?« spurði Knútr; »mér fanst hann vera hérna áðan á bænum.« — »Já, hér er hann,« sagði Þorbjörn, og í sömu svipan fekk Knútr þann löðrung á hægra vangann, að hann valt um í fangið á nokkrum mönnum, sem hjá stóðu. Nú var steinhljóð á eftir. Knútr stóð upp aftr og rann á Þorbjörn án þess að segja eitt orð; Þorbjörn tók á móti honum. Nú varð langr bardagi, því að hvor vildi undir hinn renna; en báðir voru vanir og hvor um sig varðist vel. Þorbjörn reiddi höggin fult svo títt og sumir sögðu fult svo hörð. »Þarna hefir Knútr hitt sinn líka fyrir,« sagði piltrinn, sem við hestinum hafði tekið; »farið þið frá!« Kvennfólkið flýði; að eins ein kona stóð upp á háu þrepi, til að sjá betr til þeirra; það var brúðrin. Þorbjörn varð hennar var og hægði nokkuð á sér; í því sá hann hníf blika í hendi Knúts, og mintist hann þá orða hennar, að Knútr væri misendis-maðr, beindi hann því vel höggi á arm Knúts fyrir ofan úlfliðinn, svo að hnífrinn hrökk úr hönd honum, en handleggrinn dofnaði. »Æ! skárra var það nú höggið!« sagði Knútr. »Fanst þér það?« spurði Þorbjörn og rann undir hann í sömu svipan. Knútr átti nú í vök að verjast, er hann gat að eins haft full not annarar handarinnar. Þorbjörn hóf hann á loft og bar hann, en þó stóð það á nokkru áðr en hann gæti lagt hann. Oftar en einu sinni var hann knúinn svo til jarðar, að flestir aðrir mundu hafa undan látið; en Knútr var baksterkr. Þorbjörn bar hann nú til, svo að fólk varð að hörfa undan, og færði hann þannig leikinn upp að dyraþrepinu; þar hóf hann hann enn einu sinni á loft og keyrði hann svo hart niðr, að Knútr kiknaði í knjáliðunum og féll flatr á stein-

helluna, svo að buldi undir í skrokknum. Hann lá grafkyrr, stundi þungan og lukti svo augunum aftr; Þorbjörn rétti sig upp aftr og leit upp; varð honum þá litið framan í brúðrina, en hún stóð og horfði á og brá í engu. »Takið þið eitthvað og leggið undir höfuðið á honum«, sagði hún um leið og hún snéri sér við og gékk inn.

Tvær gamlar konur gengu þar hjá. Þá sagði önnur við hina: »Drottinn minn! þarna liggr nú einn aftr; hver er nú þetta?« — »Það er hann Knútr á Norðr-Haugi«, anzaði einhver. Þá sagði hin konan: »Má vera það linni þá ófriðinum eftirleiðis. Þeir ættu líka að geta neytt kraftanna til annars«.— »Satt var orðið, Rannveig«, kvað hin; »drottinn leiði þá og beini þeim á eitthvert háleitara mark og mið«.

Þessi orð fengu undarlega á Þorbjörn; hann hafði ekki mælt orð frá munni, en stóð enn og horfði á þá, sem stumruðu yfir Knúti; — ýmsir yrtu á hann, en hann tók ekki undir. Hann snéri sér undan og var hugsandi; Sigrún kom honum í hug, og hann fyrirvarð sig mjög. Hann fór að hugsa um, hvernig hann ætti nú að fara að gjöra henni grein fyrir þessu, og kom honum nú það í hug, að hann ætti ekki eins hægt með að láta af óvana sínum, eins og hann hafði eitt sinn gjört sér í hugarlund. Í þessum svifum heyrir hann sagt fyrir aftan sig. »Varaðu þig, Þorbjörn!«; en áðr en hann vissi, hvaðan á sig stóð veðrið, var þrifið í herðar honum og hann beygðr saman, og annars varð hann ekki var, utan stingandi sársauka, sem hann fann óglögt hvar var. Hann heyrði manna mál umhverfis sig, varð var við að þeir óku, fanst stundum að hann aka sjálfr, en vissi það þó ógjörla.

Þetta hélzt mjög lengi; það varð kalt, svo hitnaði ýmist aftr, og þóttist hann þá verða svo léttr, svo léttr, að honum fanst hann svífa í lausu lofti, — og nú skildi hann, hvernig á stóð: hann vaggaðist á trjátoppunum, eik af eik, svo hann barst upp hlíðina, og sífelt hærra og hærra, — upp að seli, og enn hærra,—alt upp á hæsta fjalls-tind; þar laut Sigrún grátandi að honum og sagði, að hann hefði átt að vekja máls á þessu í tíma. Hún grét mjög og kvað hann hafa þó getað séð sjálfan, hversu Knútr frá Norðr-Haugi varð fyrri til en hann, sífelt fyrri til, og svo hlaut hún að taka Knúti. Og svo klappaði hún honum svo mjúklega á aðra síðuna, svo honum hitnaði þar, og svo grét hún svo, að skyrtan hans vöknaði þar undan. En Áslákr sat á hækjum sínum uppi á stórum hvössum steini og kveikti í trjátoppunum umhverfis sig, svo að brakaði og logaði, og kvistirnir feyktust um hann; en hann hló með flentu gini og sagði: Það er ekki ég, það er móðir mín, sem gjörði þetta! Svo sá hann Sæmund föður sinn standa þar til annarar hliðar og kasta kornsekkjum í háa loft, svo að skýin drógu þá að sér og breiddu út kornið eins og þoku,— og þetta þótti honum undarlegt, að kornið gat þannig breiðzt út yfir alt loftið. Þegar hann horfði nú að ofan yfir Sæmund sjálfan, þá varð hann svo lítill, svo örlítill, að hann stóð varla upp úr jörðunni að lokum, en sífelt kastaði hann sekkjunum hærra og hærra og sagði: »Leiktu þetta eftir mér, ef þú getr!« — — En hátt uppi í skýjunum stóð kyrkjan, og bjartleita konan á Sunnuhvoli stóð uppi í turninum og veifaði rauðgulum vasaklút í annari hendi, en sálmabók í hinni og sagði: »Hingað færðu ekki að koma, fyrri en þú hefir af

lagt að fljúgast á illu og blóta«,—en þegar hann gætti betr að, þá var það ekki kyrkjan, heldr Sunnuhlíðar-bærinn, og sólin glampaði svo á allar hundrað rúðurnar, að hann verkjaði í augun og þoldi ekki að halda þeim opnum. — —

— — »Varlega, Sæmundr! Farðu varlega!« heyrði hann einhvern segja, og vaknaði hann sem af blundi við að hann var borinn, og þegar hann litaðist um, var hann kominn í stofuna í Grenihlíð; á arninum logaði mikill eldr; móðir hans stóð grátandi hjá honum; faðir hans var að taka undir hann,—hann ætlaði að bera hann inn í herbergi til hliðar. Nú lét faðir hans hann síga hægt niðr aftr; »það er lífsmark með honum enn!« sagði Sæmundr með titrandi málróm og snéri sér til konu sinnar. Hún kallaði upp yfir sig: »Guð minn góðr! hann lítr þá upp! Þorbjörn, Þorbjörn! blessað barnið mitt, hvernig hafa þeir farið með þig?« og hún laut ofan að honum og strauk honum um vangann, en tárin hrundu brennheit af augum hennar á andlitið á honum. Sæmundr þerði augun með erminni sinni og vék svo konu sinni blíðlega frá. »Það er eins gott að flytja hann undir eins«, sagði hann. Tók hann svo annari hönd undir herðar honum, en hinni undir lendar honum: — »Taktu undir höfuðið, ef hann skyldi ekki geta haldið því«. Hún gekk á undan og hélt undir höfuðið, Sæmundr reyndi að verða samstígr henni, og báru þau svo Þorbjörn inn í rúm í herberginu. Þegar þau höfðu breitt vel ofan á hann og hagrætt honum í rúminu, spurði Sæmundr, hvort piltrinn væri kominn af stað. »Þarna er hann á förum«, sagði kona hans og benti út um gluggann. Sæmundr auk upp glugganum og kallaði út til hans: »Ef þú

nær til læknisins á klukkustund, þá skaltu fá árskaupið þitt tvöfalt; — það er sama, þó að þú sprengir hestinn«.

Hann gekk að rúminu aftr, Þorbjörn mændi á hann sínum stóru, bládjúpu augum; faðir hans gat ekki látið vera að stara á þau, og tók honum þá sjálfum að vökna um augu. »Ég vissi, það hlyti að enda svona«, sagði hann lágt, snéri sér undan og gekk út. Móðir Þorbjarnar sat á stóli við fótagaflinn og grét, en talaði ekkert. Þorbjörn ætlaði að segja eitthvað, en honum fanst sér veita svo örðugt að tala, svo að hann þagði. En hann hafði ekki augun af móður sinni, og fanst henni hún aldrei hafa séð slíkan ljóma úr augum hans eða nokkru sinni séð þau svo fögr, og var hún hrædd um, að það væri enginn góðs viti. »Drottinn almáttugr varðveiti þig!« varð henni loksins ósjálfrátt að orði; »ég veit, að þann dag, sem Sæmundr verðr þér á bak að sjá, þá er úti um hann«. Þorbjörn horfði á hana og brá hvorki útliti né augnaráði. Þetta augnaráð smó eins sverð í gegn um hana, og hún fór að lesa faðirvor yfir honum; því hún ugði, að hann ætti ekki langt eftir. Meðan hún sat nú þarna, fór hún að hugsa um það, hversu hann um fram aðra hefði verið þeim öllum ástfólginn, og að nú væri ekkert systkini hans heima. Sendi hún þá boð upp í selið eftir Ingiríði og yngra bróður hans, kom svo aftr og settist á sama stað sem fyrri. Hann horfði enn á hana, og var augnaráð hans henni sem sálmasöngr, sem blíðlega leiddi huga hennar að inu háleita, og Ingibjörg gamla fyltist fjálgleika, hún tók ofan biblíuna og sagði: »Nú ætla ég að lesa upp hátt fyrir þér, svo þér vegni betr«. Hún hafði engin gleraugu

hjá sér, fletti því upp stað, sem hún kunni að mestu leyti utan að frá því, er hún var barn, og var það í Jóhannesar guðspjalli. Ekki var hún viss um, hvort hann hefði rænu á að taka eftir; því að engin hreifing sást á honum framar en áðr; hann starði að eins alt af á hana; en hún las samt, ef ekki fyrir hann, þá fyrir sjálfa sig.

Ingiríðr kom brátt heim, til að skiptast á við hana að vera hjá honum; en Þorbjörn svaf þegar hún kom. Ingiríðr grét án afláts; hafði hún þegar farið að gráta áðr en hún fór úr selinu; því að hún hugsaði til Sigrúnar, sem ekki fékk að vita um neitt. —Nú kom læknirinn og skoðaði hann. Hann hafði verið lagðr með knífi í síðuna, og auk þess hafði honum verið misþyrmt; en læknirinn sagði ekkert, enda spurði enginn hann neins. Sæmundr fylgdi honum inn í herbergið, þar sem Þorbjörn lá, stóð svo þar og horfði stöðugt framan í lækninn, fylgdi honum út, er hann fór, hjálpaði honum upp í vagninn og tók ofan þegjandi þegar læknirinn sagðist koma á morgun. Svo vék hann sér að konu sinni, sem hafði fylgt þeim út, og sagði: »Þegar sá maðr steinþegir, þá er um lífið að tefla;« það kom kipringr í munnvikin á honum og hann snéri sér við og gékk frá bænum.

Enginn vissi, hvað af honum varð; því að hann kom ekki heim það kvöld, ekki um nóttina heldr, og ekki fyrri en morguninn eftir, og var hann þá svo þungbúinn, að enginn þorði á hann að yrða. Sjálfr sagði hann ekki nema: »Nú?« — »Hann hefir sofið«, svaraði Ingiríðr; »en hann er svo máttfarinn, að hann getr ekki hendi lyft«. Sæmundr ætlaði inn til að sjá hann, en snéri frá aftr við dyrnar.

Læknirinn kom þar þann dag og inn næsta og daglega marga daga eftir það; Þorbjörn fór að verða viðmælandi, en mátti sig ekki hreifa. Ingiríðr sat lengstum hjá honum, og stundum móðir hans eða yngri bróðirinn; en hann spurði þau að engu og þau ekki hann. Faðir hans kom aldrei inn. Þessu sáu þau að sjúklingrinn tók eftir; hann hvesti sjónir hvert sinn, sem hurðinni var upp lokið, og þóttust þau vita, að það mundi vera af því, að hann byggist við föður sínum. Loks spurði Ingiríðr hann, hvort hann vildi ekki sjá fleira af fólkinu. »O, það vill líklega ekki sjá mig«, svaraði hann. Þetta var sagt Sæmundi og svaraði hann engu þá í svipinn; en þann dag var Sæmundr ekki heima, er læknirinn kom. Þegar læknirinn var kominn á stað þaðan aftr og ofan á þjóðveginn, hitti hann Sæmund; hann sat þar við veginn og beið læknisins. Þegar þeir höfðu heilsazt, spurði Sæmundr, hvernig syni sínum liði. »Hann er illa út leikinn«, var alt, sem læknirinn sagði. — »Ætli' hann beri það af?« spurði Sæmundr og herti á söðulgjörðinni á hestinum. — »Þakka yðr fyrir, ég held gjörðin fari vel«, sagði læknirinn.—»Hún var heldr laus«, svaraði Sæmundr. Það varð nú dálítil þögn á; læknirinn virti Sæmund fyrir sér, en hann var að lagfæra reiðtygin á hestinum. »Þú varst að spyrja, hvort hann mundi bera það af; það er ég að vona«, sagði læknirinn seinlega. Sæmundr leit snögt upp: »Er hann á bata-vegi?« spurði hann. — »Það hefir hann nú verið í marga daga«, svaraði læknirinn. Þá komu tárin fram í augun á Sæmundi; hann reyndi að þerra þau burt, en þau komu aftr. »Það er næstum skömm frá að segja, hvað mér þykir vænt um drenginn«, sagði

hann svo með ekka; en það segi ég þér satt, læknir minn, að vaskari maðr hefir aldrei verið hér í sveit!« Læknirinn komst við: »Því hefirðu einskis spurt mig fyrri en nú?« — »Ég var ekki viss um að ég væri maðr til að bera af svarið«, sagði Sæmundr oð barðist enn við grátstafinn, sem hann gat ekki niðri haldið, — »og svo var nú kvennfólkið líka«, hélt hann áfram; »það var alt af að taka eftir hvort ég spyrði nokkurs, og þá gat ég ekki fengið það af mér«. Læknirinn þagði um hríð, til að láta honum sefast geð, og virti þá Sæmundr hann stöðugt fyrir sér. »Kemst hann til heilsu aftr?« spurði hann hvatlega.— »Að nokkru leyti; annars er vandsagt um slíkt með vissu enn þá«. Sæmundr varð við þetta svar mjög hægr og hugsandi. »Að nokkru leyti«, sagði hann lágt við sjálfan sig. Hann stóð svona og horfði til jarðar; læknirinn vildi ekkert segja til að trufla hann; það var eitthvað það við manninn, sem aftraði honum frá því. Alt í einu leit Sæmundr upp; »þakka þér fyrir það, sem þú hefir sagt«, sagði hann, kvaddi lækninn með handabandi og gekk heimleiðis.

Meðan þetta gjörðist, sat Ingiríðr hjá sjúklingnum. »Ef þú treystir þér til að hlusta á, þá skal ég segja þér sögu af föður okkar«, sagði hún. — »Gjörðu það«, sagði hann.—»Jú, fyrsta kvöldið, þegar læknirinn var farinn, hvarf faðir okkar, og enginn vissi, hvar hann var. En þá hafði hann farið yfir í brúðkaupsveizluna, og þar hafði flestum hnykt illa við, þegar hann kom. Hann hafði sezt niðr meðal boðsfólksins og drukkið, og það er haft eptir brúðgumanum, að sér hafi virzt hann verða hreifr. Svo fór hann að spyrjast fyrir um viðreign ykkar, og var hon-

um sagt af hið ljósasta, hversu alt hafði til gengið. Svo kom Knútr að; pabbi vildi láta h a n n segja sér frá, og fór út á hlaðið, þar sem þið höfðuð ázt við. Fólkið fylgdi þeim alt eftir. Knútr sagði þá frá, hversu þú hefðir leikið sig eftir að þú hafðir slegið dofinn á honum handlegginn; en lengra vildi hann ekki frá segja viðskiftunum; þá hafði pabbi rétt úr sér og spurt, hvort það hefði gengið svona til á e f t i r, — og í sama bili þreif hann í bringu Knúti, hóf hann á loft og lagði hann niðr á steinhelluna, sem enn bar blóðtjörnina úr þér. Þar hélt hann honum niðri með vinstri hendi, en brá knífi sínum með inni hægri; Knútr bliknaði, en allir voru hljóðir. Þá sáu menn föður okkar tárfella, en ekki gjörði hann Knúti mein. Knútr hreifði ekki legg né lið. Svo reisti pabbi Knút upp, en lagði hann skömmu síðar niðr aftr. »Það er þungt að sleppa þér«, sagði hann og einblíndi á hann, meðan hann hélt honum niðri.

Þá gengu tvær gamlar konur þar hjá, og varð annari þeirra að orði: »Minztu nú vel barnanna þinna, Sæmundr í Grenihlíð!« Þá er sagt að faðir okkar hafi óðara slept Knúti, og hafi hann verið horfinn í burtu úr brúðkaupinu skömmu síðar; en Knútr laumaðist burtu hljóðlega úr veizlunni og kom þar ekki framar.

Ingiríðr hafði nýlokið þessari sögu, þegar hurðinni var upp lokið og einhver gægðist inn, og var það faðir þeirra. Hún gekk þegar út, en hann kom inn.

Hvað þeim feðgum fór þar á milli, af því fara engar sögur; kona Sæmundar, sem stóð á hleri við dyrnar, hélt hún hefði heyrt þá tala um, hvort Þorbjörn mundi nokkru sinni koma til fullrar heilsu eða

ekki. Þegar Sæmundur kom út aftr, var hann blíðlegr á svip, en nokkuð rauðeygðr. »Við missum hann líklega ekki«, sagði hann við Ingibjörgu um leið og hann gekk hjá; »en drottinn veit, hvort hann kemst nokkru sinni til heilsu aftr«. Það setti grát að Ingibjörgu og fór hún út með manni sínum; á stafbúrs-þrepinu úti settust þau niðr hvort við annars hlið, og ræddu þau margt saman sín á milli.

En þegar Ingiríðr kom inn aftr hljóðlega til Þorbjarnar, lá hann með lítinn seðil í annari hendinni og sagði seint og rólega: »Þetta verðr þú að færa Sigrúnu næst þegar þú finnr hana«.

Þegar Ingiríðr hafði lesið, hvað á seðlinum stóð, snéri hún sér undan og grét; því að á seðlinum stóð:

»Til
heiðarlegar yngismeyjar Sigrúnar Guttormsdóttur
á Sunnuhvoli.

Þegar þú hefir þessar línur lesið, verðr alt að vera úti okkar á milli. Því að ég er ekki sá, sem þér er ætlaðr. Drottinn veri með okkur báðum.

Þorbjörn Sæmundarson
frá Grenihlíð«.

---

## Sjötti kapituli.

Sigrún hafði frétt af Þorbirni daginn eftir að hann hafdi verið í veizlunni. Yngri bróðir hans hafði komið þangað upp í sel með boð um þetta; en Ingiríðr hafði náð í hann úti á svölunum í því hann kom, og sagt honum, hvað hann skyldi

segja. Sigrún vissi því ekki annað, en að vagninn hefði oltið með Þorbjörn, svo að hann hefði orðið að leita upp að Norðr-Haugi eftir tilhjálp, að Knúti og honum hefði lent eitthvað saman og að Þorbjörn hefði meitt sig þar eitthvað; var henni sagt, að hann lægi, en það væri ekkert hættulegt. Þetta voru þau ein tíðindi, að Sigrún fremr gramdist við en hryggðist. Og því meira sem hún hugsaði um þetta, því meir félst henni hugr. Hversu fagrt sem hann lofaði henni, skyldi hann samt haga sér svo, að foreldrar hennar hefðu eitthvað út á að setja. En alt um það hét hún því með sjálfri sér, að þau skyldi ekkert að skilja.

Það var fáförult upp að selinu, og leið því á nokkru áðr en Sigrún fékk önnur tíðindi. Henni féll þungt óvissan og Ingiríðr kom ekki upp eftir aftr, svo að eitthvað hlaut þó að vera á ferðum. Hún hóaði nú ekki gripunum saman á kvöldin með eins léttri lund og hún hafði gjört, og á nóttunni svaf hún illa, af því að hún saknaði Ingiríðar. Af næturvökunum var hún þreytt á daginn, og varð henni ekki léttara í geði við það. Hún hafði búverk öll í selinu, þóg sáld og kirnur, hleypti osti, setti upp í súrmjólk, en það var eins og hún gjörði öll verk sín utan við sig, og yngri bróðir Þorbjarnar og annar piltr, sem ásamt honum gætti búsmalans, þóttust nú sjá með vissu, að eitthvað hlyti að vera þeirra á milli Sigrúnar og Þorbjarnar, og varð þeim oft tilrætt um þetta í yfirsetunni á daginn.

Það var nú orðið á liðið áttunda daginn frá því að Ingiríðr var sótt heim, og var nú Sigrún í þyngra skapi en nokkru sinni áðr. Nú var liðinn svo langr tími, og enn komu engin tíðindi. Hún hætti við

það, sem hún var að gjöra, og settist hú niðr úti, þar sem hún gat séð yfir sveitina; henni fanst hún verða eins og síðr einmana með því móti, en hún var orðin leið á einverunni. Hún fann til þreytu meðan hún sat þarna, og lagðist því út af með handlegginn undir höfðinu og sofnaði þegar. En sólarhitinn var brennandi og svaf hún því óvært. Hana dreymdi, að hún þóttist vera yfir á Sunnuhvoli uppi á lofti í herbergi sínu, þar sem allir hennar munir voru og hún var vön að sofa; það lagði sætan ilm upp frá blómunum í garðinum, og þó var það ekki sá ilmr, sem hún var vön að finna af þeim, heldr eitthvað annarlegr, næstum eins og af lyngi. Hún fór að hugsa um, af hverju þetta kæmi, og leit út um opinn gluggann. Þar stóð þá Þorbjörn og var að planta lyng. »En, góði minn, því ertu að þessu?« spurði hún. »O, blómin vilja ekki þrífast«, sagði hann og hélt áfram að vinna í garðinum. Hana tók þá sárt til blómanna sinna, og bað hann því endilega að bera þau upp til sín aftr. »Já, það get jeg vel gjört«, svaraði hann, og tók þau öll saman og kom með þau upp til hennar. En þá var eins og hún sæti ekki á loftinu, því að hann gat gengið beint inn um gluggann til hennar. Þá kom móðir hennar að í því. »Í herrans bænum! Á óræstis Grenihlíðar-strákurinn að komast inn til þín?« sagði móðir hennar og gekk þvert í veg fyrir hann. En hann vildi samt komast inn, og nú fóru þau að fljúgast á, hann og móðir hennar. »Mamma, mamma! hann ætlar rétt að færa mér blómin mín«, þóttist Sigrún segja grátandi. »Ja það er nú það sama«, sagði móðir hennar og streittist við. Og

Sigrún var svo skelfing hrædd, því að hún vissi ekki, hvort þeirra hún fremr vildi að betr hefði; en hvorugt vildi hún í rauninni að miðr hefði. »Æ, farið þið varlega með blómin mín!« kallaði hún til þeirra, en þau gengust harðara á en áðr, og fallegu blómin dreifðust út um alt. Móðir hennar tróð á þeim, og hann eins; Sigrún grét. En þegar Þorbjörn hafði slept blómunum, varð hann svo ljótr, svo ljótr; hárið óx á honum, andlitið stækkaði, augnaráðið varð illilegt og hafði hann stórar klær, sem hann læsti í móður hennar. »Varaðu þig, mamma! Sérðu ekki, að þetta er einhver annar? Varaðu þig!« æpti hún upp yfir sig og ætlaði að hlaupa til og hjálpa móður sinni, en komst þá ekki úr sporum. Þá kallaði einhver á hana, og það var aftr kallað. En undir eins hvarf Þorbjörn og móðir hennar líka; það var kallað á hana enn einu sinni. »Já!« svaraði Sigrún, og við það vaknaði hún.

»Sigrún!« var nú kallað. »Já« svaraði hún og leit upp. »Hvar ertu?» var spurt. Það er mamma, sem er að kalla á mig, hugsaði Sigrún með sér, stóð upp og gekk heim að selínu; þar stóð þá móðir hennar úti með nestis-skrínu í annari hendi, en skygði hinni fyrir auga og horfði til hennar.

«Liggrðu þá ekki sofandi hér úti á víðavangi!« sagði móðir hennar. »Mig sótti svo svefn«, svaraði Sigrún, »að ég snaraði mèr út af litla hríð, og vissi ég svo ekki af fyrri en ég var sofnuð alt í einu«.— »Það verðrðu að varast, barnið mitt. — — Ég hefi hérna dálítið handa þér í skrínunni; ég bakaði í gær, af því að faðir þinn ætlar í langferð«. En Sigrún fann það á sér, að það bjó eitthvað annað undir ferð móður sinnar, og hugsaði hún að það mundi

á eitthvað vita, er sig hafði dreymt hana. Eins og áðr hefir sagt verið, var Karen móðir hennar lítil vexti og grönn, bjarthærð, bláeygð og snareygð. Hún talaði alt af brosandi, þegar hún talaði við ókunnuga. Hún var nú farin að verða skarpleit, var snör í hreyfingum og var ætíð sístarfandi.—Sigrún þakkaði henni gjafirnar, tók lokið af skrínunni og leit eftir, hvað það væri, sem í henni var. —»O jæja, láttu það bíða annars tíma«, sagði móðir hennar; »ég tók eftir því, að þú ert ekki búin að þvo upp ílátin; það máttu ekki láta hjá líða að gjöra, barnið mittt, áðr en þú hvílir þig«.—»Já, það hefir nú ekki komið fyrir nema í dag«. — »Jæja, komdu þá; það er bezt ég hjálpi þér, úr því ég er hér á annað borð«, sagði móðir hennar og stytti sig. »Þú verðr að venja þig á reglusemi, hvort sem ég er við eða ekki«. Hún gékk á undan að mjólkrbúrinu, og Sigrún hægt á eftir. Þar tóku þær sig til og þógu alt upp; móðir hennar leit eftir öllu í búrinu og þótti henni þar ekki illa um gengið; hún sagði henni til um alt, hveru til skyldi haga, og hjálpaði henni til að þvo upp, og til þess gengu ein eða tvær stundir. Meðan þær vóru að vinna, hafði hún sagt henni frá, hvað þau hefðu fyrir stafni heima, og frá því, hve annríkt hún hefði átt nú síðast með að búa föður hennar út í ferðina. Svo spurði hún Sigrúnu, hvort hún myndi nú eftir að lesa guðs-orð, áðr hún gengi að sofa á kvöldin; »því má ekki gleyma«, sagði hún, »annars blessast ekki verkin daginn eptir«.

Þá er þær höfðu lokið starfi sínu, gengu þær út á völlinn og settust þar, til að bíða kúnna. Og þegar þær voru seztar niðr, spurði Karen eftir Ingiríði;

hvort hún kæmi ekki senn til sels aftr. Sigrún var jafn-ófróð um það eins og móðir hennar. »Já, svona getr fyrir mönnum farið«, sagði Karen, og skildi Sigrún fullvel, að það var ekki Ingiríðr, sem móðir hennar átti við; hún vildi fegin hafa snúið talinu í aðra átt, en hana brast uppburði til þess. »Þann, sem aldrei hefir drottin í hjarta sínu, þann hittir reiðinnar hönd á stundum, þegar hann varir sízt«, sagði Karen. Sigrún þagði. »Nei, það hefi jeg oft sagt, að úr þeim strák verðr aldrei neitt. —En að haga sér líka svona, svei, svei!« — Þær sátu þarna báðar á vellinum á fótum sér og horfðu niðr í dalinn; en þær horfðu ekki hvor á aðra. »Hefirðu heyrt, hvernig honum líðr?« spurði móðirin nú, og leit snöggvast til hennar. —»Nei«, svaraði Sigrún. »Hann kvað vera sáraumr«, sagði móðir hennar. Sigrúnu fór að þrengja fyrir brjósti. »Er það þá hættulegt?« spurði hún. —»O jæja, það var nú hnífstungan í síðuna; — ja, hann var víst illa barinn líka«. Sigrún fann á sér að hún blóðroðnaði; snéri hún sér því þegar betr frá móður sinni, svo hún skyldi ekki sjá framan í sig. »Ja, það er þó vonandi, að það hafi ekki verri afleiðingar?« spurði hún svo rólega, sem hún gat; en móðir hennar hafði tekið eftir, hvað þungt henni var orðið fyrir brjósti, og svaraði því: »Og nei, vonandi er það nú«. En nú fór Sigrúnu að gruna, að hér hlyti að vera einhver mikill háski á ferðum.—»Liggr hann?« spurði hún. —»Ja, þó það væri nú! — Það er sorglegt með foreldrana hans, þau vænu hjón. Og gott uppeldi hefir hann fengið, ekki vantar það, svo drottinn getr einskis krafið þau«. Sigrúnu varð nú svo þungt ·m, að hún vissi ekki, hvað hún átti af sér að

gjöra; þá hélt móðir hennar áfram: »Nú kemr það fram, að það er gott, að engin er honum bundin. Drottinn stýrir líka jafnan öllu til hins bezta«. Sigrúnu svimaði, eins og hún ætlaði að rjúka fram af hömrum.

»Nei, það hefi ég altaf sagt við föður þinn: Góðr guð varðveiti okkr, hefi ég sagt, við eigum nú ekki nema þessa einu dótturina, og henni verðum við að sjá vel fyrir. Hann er nú eins og fremr lingerðr af sér, svo góðr maðr sem hann annars er; en það er bótin, að hann þiggr ráðið þar, sem hann finnr það, og það er í guðs-orði«. En þegar Sigrún fór að hugsa til föður síns, hvað góðr hann var alt af, þá veitti henni enn örðugra, að halda niðri í sér grátinum; og í þetta sinn tjáði engin tilraun; það setti að henni grát.— »Ertu að gráta?« spurði móðir hennar, en leit ekki til hennar. »Já, ég var að hugsa til hans pabba, og svo — —« og nú varð grátrinn enn ákafari. — »En, elsku-barnið mitt, hvað gengr að þér?« — »Æ, ég veit ekki alminnilega — — það kom svona að mér — — það verðr nú, ef til vill, eitthvað að honum í þessari ferð«, sagði Sigrún grátandi.—»Hvaða heimska er nú í þér?« sagði móðir hennar; — »því ætli honum farnist ekki vel? — Inn í kaupstað eftir eggsléttum þjóðveginum?«—»Já, mundu nú eftir, hvernig fór fyrir hinum«, sagði Sigrún enn grátandi.— »Já, honum! en faðir þinn fer nú ekki eins og fól, það vitum við. Hann kemr nú heill á hófi heim aftr, —ef drottinn annars heldr hönd sinni yfir honum«.

Móðir hennar fór að hugsa margt um þennan grát, sem ekki vildi sefast. Svo segir hún alt í einu, meðan þær sátu þarna: »Það er margt í heiminum, sem getr fallið manni full-þungt að bera; en þá

verðr maðr að hugga sig við það, að það hefði þó getað verið enn þyngra«.—»Já, það er nú aum huggun, það«, sagði Sigrún og grét sáran. Móðir hennar hafði ekki hjarta til að svara henni því, sem henni kom til hugar; svo sagði hún að eins: »Drottinn sjálfr stýrir mörgu fyrir okkr á sýnilegan hátt; og svo hefir líkast hér verið líka«, sagði hún og stóð upp, því að kýrnar vóru farnar að baula upp í ásnum, bjöllurnar klingdu, drengirnir hóuðu, og alt smáfærðist ofan eftir, því kýrnar voru fullar og spakar. Hún stóð og horfði á, bað svo Sigrúnu að vera með sér að taka á móti þeim. Sigrún stóð nú líka upp og fylgdi móður sinni eftir; en hún fór sér mjög hægt.

Karen á Sunnuhvoli fékk nú nóg að gjöra að fagna búsmala sínum. Þar kom hvor kýrin á fætr annari, og allar þektu þær hana og bauluðu; hún klappaði þeim, talaði til þeirra og varð glöð aftr við að sjá, hvað vel þær höfðu tekið sig allar. »Og jæja«, sagði hún, »drottinn er þeim jafnan nálægr, sem halda sig til hans«. Hún hjálpaði nú Sigrúnu að hýsa þær, því að það gekk alt seint fyrir Sigrúnu þann dag. Móðir hennar talaði ekkert um það; hún hjálpaði henni til að mjólka, þótt hún tefði fyrir það lengr þar efra en hún hafði ætlað sér. Þá er þær höfðu lokið við að sía mjólkina, fór hún að búast til heimferðar, og vildi Sigrún fylgja henni á leið. »O nei«, sagði móðir hennar; »þú ert líklega þreytt og vilt vera' í næði«, og svo tók hún með sér nestiskrínuna tóma, kvaddi hana með handabandi og sagði: »Ég kem bráðum upp eftir til þín aftr, til að vita, hvernig þér líðr.——Haltu þér einvörðungu til okkar og hugsaðu ekki um aðra«.

Móðir hennar var naumast úr augsýn komin fyrri en hún fór að hugsa um, hvernig hún ætti sem skjótast að koma orðum ofan að Grenihlíð. Hún kallaði á bróður Þorbjarnar og ætlaði að senda hann ofan eftir; en þegar hann kom, þá kom hún sér ekki að því, að trúa honum fyrir erindinu, og sagði því við hann, að það hefði ekkert verið. Henni datt í hug að fara sjálf. Einhverja vissu varð hún að fá; henni fanst það vera synd af Ingiríði, að senda sér engin orð. Nóttin var albjört, og það var ekki sá vegr ofan að bænum, að hún gæti ekki gengið þangað, þegar svona mikið var í húfi. Meðan hún sat og var að hugsa um þetta, vaktist það allt upp fyrir henni, sem móðir hennar hafði við hana rætt, og setti þá að henni grát á ný; en svo var hún heldr ekki sein á sér, batt á sig sjal og lagði af stað, og fór krók á sig, svo að piltana skyldi ekkert gruna um hennar ferðalag.

Því lengra sem hún kom áleiðis, því meira herti hún förina, og loksins hljóp hún svo við fót ofan götuslóðana, að smásteinarnir losnuðu undan fótunum á henni og ultu ofan brekkuna, svo að hún varð hálf-smeik við hljóðið. Þó að hún vissi að það væri ekki nema steinarnir, sem ultu, þá fanst henni þó, eins og einhver væri í nánd, og gat hún ekki að sér gjört að staðnæmast og hlusta. Það var þá ekki neitt, og hoppaði hún þá af stað enn hraðara en áðr; þá bar svo til, að hún tók stórt stökk og sté á stein nokkuð stóran, sem annar endinn á stóð fram úr götunni að neðanverðu; losnaði nú steinninn og valt ofan eftir. Það varð allmikill hávaði að steininum; það brakaði í runnunum, svo að henni fór ekki að verða um sel; en þó varð hún enn smeikari, þegar hún þóttist glögglega geta deilt, að það væri einhver, sem

reis upp og hreifði sig nokkru neðar á veginum. Fyrst datt henni í hug, að þetta kynni að vera óarga dýr; hún staðnæmdist því og hélt niðri í sér andanum; þetta, sem niðri á veginum var, staðnæmdist líka. Svo hóaði þessi skepna, og þekti hún þá á röddinni, að þetta var móðir hennar. Það, sem Sigrúnu varð fyrst fyrir, var að leggjast niðr og fela sig. Hún beið þannig góða stund til að vita, hvort móðir hennar hefði þekt hana og sneri við aftr; en það gjörði hún ekki. Svo beið hún enn lengr, svo að móðir sín skyldi komast vel á undan sér. Svo þegar hún síðar hélt áfram leiðar sinnar, þá fór hún hægt, og nú nálgaðist hún bráðum bæinn, Grenihlíð.

Henni fór aftr að verða þyngra um, er hún sá bæinn; og ágerðist það meir og meir eftir því, sem hún kom nær. Þar var alt hljótt, annboðin voru reist upp við húsvegginn, það hafði verið höggvið brenni og skíðin sett í hlaða,og öxinni var höggvið í hlaðann. Hún gekk fram hjá hlaðanum og að dyrunum; þar staðnæmdist hún enn þá einu sinni, litaðist um og hleraði; en alt var hljótt. Þegar hún stóð nú þarna og var að hugsa sig um, hvort sér mundi nú vera óhætt eða ekki að fara upp á loft til Ingiríðar, þá flaug henni í hug, að það hefði nú verið svona nótt einsog þetta, fyrir nokkrum árum, að Þorbjörn hefði farið yfir um og plantað blómin hennar í garðinum. Hún var ekki sein að taka af sár skóna og læðast upp stigann.

Ingiríði varð felmt vig, er hún vaknaði og sá, að það var Sigrún, sem hafði vakið hana. »Hvernig líðr honum?« spurði Sigrún í lágum hljóðum. Nú áttaði Ingiríðr sig á öllu saman og bjóst til að fara á fætr, til að komast hjá að svara henni undir eins.

En Sigrún settist á rúmstokkinn, bað hana að vera kyrra í rúminu og endrtók spurningu sína.

»Hann er betri nú«, sagði Ingiríðr í hálfum hljóðum; »eg fer nú bráðum að koma upp eftir til þín«.— »Elsku-Ingiríðr, leyndu mig engu; þú getr ekkert sagt mér svo ilt, að ég hafi ekki við verra búizt«. Ingiríðr reyndi enn að sýna alla hlífð; en Sigrún gekk svo fast á hana í angist sinni, að það varð ekkert tóm til umsvifa. Sigrún og Ingiríðr hvísluðust á spurningum og svörum; kyrðin umhverfis gaf þessum spurningum og svörum enn alvarlegri blæ, svo að þetta varð ein af þessu hátíðlegu stundum, þegar maðr fær djörfung til að líta inn voðalegasta sannleik augliti til auglitis. En báðar virtust þær að komast að þeirri niðrstöðu, að í þetta sinni hefði Þorbjarnar skuld verið lítil, svo að ekkert misjafnt frá hans hlið dró úr hluttekning þeirra með honum. Þær grétu nú báðar um hríð, en grátrinn var rólegr; Sigrún grét enn meir. Hún sat hnípin mjög á rúmstokknum. Ingigerðr reyndi til að hafa af henni með því að minna hana á, hvað marga glaða stund þau þrjú hefðu saman lifað; en þá fór hér sem oftar, að hver smá endrminning frá æfinnar sólskinsdögum þiðnar upp í sorginni og verðr að nýrri táralind.

»Hefir hann spurt eftir mér?« sagði Sigrún lágt.— »Hann hefir varla talað orð«. Ingiríðr mundi nú eftir seðlinum og fór nú að komast í bobba með hann. —»Er hann ekki málhress?«—»Ég veit ekki alminnilega, hvað ég á um það að segja;—hann hugsar víst því fleira«.— »Les hann guðs-orð?«— »Mamma hefir lesið fyrir hann; nú vill hann láta hana gjöra það daglega«.— »Hvað segir hann svo?« — »Nei, það er

eins og ég var að segja þér, hann talar svo sem ekkert. Hann liggr rétt og starir út í loptið«.—»Það er í máluðu stofunni, að hann liggr?« — »Já«. — »Og snýr sér að glugganum?» — »Já.« — Þær þögðu nú báðar um hríð. Þá sagði Ingiríðr: »Litli fuglinn, sem þú gafst honum einu sinni, hangir þar í glugganum og skimar í allar áttir«.

»Jæja, það er nú það sama«, sagði Sigrún alt í einu einbeitt; »aldrei skal neinn máttr í heimi skilja mig við hann, hvernig sem alt gengr!« Ingiríði fór nú aftr að hitna um hjartarætrnar. »Læknirinn segist ekki vita, hvort hann komi nokkurn tíma til fullrar heilsu aftr», sagði hún lágt.

Nú leit Sigrún upp og stöðvaði grátinn, horfði þegjandi á Ingiriði, leit niðr aftr og sat svo hugsandi; síðustu tárin runnu hægt niðr kinnarnar á henni, en svo hættu tárin að renna; hún krosslagði hendrnar, en sat annars grafkyrr, það var eins og hún sæti og væri að ráða eitthvað mikið við sig. Stóð hún svo alt í einu brosandi upp, laut að Ingiríði og kysti hana heitum kossi og löngum. »Verði hann heilsulaus, þá skal eg hjúkra honum. Nú tala ég við foreldra mína!«

Ingiríðr komst mjög við af þessu; en áðr en hún kom nokkru orði fyrir sig, var tekið í hönd henni: »Vertu sæl, Ingiríðr! Nú ætla ég að fara ein aftr upp eftir«. Og Sigrún snéri sér hvatlega frá henni.

»Heyrðu! það er seðillinn sá arna«, kallaði Ingiríðr í hálfum hljóðum á eftir henni.—»Hvaða seðill?« spurði Sigrún. Ingiríðr var á svipstundu komin ofan úr rúminu, fann hún seðilinn og gekk til Sigrúnar með hann; stakk hún seðlinum með vinstri hendi í barminn á henni, en lagði hægri höndina um háls

henni og kysti hana nú aftr, og fann Sigrún tár hennar heit og stór falla í andlit sér. Svo ýtti Ingiríðr henni hægt út úr dyrunum og lokaði þeim; því að hún hafði ekki kjark í sér til að sjá, hvernig Sigrúnu yrði við. Sigrún gekk hægt niðr stigann á sokkunum; en af því að henni var margt í huga, þá varð henni óvart að gera einhvern skarkala, og varð henni bilt við, svo hún hljóp út úr ganginum, þreif þar skóna sína og flýtti sér með þá í hendinni fram hjá bæjarhúsunum, yfir völlinn og út að hliðinu; þar staðnæmdist hún og setti upp skóna, hélt svo á fram leiðar sinnar upp eftir og hraðaði sér, því að blóð hennar var komið í hreifingu. Hún gekk smáraulandi og herti einlægt ganginn, svo að hún var þreytt að lokum og varð að setjast niðr. Þá mundi hún eftir seðlinum. — — —

Næsta morgun, þegar fjárhundrinn fór að hafa sig á kreik og smaladrengirnir vöknuðu í selinu og mál var komið að mjólka kýrnar og hleypa þeim út, var Sigrún ókomin enn.

Sveinarnir stóðu og vóru að býsnast yfir, hvar hún gæti verið; þeir sáu þess merki, að hún hafði ekki komið í rúm sitt alla nóttina—en í því kom Sigrún. Hún var föl mjög og fálát. Hún mælti ekki orð frá vörum, en fór að skamta piltunum og búa út nesti þeirra, og svo hjálpaði hún til að mjólka.

Þokan lá enn á lægstu ásum; það glitraði á döggina á lynginu um móbrúna heiðina; það var fremr kalt úti, og þegar hundarnir geltu, tók undir hvervetna umhverfis. Gripunum var nú slept út; kýrnar teygðu fram hausinn og bauluðu út í loftið, og hver kýrin á fætr annari lagði af stað út götur; en spölkorn frá selinu var fjárhundrinn og

tók á móti þeim og stefndi stigu fyrir þeim, þar til þær voru allar út komnar; þá slepti hann þeim líka; bjöllunglamið barst um ásana, hundrinn gó hátt, piltarnir vóru að reyna með sér, hvor hærra gæti hóað. Burt frá öllum þessum glaumi hélt Sigrún niðr frá selinu og þangað að, sem Ingiríðr og hún vóru vanar að sitja. Hún grét ekki, en starði þögul fram undan sér, og heyrði hún af og til hávaðann, sem fjarlægðist nú meir og meir og varð því ógleggri, sem fjær dróg. Svo fór hún að smá-raula, svo að syngja ögn hærra, og loks söng hún með hvellum, háum rómi þetta kvæði. Hún hafði hveðið það upp úr gömlu kvæði, sem hún hafði kunnað frá því hún var barn:

Nú ljúfa þökk fyrir alt og eitt,
sem áður lékum í bernsku-haga,
ég bjóst við leikurinn gengi greitt
til gamalaldursins daga.

Ég bjóst við leikinn þann bæri' úr stað
birkirjóðrum, þar sól skein endur,
að Sunnuhvoli og svo þar að,
er sóknarkirkjan vor stendur.

Á kvöldin sat ég oft seint og beið
og sá á Grenihlíð vonar-fegin,
en fjallið skygði' um foldar-leið,
svo fundið gaztu' ekki veginn.

Ég sat og hafði' oft þá hugar-ró,
þú hiklaust kæmir á liðnum degi.
Og ljósið brann unz það dautt út dó;
það dimdi', en þú komst samt eigi.

Mín veslings augun þar vöndust að,
þeim verður tregt þaðan burt að renna;

þau þekkja ekki neinn annan stað
og angri þrútin þau brenna.

Til Fögru-hlíðar mig hvetjið þið,
að harma-fró ég í kyrkju hljóti.
En sízt ég þangað mun sækja frið;—
þar situr hann beint á móti.

Nú, vel er þó, að ég veit, hver réð.
að voru bæirnir gegnt á láði,
og sjón í skóginum leið fékk léð
að leita' að vild sinni' og ráði.

Nú, vel er þó, að èg veit, hver réð,
að vóru stólar að grátum settir,
svo leiðast kunni þau kærleik með
í kórinn beint innar ettir.

---

## Sjöundi kapituli.

Einn sunnudag nokkru síðar bar svo við, að Guttormr og Karen kona hans sátu saman í stóru björtu stofunni á Sunnuhvoli og vóru að lesa í nýjum bókum, sem þau höfðu fengið. Þau höfðu farið til kyrkju um daginn,—og þegar þau komu þeim, höfðu þau gengið dálítið um mörkina, til að skoða, hvernig akrarnir litu út, og tala um, hvað af jörðunni skyldi sá aftr og hvað hvíla næsta ár. Þau höfðu reikað frá einum hvílreit og akri til annars, og kom þeim saman um, að miklum bótum hefði nú jörðin tekið í

þeirra búskapartíð; »en drottinn veit, hversu hún verðr nú setin, þegar við erum fallin frá«, hafði Karen sagt. Þá hafði Guttormr sagt, að það væri bezt að þau færu heim og læsu dálítið í nýju bókunum, sem þau hefðu fengið; «því að það er bezt«, sagði hann, »að halda huganum frá þvílíkum áhyggjum«.

En nú höfðu þau reynt að lesa, og sagði Karen, að gömlu bækrnar væru miklu betri: »Þessir nýju skrifa, hvort sem er, alt upp úr þeim«.—»Nokkuð kann hæft í því að vera; Sæmundr sagði líka við mig í dag í kyrkjunni, að börnin væru ekki annað en foreldrarnir upp yngdir aftr«. — »Já, þið Sæmundr hafið víst um margt talað í dag«. — »Sæmundr er hygginn maðr». — »En hugsar minna en skyldi um drottin sinn og frelsara, er ég hrædd um«.—Þessu svaraði Guttormr engu. — — »Hvað varð nú að Sigrúnu?« spurði Karen.—»Hún er uppi á lofti«, svaraði hann. — »Þú sazt þar uppi hjá henni sjálfr áðan; hvernig lá á henni, veslingnum?» — „O þetta svona! —„—„Þú hefðir ekki átt að skilja hana þar eina eptir".—„Það kom manneskja að finna hana". Karen hljóðnaði við.—„Hver var það?"—„Ingiríðr í Grenihlíð".

„Ég hugsaði hún væri upp í seli enn þá".—„Hún var heima í dag, svo að móðir hennar gæti farið til kyrkju". — „Þeir hafa verið tímarnir stundum, að þær hafa getað farið báðar til kyrkju".—„Ingiríðr hefir í mörgu að snúast".—„Það hafa fleiri en hún; maðr kemst þangað samt, sem mann fýsir að koma". Guttormr svaraði þessu engu. Skömmu síðar segir Karen: „Það var þar alt Grenihlíðarfólkið í dag, nema Ingiríðr". — „Já, það var víst að fylgja Þorbirni til kyrkju í fyrsta sinni eftir leguna". —

»Ósköp var að sjá útlitið á honum!« — »það var ekki á betra von; ég var jafnvel hlessa, að það var þó ekki lakara.« — »Já, hann hefir orðið að líða fyrir glópsku sína.« Guttormr leit niðr: »þetta er unglingr enn.« — »það er engin staðfesta í honum; maðr getr aldrei verið óhultr um hann.«

Guttormr sat og studdi ölnboganum á borðið og var að handleika bók; hann lauk henni nú upp og var sem hann færi að líta í hana, og sagði um leið: »það er sagt áreiðanlega víst, að hann fái fulla heilsu aftr.« Karen tók sér nú bók í hönd líka; »það er vænt að heyra, það er víst og satt, um svo röskan pilt,« sagði hún; »drottinn kenni honum nú að neyta hennar betr.« þau lásu nú bæði um hríð; svo segir Guttormr um leið og hann flettir blaði: »Hann leit ekki yfir til hennar í allan dag.« — »Nei, ég tók líka eftir því, að hann sat kyrr í sæti sínu, þangað til hún var farin.« Nokkru síðar segir Guttormr: »Heldrðu að hann gleymi henni?« — »það væri að minsta kosti bezt, ef svo gæti orðið.«

Guttormr las nú áfram, en kona hans blaðaði í sinni bók. »Mér er ekkert um það gefið, að Ingiríðr dvelji hér svona lengi.« — »Sigrún hefir nú naumast aðra að tala við.«—»Hún hefir okkr.«—Nú leit Guttormr upp og til hennar: »Við megum ekki vera of ströng.« Karen þagði; nokkru síðar segir hún: »Ég hefi heldr aldrei bannað henni það.« Guttormr stóð nú upp, lagði frá sér bókina og leit út. »þarna fer nú Ingiríðr« sagði hann þá. Karen hafði naumast heyrt þetta, fyr en hún spratt upp og gekk fram. Guttormr stóð enn stundarkorn við gluggann, snéri svo við og gekk um gólf; Karen kom inn aftr og

hann staðnæmdist. »Já, það var eins og ég bjóst við,« sagði hún, »Sigrún sitr uppi og er að gráta, en fer að dunsna eitthvað niðri í kistu sinni, þegar ég kem að,« og svo hélt hún áfram og hristi höfuðið. »Nei, það leiðir ekki gott af þessum komum Ingiríðar hingað«; fór hún svo að búa til kvöldverðar og gekk oft um. Eitt skiftið, er hún var út gengin, kom Sigrún inn dálítið grátþrútin og hæglát; hún gekk rétt fram hjá föður sínum, og leit upp á hann, að borðinu, settist þar og tók sér bók í hönd. Skamri stund síðar lagði hún bókina aftr, gekk til móður sinnar og spurði hana, hvort hún ætti ekki að hjálpa henni. »Já, gjörðu það!« sagði hún; »iðjusemi er allra meina bót.«

Það varð hennar verk að leggja á borið; það stóð undir glugganum. Faðir hennar hafði gengið um gólf til þessa, en gekk nú að borðinu og leit út um gluggann. »Ég held hann ætli að ná sér aftr, byggakrinn, sem regnið bældi,« sagði hann; Sigrún gekk að hliðinni á honum og leit út líka. Hann leit við, kona hans var inni; svo strauk hann að eins annari hendi niðr hnakka Sigrúnar og fór svo aftr að ganga um gólf.

Þau mötuðust svo, og var alt mjög hljótt; í þetta sinn las Karen borðbænina bæði fyrir og eftir máltíð; og þá er upp var staðið frá borðum, vildi hún að þau læsu og syngju, og gjörðu þau svo. »Guðs-orð veitir frið; það er þó stærsta blessunin á heimilinu.« Um leið og Karen sagði þetta, leit hún til Sigrúnar, en Sigrún horfði niðr. »Nú skal ég segja sögu,« sagði Karen; »það er hvert orð satt í henni, og hún er ekki fráleit fyrir hvern, sem vill hugsa út í hana.«— —

Sagan var á þessa leið: »Í mínum uppvexti var ung stúlka á Haugi, dótturdóttir gamals lénsmanns, sem var lærðr maðr. Hann tók hana snemma til sín, til að hafa gleði af henni í elli sinni, og kendi henni því guðs-orð og góða siðu. Hún var greind og námfús, svo að ekki leið á löngu, áðr en hún skaraði langt fram úr okkr öllum hinum; hún skrifaði og reiknaði, kunni allar sínar skólabækr og 25 kapítula í biblíunni, þegar hún var 15 ára; ég man það eins vel og það hefði verið í gær. Hún var meira gefin fyrir lestr en dans, sást hún því sjaldan í gleðigildum, en oftar í loftherbergi afa síns, þar sem allar hans mörgu bækr vóru geymdar. Það var nú svona með hana, að hvert sinn sem við vórum saman með henni, stóð hún eins og hún væri út á þekju, og við sögðum oft okkar á milli: Værum við nú þó ekki væri nema hálft svo hygnar, eins og Karen á Haugi. Hún átti að erfa gamla manninn, og margr efnismaðr bauðst til að þiggja helmingaskifti við hana; en hryggbrot fengu þeir allir. Um þessar mundir kom sonr prestsins heim frá guðfræðisnámi sínu; það hafði ekki gengið vel með hann, því að hugr hans hafði meir hneigzt að gjálífi og spillingu, en að því, sem gott var; nú var hann orðinn drykkfeldr. »Varaðu þig á honum,« sagði lénsmaðrinn, »ég hefi haft mikil mök við höfðingja, og það en mín reynsla, að þeir sé miðr verðir trausts vors en alþýðumenn.« Karen heyrði alt af hans róm bera hærra en annara, — og þegar síðar bar svo til, að hún mætti honum, þá beygði hún úr vegi, því að hann sóttist eftir henni. Loks var eins og hún gæti hvergi farið, nema hún rækist á hann. »Burt

með þig,« sagði hún; »þér er til einskis að vera að elta mig.« En hann elti hana, og þannig kom það til, að hún varð þó loksins að standa við og heyra, hvað hann sagði. Hann var nógu fríðr sýnum, en þegar hann ekki sagðist geta lifað án hennar, þá var það nóg til að fæla hana burt frá honum. Hann vandi þangað komur sínar og var á snuðri kring um allan bæinn, en hún kom ekki út; hann stóð fyrir utan glugga hennar á nóttunni, en hún lét ekki sjá sig; hann hótaði að sálga sér, en Karen vissi sínu viti. Tók hann þá að drekka aftr. — »Varaðu þig; það er djöfulsins tálsnara alt saman,« sagði gamli lénsmaðrinn. Svo einn góðan veðrdag stendr hann inni á miðju gólfi í herberginu hennar; enginn vissi, hvernig hann hafði farið að komast þangað. »Nú ætla ég að drepa þig,« sagði hann. — »Gjörðu það ef þú þorir!« sagði hún. En svo fór hann að gráta og sagði, það stæði í hennar valdi, að gjöra alminnilegan mann úr sér. »Þú ættir þá að geta setið á þér eitt missiri að drekka ekki,« sagði hún. Og hann sat á sér í missiri. »Trúir þú mér nú?« spurði hann. »Ekki fyrri en þú hefir haldið þér frá öllum glaumi og solli í missiri.« Hann gjörði það. »Trúir þú mér nú?« spurði hann. »Ekki nema þú farir nú og ljúkir við lærdóm þinn.« Hann gjörði þetta, og árið eftir var hann útlærðr prestr. »Trúir þú mér nú?« spurði hann, og var þá í hempu og með kraga. »Nú vil ég heyra þig prédika guðs-orð nokkrum sinnum,« sagði Karen. Og það gjörði hann, flutti hreint og klárt guðs-orð, eins og góðum guðsmanni samir; hann talaði um breyzkleik sjálfs sín, og hve létt það væri að sigra, þegar maðr væri einu sinni byrjaðr, og hve gott guðs-orð væri, þegar maðr kæmist

einu sinni svo langt að finna það. Gekk hann nú enn á ný til Karenar. »Já, nú trúi ég því, að þú munir lifa eftir því, sem þú sjálfr veizt,« sagði Karen; »og nú ætla ég að segja þér það, að ég hefi í þrjú ár verið trúlofuð honum Andrési frænda mínum á Haugi; þú átt að lýsa með okkr á sunnudaginn.« — —

Hér lauk Karen sinni sögu. Sigrún hafði litla eftirtekt veitt henni í byrjuninni, en því meir sem á leið, og nú var eins og hún drykki þyrst í sig hvert orð. »Er ekki sagan lengri?« spurði hún í mikilli angist. »Nei,« svaraði móðir hennar. Guttormr leit framan í konu sína; þá varð augnaráð hennar hikandi og leit hún undan, og sagði hún svo eftir nokkra umhugsun, og dró fingrinn eftir borðröndinni: »Það getr nú reyndar verið, að sagan hefði getað verið dálítið lengri; — — en það er nú það sama.«—»Er hún lengri?« spurði Sigrún og snéri sér að föður sínum, sem sýndist vita til þess. »O—jú; en það er eins og móðir þín segir, að það má standa á sama.« — »Hvernig fór um hann?« spurði Sigrún. — »Já, það var nú einmitt það,« sagði faðir hennar og leit til konu sinnar. Hún hafði hallað sér aftr á bak upp að þilinu og horfði á þau bæði. »Varð hann ólukkulegr?« spurði Sigrún lágt. — »Við verðum að hætta þar, sem endirinn *á* að vera,« sagði móðir hennar og stóð upp. Faðir hennar stóð þá upp líka, Sigrún síðar.

## Áttundi kapítuli.

Árla morguns, nokkrum vikum eftir þetta, bjóst alt Sunnuhvols-fólkið til kyrkjuferðar; það átti að ferma þann dag, og var það nokkru fyrr í ár, en vant var[1]. Við slíkt tækifæri var vant að loka bæjarhúsum öllum; því að allir skyldu þá til kyrkju fara. Veðr var bjart um morguninn, enda þótt það væri dálítið svalt og ekki lygnt í fyrstu, og kaus fólkið því heldr að ganga til kyrkju en að aka; það leit út fyrir bezta veðr um daginn. Vegrinn lá fyrst í sveig og svo fram hjá Grenihlíð og svo hægra megin út eftir sveitinni og var rúmr fjórðungr mílu til kyrkjunnar. Kornið var víðast skorið og sett á staur; kýrnar vóru víðast hvar komnar af fjalli og gengu nú tjóðraðar; merkrnar vóru annaðhvort grænar í annað sinn eða þá gráhvítar, þar sem jarðvegr var magrari; umhverfis var skógrinn fjöllitr, björkin þegar sjúk, öspin alveg gulbleik, reyniviðrinn með þurrum skrælnuðum blöðum, en þroskuðum ávexti. Það hafði rignt ákaft í nokkra daga; smákjarrið fram með götubarminum, sem annars var vant að vera fult af sandryki, var nú nýþvegið og þjarflegt. En fjallahlíðarnar þrumdu æ þungbúnari yfir sveitinni, því meir, sem haustið, sem í hönd fór, afklæddi þær og gjörði þær alvarlegri á svipinn; en lækirnir í hlíðunum, sem varla höfðu sýnt lífsmark af sér nema endr og sinnum alt sumarið, þeir veltust nú drambþrútnir og skvettandi niðr hlíðarnar með miklum nið. Grenihlíðaráin var þyngri og stöðugri í rásinni, einkum

1) Fermt er í Noregi að áliðu sumri. Þýð.

þegar kom niðr í Grenihlíðar-urðina, því að þar var eins og fjallið vildi ekki bera hana lengr, heldr drægi að sér fætrna. Þar tók hún heljartökum á björgunum og steyptist niðr í dynjandi fossi, svo af fjallið skalf og nötraði. Það fékk líka ósvikinn þvott fyrir hrekkina; því að fossinn spýtti storkandi skvettregni framan í það. Nokkrar forvitnar orra-hríslur, sem höfðu gægzt fram að gljúfrunum, voru næstum hrapaðar niðr í flauminn, og þarna stóðu þær hixtandi í regnbaðinu frá fossinum, því að hann var óspar þann dag.

Þorbjörn og foreldrar hans, systkin hans bæði og hitt heimafólkið alt var á leið sinni fram hjá fossinum og var að horfa á hann. Þorbjörn var nú orðinn alheill aftr og var hann þegar farinn að ganga að vinnu með föður sínum og hafði sýnt þrekleg handtök sem fyrri. Þeir feðgar fylgdust nú hvervetna að, og eins hér. »Ég held næstum það sé Sunnuhvolsfólkið, sem er hér rétt á eftir okkr,« sagði faðir hans. Þorbjörn leit ekki við; en móðir hans sagði: »Jú, það er það; — — en ég kem ekki auga á — — jú, þarna aftast.« Hvort sem það var nú af því, að Grenihlíðarfólkið greikkaði sporið, eða af því, að Sunnuhvolsfólkið hægði á sér, þá var það víst, að það dró æ meir og meir sundr með þeim, svo að lokum sá naumast hvort til annars.

Það virtist ætla að vera fjölment við kyrkjuna. Allr þjóðvegrinn var krökr af fólki, svo langt sem augað eygði; sumt kom gangandi, sumt akandi og sumt ríðandi. Hestarnir voru fjörmiklir nú undir haustið og lítt vanir að vera margir saman; var því gnegg og óró í þeim, svo að ferðin var ekki hættulaus, en því fjörugri.

því nær sem kom kyrkjunni, því meiri hávaði varð af hestunum, því að hver, sem kom, hneggjaði til hinna, sem fyrir voru og stóðu bundnir, en þeir toguðu í beizlistaumana, gjörðust óróir á fæti og hneggjuðu móti þeim, sem vóru að koma. Allir hundarnir í sveitinni, sem höfðu heyrt herjir til annara alla vikuna og verið að smá-urra og espa hverjir aðra, þeir hittust nú hér við kyrkjuna allir saman og lentu þeir allir í einni þvögu í grimmustu áflog, bárust svo tveir og tveir eða fleiri í hóp út um allan völl. Fólkið stóð kyrt upp við kyrkjumúrinn og bæjarhúsin, talaði saman í hljóði, og leit hver að eins til hliðar á annan. Vegrinn lá fast fram með kyrkjumúrnum og var ekki breiðr; bæjarhúsin lágu fast við veginn hinu megin andspænis, og nú stóð kvennfólkið helzt upp við múrinn, en karlmennirnir andspænis upp við húsa-veggina. það var ekki fyrri en eftir nokkurn tíma, að það dirfðist að fara yfir um hvort til annars, og þó að kunnugt fólk sæist álengdar, þá lét það eins og það þekkti ekki hvað annað, þangað til þess hæfilegi tími var kominn; — það bar þá stundum við, að kunningjar stóðu svo beint í vegi hvor fyrir öðrum, þegar annarhvor kom, að ekki varð undan því komizt að heilsa, en þeir horfðu þá varla hvor á annan meðan þeir heilsuðust, og gengu einatt hvor í sína áttina á eftir.

þegar Grenihlíðar-fólkið kom, varð nærri því enn kyrrara um en áðr; Sæmundr hafði ekki almörgum að heilsa, og varð honum því greiðgengt fram eftir fólks-röðinni; kvennþjóðin hans aftr á móti gaf sig undir eins á tal við einhverjar konur, og staðnæmdist meðal þeirra, sem stóðu fremstar í röðinni. þegar því Grenihlíðar-karlmennirnir ætl-

uðu að ganga í kyrkju, urðu þeir að ganga aftr til baka til að sækja kvennfólkið; en rétt í því bili komu þrír vagnar í röð, og var þeim ekið harðara og hvatvíslegar en nokkrum af þeim, sem áðr vóru komnir, og hægðu þeir ekki einu sinni ferðina þegar þeir komu inn á meðal fólksins. Lá við sjálft að keyrt væri ofan á Þorbjörn. Sæmundr og Þorbjörn litu upp samtíða; í fremsta vagninum sat Knútr á Norðr-Haugi og gamall maðr, í öðrum vagninum sat systir Knúts og maðr hennar, í þriðja vagninum foreldrar þeirra Norðr-Haugs systkina. Þeir Grenihlíðar-feðgar litu svo hvor framan í annan; Sæmundi sást hvergi bregða, Þorbjörn náfölnaði; svo litu þeir hvor af öðrum og beint fram undan sér; varð þeim þá litið framan í Sunnuhvols-fólkið, sem hafði staðnæmzt rétt gagnvart þeim til að heilsa þeim Grenihlíðar-mæðgum. Vagnarnir höfðu í því ekið fram hjá, þær höfðu felt niðr talið og mændu á eftir vögnunum, og leið nokkur stund áðr þær gæti haft augun af þeim. Þegar fólkið þeim megin fór svo að átta sig aftr og varð litið nær sér, varð þeim litið framan í Sæmund og Þorbjörn, sem stóðu og horfðu yfir um til þeirra. Guttormr á Sunnuhvoli leit undan, en kona hans leit þegar til Þorbjarnar, að gæta að, hvert hann horfði. Sigrún, sem sá að Þorbjörn horfði á sig, snéri sér nú að Ingiríði í Grenihlíð og tók í hönd henni eins og til að heilsa henni, og hafði hún þó þegar heilsað henni einu sinni áðr. En það fundu þau öll í einu, að vinnufólk þeirra og kunningjar, hver og einn, allir horfðu á þau, og nú gekk Sæmundr yfir um og tók í hönd Guttormi, en leit þó ekki framan í hann, og sagði: »Þakka

þér fyrir síðast!« — »Þakka þér sjálfum.« Svo heilsaði hann konunni á sömu leið og sagði: »Þökk fyrir síðast.« — »Þakka þér sjálfum,« sagði hún, en leit heldr ekki upp. Þorbjörn kom á eftir og heilsaði á sömu leið eins og faðir hans; Sæmundr kom nú síðast til Sigrúnar; hún var sú fyrsta, sem hann leit framan í. Hún leit einnig upp á hann og gleymdi alveg að þakka fyrir síðast. Í því kom Þorbjörn að; hvorugt þeirra sagði neitt, þau tókust í hendr, en laust, hvorugt leit upp og hvorugt þeirra gat hreifzt úr sporunum. — »Það verðr víst allrablessaðasta veðr í dag,« sagði Karen á Sunnuhvoli og hvarflaði augum frá einum stað til annars. Sæmundr varð fyrir svörúm: »O já; þessi vindr skefr burtu skýbólstrana.« — »Það er bærilegt fyrir kornið, sem stendr og þarfnast þurks,« sagði Ingibjörg í Grenihlíð, og fór að dusta af treyju Sæmundar á bakinu, líklega af því að hún hefir hugsað það væri ryk á honum. — »Drottinn hefir gefið okkr gott og blessað ár; en það getr nú brugðizt til beggja vona með að ná öllu vel hirtu inn,« sagði Karen á Sunnuhvoli og gaf þeim auga, Þorbirni og Sigrúnu, sem enn stóðu grafkyrr í sömu sporum. »Það er nú undir mannaflanum komið,« sagði Sæmundr og snéri sér að henni, svo að hún gat ekki vel séð þangað, sem hún vildi; »ég hefi oft hugsað um, að tvö heimili gætu verið í samlögum; þá gengi víst betr.« — »Það gæti nú samt staðið svo á, að báðir vildu nota þurkinn í einu,« sagði Karen og færði sig til hliðar. — »Satt er það,« sagði Ingibjörg og færði sig fast að hlið manni sínum, svo að Karen gat enn ekki séð þangað, sem hún vildi; »en sumstaðar verðr fyrr fullþroskað á ökrum, heldr en annarsstaðar; þið á

Sunnuhvoli eruð oftast hálfum mánuði á undan okkr.« — »Já, þá gætum við vel hjálpazt að,« sagði Guttormr hægt og færði sig líka nær. Karen leit snögt til hans. — »Annars getr nú margt komið fyrir, sem orðið gæti til fyrirstöðu,« bætti hann við. »Já, til getr það borið,« sagði Karen og færði sig úr spori til hliðar, svo annað spor á hina hliðina, og loks í sama stað aftr. — »O jæja; það getr oft margt verið manni til fyrirstöðu,« sagði Sæmundr og var ekki laust við að honum stykki bros. — »Það held ég,« sagði Guttormr svo; en Karen hélt áfram: »Mannlegr máttr nær skamt; drottins máttr er meiri, vil ég vona; undir honum er alt komið.« — »Það getr þó varla verið mjög á móti hans vilja, að við hjálpumst að með uppskeru og hirðingu á Sunnuhvoli og Grenihlíð?« — »Nei« sagði Guttormr; »það getr ekki verið honum á móti'« og leit hann alvarlega til konu sinnar. Hún vék nú talinu að öðru. Hér er margt fólk við kyrkju í dag,« sagði hún; »það er gleðilegt að sjá fólk sækja svo vel guðs-hús.« Þetta tók enginn undir fyrst; loks sagði Guttormr: »Já, ég held að kyrkjuræknin sé að aukast; það eru fleiri við kyrkju nú, en í mínu ungdæmi.« — »O jæja; — fólkið fjölgar líka,« sagði Sæmundr. — »Það er nú líklega margr á meðal þeirra, og það ef til vill mestr hlutinn, sem einvörðungu kemr hingað að vana« sagði Karen. — »Unga fólkið, ef til vill,« sagði Ingibjörg. — »Unga fólkið langar nú til að hittast, «sagði Sæmundr. — — »Hafið þið heyrt, að prestrinn okkar ætlar að sækja burt« sagði nú Karen, til að vekja enn máls á nýju umtalsefni. «Það er leiðinlegt,« sagði Ingibjörg; »hann hefir bæði skírt og fermt börnin mín.« — »Þú vildir líklega að hann gæfi þau

í hjónaband fyrst?« sagði Sæmundr, og tugði flís, sem hann hafði fundið sér.—»Skyldi ekki senn vera mál að fara í kyrkju?« sagði Karen og leit að kyrkjudyrunum. — »Þér þykir víst heldr heitt hér úti í dag,« sagði Sæmundr sem fyrri. — »Komdu nú, Sigrún, nú skulum við fara í kyrkjuna.« — Sigrún hrökk saman og leit við; hún hafði víst verið að tala við Þorbjörn. »Viltu ekki bíða þangað til hringt verðr?« sagði Ingiríðr í Grenihlíð og leit til Sigrúnar; »þá förum við öll saman,« bætti Ingibjörg við. Sigrún vissi ekki, hverju hún ætti að svara. Sæmundr leit um öxl til hennar. »Ef þú bíðr, þá verðr nú bráðum hringt—fyrir þér,« sagði hann. Sigrún stokkroðnaði. Karen leit snerpilega til hans, en hann brosti við. »Það verðr nú, eins og drottinn vill; sagðirðu ekki svo áðan?« sagði hann og gekk nú á undan þeim til kyrkju, og þau hin á eftir.

Það þar mannþröng við kyrkjudyrnar, og þegar til kom, þá var kyrkjunni ekki upp lokið enn. Rétt í því, að menn fóru að þyrpast nær, til að spyrja, hvað til kæmi, þá var kyrkjunni lokið upp og fólk tók að ganga inn; en sumir vóru farnir að snúa frá og skildist komandi fólkið að við það í þrönginni. Upp við kyrkjugaflinn stóðu tveir menn og vóru að tala saman, annar var hár og þrekvaxinn, bjarthærðr, en stríðhærðr, með snubbótt nef, og það var Knútr á Norðr-Haugi. Hann þagnaði, þegar hann sá Grenihlíðar-fólkið koma, og varð eitthvað hálfundarlegr, en stóð þó kyrr. Sæmundr var að ganga rétt fram hjá honum og sendi hann honum augnaráð um leið. Knútr leit ekki undan, en þó var eins og eitthvert hik kæmi á hann. Nú kom Sigrún, og undir eins og hún sá Knút þarna svona alveg

óvænt, varð hún náföl. Það augnaráð stóðst Knútr ekki; reis hann frá veggnum til að hafa sig burt. En hann var ekki kominn nema fá fótmál, þegar hann sá fjögr andlit stara öll á sig í einu; það vóru þau Guttormr og Karen kona hans, Ingiríðr og Þorbjörn. Það kom eins og fát á hann, svo að hann gekk beint að þeim, og áðr en hann vissi af, stóðu þeir augliti til auglitis Þorbjörn og hann; það var eins og hann ætlaði undir eins að víkja sér undan, en fleira fólk var þá að flykkjast þar að, svo að það var ekki svo auðgjört. Þetta var á steinhellunni, sem liggr fyrir framan dyrnar á Fögruhlíðarkyrkjunni; á þröskuldinum í fordyrinu hafði Sigrún staðnæmzt og Sæmundr þar innar af; þau stóðu hærra en fólkið úti, sáu því allir þau, og þau alla. Sigrún hafði gleymt öllu umhverfis sig, starði á Þorbjörn, Sæmundr og hans kona líka, og eins Sunnuhvols-hjónin og Ingiríðr. Þorbjörn fann það á sér, og stóð eins og jarðfastr í sömu sporum; en Knútr hugsaði með sér, að hèr yrði eitthvað að gjöra, og svo rétti hann höndina lítið eitt fram, en sagði ekkert. Þorbjörn rétti og höndina dálítið fram, en ekki svo að þeir næðu saman. »Þakka þér fyrir — —« byrjaði Knútr, en fanst svo þetta vera ekki viðeigandi kveðja hér og hopaði því á hæl eitt fótmál. Þorbirni varð litið upp og til Sigrúnar; hún var náföl í framan. Hann steig þá langt fótmál fram að Knúti, tók fastlega í hönd honum og sagði, svo að þeir heyrðu, sem næstir stóðu: »Þakka þér fyrir síðast, Knútr; við getum—báðir hafa haft gott af því.«

Það rumdi eitthvað í Knúti, einna líkast hixta, og það var eins og hann ætlaði tvisvar eða þrisvar að reyna að segja eitthvað; en það varð ekkert úr

því. Þorbjörn hafði ekki meira að segja og beið því—leit ekki upp, en beið rétt. Hvorugr mælti nú samt orð; Þorbjörn stóð þarna og var að velta sálmabókinni sinni í hendi ser; alt í einu misti hann hana. Knútr laut þegar og tók hana upp og rétti Þorbirni hana. »Þakka þér fyrir,« sagði Þorbjörn sem sjálfr hafði beygt sig eftir henni; hann leit upp, en Knútr leit þá niðr aftr, og hugsaði Þorbjörn með sér, að nú væri sér bezt að fara inn. Gekk hann svo í kyrkjuna.

Hitt fólkið kom á eftir honum. Þorbjörn settist í sæti sitt, og nokkru síðar varð honum litið yfir í kvennsætin; sá hann þá framan í móður sína, og brosti hún blítt og móðurlega til hans; honum varð og litið framan í Karenu á Sunnuhvoli; var auðséð, að hún hafði búizt við að hann liti yfir um þangað, því undir eins og hann leit framan í hana, hneigði hún sig þrisvar til hans, og þegar hann varð auðsjáanlega forviða við þetta, þá hneigði hún sig þrisvar aftr enn blíðlegar en áðr. — Sæmundr faðir hans hvíslaði að honum: »Þetta grunaði mig.« Þeir höfðu hlýtt á inngangsbænina, sungið einn sálm og fermingarbörnin voru farin að raða sér; þá hvíslaði Sæmundr að honum aftr: »En Knútr getr aldrei alminnilegr verið; láttu jafnan vera langt á milli Grenihlíðar og Norðr-Haugs.«

Svo leið nú þar til er fermingin byrjaði; prestrinn kom fram og börnin hófu upp fermingar-sálminn eftir Kingó. Fólk er oft vant að vikna við að heyra börnin syngja öll í einu og alein, svo vonglöð og snjallróma, og fær það oft ekki sízt á þá, sem ekki eru barnsaldrinum fjær en það, að þeim stendr ljóst fyrir hugskots-sjónum ferming sjálfra þeirra. Svo

kemr djúp þögn, og prestrinn, sá sami nú í meira en tuttugu ár, sá sami, sem oftast nær hefir einhvern tíma á góðri stund talað til ins bezta í hverjum þeirra, — þegar hann tengir nú höndum saman á brjósti sér og ávarpar tilheyrendrna, þá komast tíðum margir við. En börnin fara að gráta, þegar prestrinn ávarpar foreldra þeirra og hvetr þá til að biðja fyrir börnum sínum. Þorbjörn, sem nýlega hafði legið fyrir dauðanum og enn nýlegar hafði búizt við að verða heilsulaus maðr alla æfi, hann grét mikið, einkum þegar hann heyrði börnin inna fermingar-loforðið, og öll vóru svo viss um að halda það. Hann leit aldrei yfir í kvennsætin; en þegar úti var, gekk hann yfir til Ingiríðar systur sinnar og hvíslaði einhverju að henni; eftir það flýtti hann sér út, og sumir þóttust hafa ávæning af, að hann hefði haldið upp hlíð og horfið þar í skóginn, í stað þess að halda þjóðveginn beina leið heimleiðis; en ekki vóru þeir vissir um það samt. Sæmundr leitaði fyrst að honum,—en hætti þó við, þegar hann sá að Ingiríðr var horfin líka. Hann fór þá að leita að Sunnuhvols-fólkinu, en það var þá á þönum um allan kirkjustaðinn, til að leita að Sigrúnu, en enginn hafði orðið var við hana. Sunnuhvols og Grenihlíðar-fólkið hélt þá heimleiðis hvort í sínu lagi og án unga fólksins.

Sigrún og Ingiríðr vóru komnar langt á undan, og fóru alfaraveginn. »Ég iðrast næstum eftir, að ég fór með þér,« sagði Sigrún. — »Nú gjörir það ekkert framar, úr því að pabbi veit um það,« svaraði Ingiríðr. — »En hann er þó ekki faðir minn,« sagði Sigrún. — »Hann getr orðið það,« svaraði Ingiríðr,— og ræddu þær svo ekki meira um þetta. — »Það var

víst hér, sem við áttum að bíða,« sagði Ingiríðr þegar þær vóru komnar fram hjá stórum krók, sem á veginum var, og inn í þéttan skóg. — »Hann hefir langan krók að fara,« sagði Sigrún. — »Ég er kominn!« sagði Þorbjörn og reis upp bak við stóran stein.

Hann var nú búinn að hugsa sér alt, sem hann ætlaði að segja, og það var meira en lítið; en í dag fanst honum sér mundi ekki veita það erfitt, því að nú vissi faðir hans um þetta og var þess fýsandi; það þóttist hann geta ráðið af því, sem hann varð áskynja við kyrkjuna í dag. Svo mikið hafði hann þráð hana alt sumarið, að hann þóttist nú viss um, að sér yrði hægra um að koma fyrir sig orði, en sér hefði áðr verið. »Það er bezt að við förum skógstíginn,« sagði hann; »hann er stýttri.« Þær sögðu ekkert, en fylgdu honum. Þorbjörn hugsaði sér nú að yrða á Sigrúnu, en fyrst ætlaði hann að bíða, þangað til þau væru komin upp brekkuna; svo ætlaði hann að geyma það, þangað til þau væru komin yfir mýrina þar rétt hjá; en þegar hann var kominn yfir um hana, fanst honum réttast að fresta því, þangað til þau væru komin inn í þykka skóginn skamt fram undan þeim. Ingiríði þótti þau vera æði-sein að komast á lagið og hægði því á sér, svo að hún drógst smásaman aftr úr, þar til hún var orðin svo langt á eftir, að hún var nærri úr augsýn; Sigrún lézt ekki taka eftir því, en fór að smá-tína ber og ber, sem spruttu rétt á götubakkanum.

Það er þó undarlegt, að ég skuli ekki geta komið fyrir mig orði, hugsaði Þorbjörn með sér, og sagði svo: »Það varð ljómandi veðr samt í dag.« — »Já,« svaraði Sigrún. Og svo gengu þau spölkorn enn; hún tíndi ber, og hann gekk við hlið henni. — »Það var vel

gjört af þér að verða samferða,« sagði hann; hún svaraði engu. »Skelfing hefir þetta sumar verið langt,« sagði hann; en hún tók ekki heldr undir þetta. — Nei, meðan við erum á gangi, hugsaði Þorbjörn með sér, verðr ekkert úr neinu samtali; »ætla við ættum ekki að hinkra dálítið við eftir Ingiríði?« sagði hann svo. — »Já, það skulum við gjöra«, sagði Sigrún og stóð við; en hér spruttu engin ber, sem hægt væri að tína; eftir því hafði Þorbjörn víst tekið; en Sigrún hafði náð sér í stórt strá, og stóð nú og þræddi berin upp á stráið.

»Í dag mintist ég glögt þess tíma, þegar við gengum bæði til spurninga«, sagði hann. — »Ég gat heldr ekki látið vera að minnast þess«, svaraði hún. — »Það hefir margt á dagana drifið síðan þá«. — Hún þagði, og hélt hann því á fram: »Margt hvað af því hefir verið öðruvísi en við bjuggumst við«. — Sigrún var nú mjög iðin að þræða berin upp á stráið og leit ekki upp. Hann færði sig úr stað, til að geta séð betr framan í hana; en það var eins og hún tæki eftir þessu, og vék sér heldr undan. Þá fór ekki að fara um hann, og fanst honum hann eiga örðugt með að koma upp orði. »Sigrún! hefir þú ekki eitthvað að segja líka?« Þá leit hún upp hlæjandi. »Hvað á ég að segja?« spurði hún. Nú jókst honum aftr hugr, og ætlaði hann að taka utan um mittið á henni; en þegar hann kom að henni, þá hafði hann þó ekki fulla uppburði til þess, en spurði ofr-spaklátlega: »Hefir ekki Ingiríðr talað neitt við þig?« — »Jú« svaraði hún. — »Þá veiztu líka nokkuð«, endrtók hann aftr, og kom nú fast að henni. »Þú veizt víst líka nokkuð«, svaraði hún. Hann sá ekki

framan í hana. — »Já,« sagði hann og ætlaði að taka í hendina á henni; en hún var þá sem óðast að þræða berin upp. »Það er svo leitt,« sagði hann, »að þú dregr einhvern veginn allan kjarkinn úr mér.« — Hann gat ekki séð, hvort hún brosti eða ekki, og því vissi hann ekki, hvort hann ætti að halda áfram. »Jæja, stutt og laggott,« sagði hann nokkurn veginn rösklega, og þó eins og hálf-efablandinn; »ég ætlaði að spyrja þig, hvað þú hefðir gjört við seðilinn.« Hún svaraði engu, en snéri sér undan. Hann færði sig á eftir henni, lagði aðra höndina á öxlina á henni og laut ofan að henni. »Svaraðu mér!« sagði hann lágt. — — »Ég hefi brent honum.«

Hann varð nú uppburðarmeiri og snéri henni að sér, en þá sá hann, að henni lá við að vökna um augu, og þorði hann þá ekki annað en sleppa henni aftr; — það er þó leiðinlegt, hvað henni er grátgjarnt, hugsaði hann með sér. Meðan þau stóðu svona, segir hún alt í einu lágt: »Því fórstu að skrifa þann seðil?« — »Það hefir Ingiríðr sagt þér.« — »Jú, jú; en — það var ónærgætið af þér.« — »Faðir minn vildi það endilega —« —»En þó —« — Hann hugsaði ég yrði heilsulaus maðr alla mína æfi; »eftirleiðis verð ég að sjá fyrir þér', sagði hann.«

Nú sást til Ingiríður á næsta leiti, og héldu þau því undir eins á stað. »Mér fanst ég sjá þig hvað glöggvast, þegar ég hugsaði ég fengi þig aldrei,« sagði hann. — »Maðr prófar sjálfan sig, þegar maðr er einmana,« sagði hún. — »Já; þá kemr það bezt fram, hver okkar er hjartfólgnastr,« sagði Þorbjörn skírt og gekk alvarlegr við hlið henni.

Hún tíndi nú ekki ber framar. »Viltu þessi?« sagði hún og rétti honum berin á stráinu. — »Þakka þér

fyrir,« sagði hann og tók í hendina, sem rétti honum berin. »Er þá ekki bezt, að alt verði við það, sem áðr var?« sagði hann og var hálfveikr í málrómnum. — »Jú« sagði hún ofboð lágt og leit undan; svona gengu þau áleiðis, og meðan hún þagði, þorði hann hvorki að hreifa við henni né tala; en honum fanst hann verða svo léttr á sér eins og fis, svo honum lá við að rjúka um koll. Honum roðaði fyrir sjónum, og þegar þau komu rétt í þessu á hól, þar sem Sunnuhvoll blasti við þeim, þá fanst honum eins og hann hefði alið þar allan sinn aldr og langaði þangað heim. — »Það er eins gott að ég fari heim með henni nú um leið,« hugsaði hann með sér, og svalg nú þor og þrek við þessa sjón, svo að hann varð einráðnari í þessu við hvert fótmál. »Faðir minn leggr mér liðsyrði,« hugsaði hann; »ég afber þetta ekki lengr, ég verð að fara yfir um, — ég verð að fara!« Og hann greikkaði sporið æ meir og meir og horfði beint fram undan sér; það sló bjarma yfir bygðina og bæinn; »já, í dag; ég tef ekki eina stund framar,« og hann fann svo mikinn kjark í sér, að hann kunni sér ekki læti.

»Þú ætlar alveg að ganga mig af þér,« heyrði hann blíðlega sagt rétt fyrir aftan sig. Það var Sigrún, sem ekki var maðr til að fylgja honum og var að gefast upp. Hann varð hálfsneyptr og snéri sér við, gekk á móti henni með útbreiddan faðm og hugsaði með sér, að hann skyldi taka hana á loft; en þegar hann kom að henni, þá gjörði hann það ekki. »Ég geng svo hratt,« sagði hann. »Já, heldr en ekki,« svaraði hún.

Þau voru nú komin þar að, sem skógstígrinn kom saman við þjóðveginn aftr. Ingiríðr hafði alt af

verið úr augsýn mest-alla leiðina, en náði þeim nú hér. »Nú skuluð þið ekki ganga lengra saman,« sagði hún rétt fyrir aftan þau. Þorbjörn hrökk við; honum þótti of snemt að skilja. Sigrún varð líka eitthvað undarleg við. — »Ég þurfti svo margt og mikið við þig að tala,« sagði Þorbjörn lágt við hana. Henni lá við að brosa. »Jæja,« sagði hann;« þá í annað sinn;« — hann tók í hönd henni.

Hún leit nú upp svo hýrt og blítt, að honum hitnaði um hjartarætrnar, og flaug honum þegar í hug, að fara undir eins heim með henni. Í því dró hún að sér hendina, snéri sér rólega að Ingiríði og kvaddi hana, og gekk svo hægt ofan á þjóðveginn. Hann stóð þar eftir.

Þau systkin gengu heim og lögðu leið sína um skóginn. »Gátuð þið nú talað nóg saman?« spurði Ingiríðr. — »Nei, þetta var of stuttr vegr,« sagði hann, en herti ganginn, eins og hann vildi ekki heyra meira.

— »Nú, nú?« sagði Sæmundr og leit upp frá matnum, þegar þau systkin komu inn. Þorbjörn svaraði engu, en gekk að bekknum andspænis glugganum, líklega til að kasta af sér ferðafötunum; Ingiríðr kom á eftir honum heldr kýmileit. Sæmundr hélt áfram að matast, en leit yfir til Þorbjarnar af og til; Þorbjörn lét sér all-annríkt; Sæmundr brosti og mataðist sem áðr. »Komdu að borða,« sagði hann svo; »matrinn verðr kaldr.« — »Þakka þér fyrir; ég hefi ekki lyst á neinu,« sagði Þorbjörn og settist niðr. — »Svo?« sagði Sæmundr og hélt áfram við matinn. Eftir nokkra stund sagði hann svo: »Nú, þið höfðuð eitthvað fljótt við frá kyrkjunni í dag,« — »Það var manneskja, sem við þurftum að tala við,« sagði

Þorbjörn og leit undan. — »Nú, — náðuð þið tali saman?« — »Ég veit varla, hvað ég á um það að segja,« sagði Þorbjörn. — »Það var þó skrambi!« sagði Sæmundr og hélt enn áfram að borða. Nokkru síðar hafði hann lokið máltíðinni og stóð upp; hann gekk að glugganum og horfði út sundarkorn; svo snéri hann sér við: »Þorbjörn — eigum við að ganga út og skoða, hvernig sprottið er?« Þorbjörn stóð upp; hann var snöggklæddr. »Nei, — þér er betra að fara í yfirhöfn.« Þorbjörn tók gamla treyju, sem hékk á þilinu. — »Þú sér, að ég hefi farið í spari-treyjuna,« sagði Sæmundr. Þorbjörn gjörði þá slíkt ið sama, og gengu þeir út, Sæmundr á undan og Þorbjörn á eftir.

Þeir gengu ofan eftir niðr að þjóðveginum. »Eigum við ekki að skoða byggið?« sagði Þorbjörn. — »Nei, nú göngum við yfir að hveiti-akrinum,« sagði Sæmundr. Rétt í því þeir komu ofan á þjóðveginn, kom þar vagn og var hægt ekið. »Það er einn af Norðr-Haugs-vögnunum,« sagði Sæmundr. — »Það er unga fólkið frá Norðr-Haugi,« sagði Þorbjörn; en það voru nýgiftu hjónin.

Vagninn staðnæmdist, þegar hann kom að þeim Grenihlíðar-feðgum. »Það er allra-laglegasta kona, hún María á Norðr-Haugi,« sagði Sæmundr og gat ekki haft augun af henni; hún hallaðist lítið eitt aftr á bak í vagninum og hafði bundið klút í skýlu um höfuðið, en sjali sveipað um sig; hún horfði beint fram undan sér og hvesti augun á þá félaga; andlitsdrættirnir vóru hreinir og gerðarlegir, en engin minsta hreifing á andlitinu. Bóndi hennar var fölr og magr og leit nærri því enn hlýlegar út en hann var vanr, líkast þeim manni, sem einhver sorg hvílir á, sem hann getr ekki orð á haft. »Eruð þið úti

að skoða kornið, feðgarnir?« sagði hann. — »Það trúi ég,« sagði Sæmundr. — »Það er vel sprottið hér í ár.« — »O — jæja; það hefði getað verið lakara.« — »Þið komið seint frá kirkju,« sagði Þorbjörn. — »Ég átti marga kunningja, sem ég þurfti að kveðja,« sagði maðrinn. — »Nú, — ætlarðu nokkuð að ferðast?« spurði Sæmundr. — »Já, það er ég að hugsa um.« — — »Er ferðinni langt heitið?« — »Já, æði-langt.«—»Hvað langt?»—»Til Ameríku«—»Til Ameríku!« sögðu báðir feðgarnir í einu; »nýkvæntr maðrinn?« sagði Sæmundr svo. »Ég held ég megi verða hérna sakir lapparinnar, sagði refrinn, — hann sat fastr í boganum.« — María leit til bónda síns og svo til þeirra feðga, og roðnaði snöggvast, en annars brá henni ekkert. — »Og konan fer með?« spurði Sæmundr. — »Nei, hún fer ekki.« — »Þeir segja, það sé auðvelt að komast fram í Ameríku,« sagði Þorbjörn, — hann fann, að bezt færi á að láta ekki talið falla þarna niðr. — »O — já!« sagði maðrinn. — »En Norðr-Haugr er góð jörð,« sagði Sæmundr. — »Hann er setinn of mörgum,« svaraði maðrinn; konan leit nú aftr til hans. »Þar er hver í vegi fyrir öðrum,« bætti hann við.

»Jæja, farnist þér ferðin vel,« sagði Sæmundr; »og drottinn láti þig finna það, sem þú leitar að.«

Þorbjörn hvesti augun á skólabróður sinn; »ég tala við þig síðar,« sagði hann. — »Það er gott að hafa einhvern, sem maðr getr talað við,« svaraði maðrinn og krafsaði í vagngólfið með keyrinu.

»Komdu yfir um til okkar,« sagði María, og varð bæði Þorbirni og Sæmundi hverft við og litu upp báðir samt; þeir mundu aldrei eftir, að hún hafði svona blíðlegan málróm.

Þau óku nú leiðar sinnar; — þau fóru hægt; dálítillreykmökkr þyrlaðist upp umhverfis þau; kvöldsólin skein glatt; við hliðina á vaðmálsfötum hans blikaði á silkiklútinn hennar;—svo hurfu þau fyrir leiti.

— — Þeir feðgar gengu lengi þegjandi. Loks tók Þorbjörn til máls: »Ég eg hræddr um, að hann komi seint aftr,« sagði hann. — »Það er og líkast til bezt,« hélt Sæmundr, »þegar maðr hreppir ekki auðnu á ættjörðu sinni;« og héldu þeir svo á fram þegjandi aftr um hríð. »Nú förum við fram hjá hveiti-akrinum,« sagði Þorbjörn. — »Við getum skoðað hann á heimleiðinni,« svaraði Sæmundr, og héldu þeir svo á fram. Þorbirni var ekki um að spyrja, hvert ferðinni væri heitið; því að nú fóru þeir út fyrir landamerki Grenihlíðar.

---

## Níundi kapítuli.

Guttormr á Sunnuhvoli og kona hans höfðu þegar matazt, þá er Sigrún kom inn lafmóð og kafrjóð. »En gæzkan mín góð, hvar hefirðu verið?« spurði móðir hennar. — »Ég varð eftir með Ingiríði,« sagði Sigrún og stóð á gólfinu og tók af sér klútana. Faðir hennar fór að skygnast upp í skáp eftir bók. »Hvað gátu þið haft að tala um allan þennan óratíma?« — »Og — ekki um neitt.« — »Þá hefði þér verið betra að vera okkr samferða frá kyrkjunni, barnið mitt!« sagði móðir hennar aftr og stóð upp og tók fram mat handa henni. Sigrún settist niðr að matnum og móðir hennar andspænis henni. »Það hafa ef til vill verið fleiri, sem þú talaðir við?« spurði móðir hennar. »Já, það vóru margir,« sagði Sigrún.

— »Ég held stúlkan megi tala við fólk,« sagði nú Guttormr. — »Já, víst má hún það,« sagði móðir hennar nokkuð hlýjara; »en hún ætti þó helzt að verða samferða foreldrunum sínum.« — Þessu var engu svarað.

»Það var blessaðr kyrkjudagr, þetta,« sagði húsfreyja; »það er ánægjulegt að sjá fermingarbörnin á kyrkjugólfinu.« — »Það minnir hvern á sjálfs síns börn,« sagði Guttormr. — »Já, þú segir það satt,« sagði Karen og stundi við; »það veit enginn, hvernig þeim muni vegna.« Guttormr þagði lengi. — »Við eigum drottni mikið að þakka,« sagði hann loksins; »hann lét okkr þó halda einu.« Karen sat og dró fingrinn eftir borðröndinni og leit ekki upp; »hún er þó okkar stærsta gleði,« sagði hún lágt; »hún er líka þekt og gott barn,« sagði hún svo enn lægra. Nú varð stundar-þögn. »Já, hún hefir verið okkr til mikillar gleði,« sagði Guttormr; og svo bætti hann seinna við með viðkvæmri rödd: »Guð gjöri hana lukkulega.« — Karen dró fingrinn eftir borðröndinni; hraut tár á borðið og þurkaði hún það af. — »Því borðarðu ekki?« sagði Guttormr við Sigrúnu nokkru síðar, er hann leit upp. — »Þakka þér fyrir, ég er södd,« sagði Sigrún. — »En þú hefir ekki borðað hót,« sagði móðir hennar nú líka; »þú hefir þó haft langa leið að ganga.« — »Ég hefi enga matarlyst,« sagði Sigrún og tók fram vasaklúts-bleðil úr barmi sér. »Reyndu að borða, barnið mitt,« sagði faðir hennar. — »Ég get ekkert borðað,« sagði Sigrún og beygði út af. — »En, góða mín, því ferðu að gráta?« — »Ég veit ekki,« sagði hún kjökrandi. — »Hún er nú altaf svo ístöðulítil, vesalingr,« sagði móðir hennar; Guttormr stóð upp og gekk út að glugga.

»Ég sé tvo menn koma hér að neðan,« sagði hann. — »Svo; núna um þetta leyti?« varð Karenu að orði og gekk hún líka út að glugganum. Þau horfðu lengi niðr eftir. — »En, góði minn, — hverjir geta það verið?« sagði Karen svo, og þó ekki beinlínis eins og hún þyrfti að spyrja. — »Það er ekki gott að vita,« svaraði Guttormr, og stóðu þau bæði enn sem fyrri og horfðu út. — »Ég skil ekki alminnilega í þessu,« sagði hún. — »Ég held ekki,« sagði hann. Mennina bar nú nær. »Nú, það geta ekki aðrir verið en þeir samt sem áðr,« sagði hún loksins. — »Jú, það eru víst þeir« sagði Guttormr. Mennirnir komu nú rétt heim undir bæinn; þá staðnæmdist sá eldri og leit aftr; sá yngri gjörði slíkt ið sama; héldu þeir svo á fram.

»Getr þú skilið, hvað þeir muni vera að vilja?« spurði Karen í álíkum tón og fyrst. »Nei; það veit ég ekki,« sagði Guttormr. Karen snéri sér nú við, gekk að borðinu og tók af því og þreif dálítið til í stofunni. »Farðu í sparifötin þín aftr, barnið mitt,« sagði hún við Sigrúnu; »því að hér ber gesti að garði.«

Hún hafði naumast slept orðinu, þegar Sæmundr lauk upp hurðinni og kom inn, og Þorbjörn á eftir honum. »Hér sé guð!« sagði Sæmundr, staðnæmdist lítið eitt við dyrnar og hélt svo á fram og heilsaði fólkinu; Þorbjörn á eftir. Síðast komu þeir til Sigrúnar, sem stóð út í horni með silkiklút í hendinni, og vissi ekki, hvort hún ætti að fara að láta hann á sig aftr eða ekki, og vissi líklega naumast af, að hún hélt á honum í hendinni. »Gjörið þið svo vel að fá ykkr sæti,« sagði húsfreyja. — »Þakka yðr fyrir — annars verðr maðr nú ekki langþreyttr þennan stutta

spöl hérna að handan, en settist þó niðr; Þorbjörn settist við hlið hans. — »Nú, við mistum alveg af ykkr við kyrkjuna í dag,« sagði húsfreyja. — »Já, og ég var að leita eftir ykkr,« sagði Sæmundr. — »Það var fjölment þar í dag,« sagði Guttormr. — »Já, fjarska-fjölmennt;« sagði Sæmundr; »en það var líka afbragðs-kyrkjuveðr.« — »Já, við vórum að tala um það rétt í þessu,« sagði Karen. — »Það er eitthvað svo áhrifamikið að horfa á ferminguna fyrir þá, sem sjálfir eiga börn,« sagði Guttormr; húsfreyja þokaði sér til á bekknum — »Já, það er það,« sagði Sæmundr; »maðr leiðist til að fara að hugsa alvarlega um þau, — og því var það nú, að ég brá mér hérna yfir um í kvöld,« bætti hann svo við, litaðist hægt um, fékk sér nýja tölu upp í sig og lagði gömlu tugguna gætilega í látúnsdósirnar. Guttormr, Karen og Þorbjörn litu undan hvert í sína áttina. »Mér fanst ég verða að fylgja Þorbirni hingað yfir um«, hélt Sæmundr áfram nokkuð seinlega; »hann hefði líklega seint haft uppburði til að fara einn hingað, — hefði líklega átt bágt með líka að koma fyrir sig orði, er ég hræddr um,« — hann leit til Sigrúnar, sem varð vel vör augnaráðsins. — »Það er nú svona, að hann hefir lagt hug á hana Sigrúnu, alt frá því hann var svo úr grasi vaxinn, að hann fór að bera skyn á slíkt; og það er líkast ekki laust við, að hún hafi felt hug til hans líka. En þá hugsaði ég nú, að bezt væri, að þau næðu saman. Ég var því ekki mjög meðmæltr eina tíð, meðan hann gat tæplega stjórnað sjálfum sér, hvað þá heldr meiru; en nú þykist ég mega ábyrgjast hann, og geti ég það ekki, þá getr hún það; því að nú er hún víst sú, sem mest hefir áhrifin á hann. — Hvað sýnist

ykkr nú um það, að við létum það nú eftir þeim, að lofa þeim að ná saman? Það, auðvitað, liggr ekkert á; en hins vegar veit ég heldr ekki, eftir hverju við ættum að bíða. Þú ert nú, Guttormr, vel efnaðr maðr, ég reyndar ekki eins, og hefi milli fleiri að skifta; en alt um það vona ég, að það geti komizt í lag. Þið verðið nú að segja til, hverju þið svarið um þetta mál; — hana spyr ég sjálfa síðast; því að ég þykist fara nærri um hennar vilja«.

Svona fórust nú Sæmundi orð.

Guttormr sat íboginn með ölnbogana á hnjánum og var að fitla með höndunum; var nokkrum sinnum eins og hann ætlaði að rísa við, og dró alt af andann þyngra í hvert sinn; en það var þó ekki fyrri en í fjórðu eða fimtu atlögu, að hann rétti sig við í sætinu, strauk höndunum um hnjákollana og leit á konu sína, og ýmist til Sigrúnar. Sigrún hreifðist ekki, og sá enginn framan í hana, Karen sat og dró fingrinn eftir borðinu. »Það er nú reyndar satt, að vandi er vel boðnu að neita',« sagði hún. — »Já, mér sýnist við eigum að taka þessu boði,« sagði Guttormr hátt, eins og honum létti mjög við, og leit frá Karenu yfir á Sæmund, sem hafði krosslagt hendr á brjósti og hallað sér upp að þilinu. — »Við eigum nú ekki nema þessa einu dótturina,« sagði Karen; »svo við ættum að hugsa okkr um.« — »Nægr er tími til þess,« svaraði Sæmundr; »en annars skil ég ekki, hvað verið getr til fyrirstöðu að svara samstundis, sagði bangsi, — hann spurði bóndann, hvort hann mætti éta kúna hans.« — »Ég held við getum svarað þessu undir eins,« sagði nú Guttormr og leit til konu sinnar. — »Það er nú þetta, að Þorbjörn kynni að vera nokkuð óstýri-

látr,« sagði hún, en leit ekki upp. — »Það held ég sé farið að lagast," sagði Guttormr; „þú manst sjálf hvað þú sagðir í dag." — — Hjónin horfðust nú í augu; það svaraði svo sem drykklangri stund. — „Ef við að eins getum verið viss um hann," sagði hún. — „Já, hvað það snertir," tók nú Sæmundr til orða aftr, „þá verð ég að segja um það sama, sem áðr; það er ekki hætt við að vagninn velti, þegar hún heldr í taumana. Það er ótrúlegt, hvert vald hún hefir yfir honum; það sá ég bezt þegar hann lá heima hjá mér og vissi ekki, hvort hann mundi nokkurn tíma til heilsu komast aftr eða ekki." — „Þú mátt nú ekki vera alt of þrá heldr," sagði Guttormr; „þú veizt, hvað hún vill sjálf, og hún er það nú, sem við lifum fyrir!" Þá leit Sigrún upp í fyrsta sinn og á föður sinn, og skein hlýtt þakklæti í því augnaráði. „O — jæja," sagði Karen eftir stundarþögn, og dró nú fingrinn fastara en áðr eftir borðinu; „þó ég hafi spyrnt á móti í lengstu lög, þá hefir það líklega verið í góðu skyni gjört — — það er ekki víst, ég hafi verið eins hörð, eins og orð mín —" Hún leit upp og brosti með tárin í augunum. Þá stóð Guttormr upp. „Þá í guðs nafni er það fram komið, sem ég hefi mest óskað af öllu í þessum heimi," sagði hann og gékk þvert yfir gólfið til Sigrúnar. — „Ég hefi aldrei kviðið því," sagði Sæmundr og stóð nú upp líka; „það nær saman, sem saman á að ná." Hann gékk þvert yfir gólfið. „Nú, — hvað segir þú um þetta, barnið mitt?" sagði Karen, og gékk nú líka til Sigrúnar.

Sigrún sat enn kyr; þau stóðu nú öll umhverfis hana, nema Þorbjörn, sem enn sat kyrr í sætinu. „Þú verðr að standa upp, barnið mitt," hvíslaði móð-

ir hennar að henni; hún stóð upp og brosti, leit svo undan og tárfeldi. — „Guð minn góðr fylgi þér nú og ævinlega!“ sagði Karen og faðmaði hana að sér, og grétu þær báðar. Þeir feðrnir géngu nú aftr þvert um gólfið, hvor til sinnar hliðar.

„Þú verðr að koma til hans“, sagði Karen nú kjökrandi um leið og hún slepti henni og ýtti henni blíðlega á stað. Sigrún gekk eitt spor, en staðnæmdist svo og komst ekki lengra; Þorbjörn spratt upp og gekk að henni, tók í hönd henni, hélt í hana og vissi nú ekki, hvað hann ætti meira að gjöra, en hélt alt af í hendina, þangað til hún dró hana hægt að sér aftr. Svo stóðu þau þarna þegjandi hvort við hliðina á öðru.

Nú var lokið upp hurðinni, og kom einhver hljóðlega inn. „Er Sigrún hér?“ var spurt hálf-hikandi; það var Ingiríðr í Grenihlíð. — „Já, hún er hérna; komdu nær!“ sagði faðir hennar. Ingiríðr var hálfhikandi; „komdu; hér er alt gott á ferðum,“ bætti hann því við. Þau litu nú öll til hennar. — Hún virtist hálf-feimin; „hér eru fleiri úti,“ sagði hún. — „Hverjir eru það?“ spurði Guttormr. — — — „Það er hún mamma,“ sagði hún lágt. — „Láttu hana koma inn,“ sögðu nú fjórar raddir í einu. — — Og Karen húsfreyja gekk nú til dyra, en hitt fólkið leit nú hvert til annars með gleðibragði. „Þér er óhætt að koma, mamma,“ heyrðu þau Ingiríði segja. Og svo kom Ingibjörg í Grenihlíð inn í hvítum skautbúnaði. — „Ég þóttist nú skilja alt,“ sagði hún, „þó að Sæmundr geti aldrei sagt neitt. Og svo gátum við Ingiríðr ekki á okkr setið að fara yfir um.“ — „Já, hér er alt, eins og þú mundir vilja á kjósa,“ sagði Sæmundr og þokaði úr vegi fyrir henni, svo

að hún kæmist fram til þeirra. — „Og guð blessi þig fyrir það, að þú dróst hann yfir til þín,“ sagði hún við Sigrúnu, lagði hönd um háls henni og klappaði henni; „þú varst alt af trygg og stöðug, barnið mitt; og svo fór þó alt, eins og þú vildir.“ Og hún klappaði henni á kinnina og á hárið; tárin runnu ofan eftir kinnunum á henni; hún skeytti því engu, en þerði vandlega tárin af Sigrúnu. — „Já, það er vaskleikspiltr, sem þú fær,“ sagði hún svo, »og nú fyrst er ég óhult um hann.“ — og hún faðmaði Sigrúnu enn einu sinni að sér. — „Kerling mín veit meira heim í eldhúsi sínu,“ sagði Sæmundr, »heldr en við, sem eigum í öllu saman.“

Það stöðvaðist nú smám saman grátrinn og viðkvæmnin. Húsfreyja fór að hugsa fyrir kvöldverði, og bað Ingiríði vesling að hjálpa sér, „því að Sigrún mun ekki vera mikið fyrir að starfa í kvöld.“ Og svo fóru þær báðar að elda rjómagraut. Karlarnir fóru að tala um uppskeruna og hvað annað, sem fyrir féll. Þorbjörn hafði sezt út við glugga, og læddist Sigrún þangað til hans og lagði höndina á öxlina á honum. „Á hvað ertu að horfa?“ hvíslaði hún að honum. — Hann leit við og horfði lengi blíðlega á hana, leit svo út aftr. „Ég er að horfa yfir að Grenihlíð,“ sagði hann; „það er svo undarlegt að sjá hana héðan.“

[Þýtt hefir *Jón Ólafsson*].[1]

---

1) Vísuna á 14. bls. hefir Valdimar Ásmundarson að mestu leyti þýtt.—Kvæðið á 110.—111. bls. hefir Steingrímr Thorsteinsson þýtt að mestu leyti. *J. Ó.*

# Unnið virkið.

Eftir

## Prosper Mérimée.

---

Einn vinr minn, sem var hermaðr og dó suðr á Grikklandi fyrir fám árum, sagði mér eitt sinn frá fyrstu orustunni, sem hann hafði verið í. Mér fanst svo mikið um frásögn hans, að ég skrifaði hana upp eftir minni, undir eins og ég hafði tóm til þess. Sagan er svona:

Ég kom til herdeildar minnar 4. sept. um kveldið, og hitti þar ofurstann á náttstaðnum. Hann var fyrst nokkuð hastr í svörum við mig; enn er hann hafði lesið meðmælingarbréf mitt frá B. yfirhershöfðingja, skifti hann um viðmót, og ávarpaði mig nokkrum lofsyrðum.— Síðan fór hann með mig til sveitarforingja míns, og sagði honum, hver ég væri. Sveitarforinginn var þá einmitt að koma heim úr njósnarferð. Ekki var mikill tími til þess fyrir mig að kynnast honum. Hann var stórvaxinn, móleitr á hörund, illilegr í andliti og óþægilegr ásýndum. Hafði hann fyrst verið í lægstu hermannaröð, enn síðan unnið sér frægð og frama í orustum. Rödd hans var lág og hás, og var það því eftirtakanlegra,

sem hann var líkari risa enn manni að vexti. Mér var sagt, að rödd hans væri svona undarleg af því, að kúlu hefði verið skotið í geng um lungun á honum í orustunni við Jena[1].

Þá er hann heyrði, að ég kæmi úr herskólanum í Fontenbló[2], setti hann upp fyrirlitningarsvip og mæli: „Fulltrúi minn féll í gær ...“. Ég þóttist skilja, að þýðing þessara orða væri sú: „Þér eigið að koma í hans stað, enn eruð eigi fær til þess“. Mér lá við að svara ónotum, en ég stilti mig.

Nú kom tunglið upp hinu megin við Shévrínóvirkið, sem eigi var lengra frá náttstað vorum enn svo sem tvö fallbyssuskot. Tunglið var stórt og rauðleitt, eins og það á að sér að vera, þegar það er að koma upp. Í þetta sinn virtist mér það þó óvenjulega stórt. Um skamma stund bar virkið sem svarta mynd við tunglið, og var það á að sjá sem gjósandi eldfjallstindr.

Gamall hermaðr, sem stóð í nánd við mig, tók eftir litnum á tunglinu og mælti: „Það er nokkuð rautt í kveld; það er fyrir því, að ekki verðr fyrirhafnarlaust að vinna þetta nafntogaða virki“. Ég hefi ávalt hjátrúaðr verið, og spádómr þessi fékk á mig, einkum þar sem svona stóð á. Ég lagðist nú fyrir, enn gat eigi sofnað. Reis ég þá á fætr og gekk nokkra stund til og frá, og horfði á hina ómælanlegu varðeldaröð, sem náði yfir allar hæðirnar hinu megin við Shévrínó-þorpið.

---

1) Orustan við Jena, milli Napóleons 1. og Prússa, 14. okt. 1806.

2) Fontainebleau, bœr skamt suð-austr frá París, áðr sátu konungar þar stundum.

Þá er ég hugði að nætrloftið og kœlan hefði svalað nógu vel blóði mínu, fór ég að eldinum aftr, sveipaði vandlega að mér kápu minni og lét aftr augun, í þeirri von, að ég mundi eigi þurfa að opna þau aftr fyrr enn næsta morgun. Enn svefninn var tregr til að koma. Leið þá eigi á löngu áðr hugrenningar mínar fóru smátt og smátt að verða daprlegar. Ég hugsaði út í það, að ég ætti engan vin á meðal þessa ótölulega manngrúa, er þar væri á vellinum; yrði ég sár, mundi ég verða látinn á spítala, og mundu fákunnandi sáralæknar og skeytingarlausir gera við mig. Minntist ég nú þess, er ég hafði heyrt frá sagt um sáralækningar. Hjartað í mér barðist ákaflega, og mér varð það ósjálfrátt, að brjóta saman vasaklút minn og búa mér til eins konar brynju úr honum og vasabókinni minni. Ég var yfir kominn af þreytu og var allt af við og við að síga á mig svefnhöfgi, enn undir eins og ætlaði að renna í brjóstið á mér, hrökk ég ávalt upp með andfælum við eitthvert óhapp, sem bar mér fyrir hugskotssjónir.

Á endanum bar samt þreytan hærra hlut, og var ég steinsofandi, þá er liðið var vakið um morguninn. Vér fylktum oss nú, og var gætt að, hvort allir væri við; síðan var byssunum hlaðið saman aftr, og var eigi annað fyrir að sjá, enn að orustulaust mundi verða um daginn.

Um nónskeið kom til vor einn aðstoðarmaðr yfirhershöfðingjans og fœrði oss einhverja skipun hans. Vér vorum látnir vopnast aftr; dreifskyttur vorar fóru víðsvegar um völlinn; vér fórum hœgt og hœgt á eftir þeim, og eftir þriðjung stundar sáum vér, að allir forverðir Rússa beygðu við og fóru inn í virkið.

Nú tóku tvær stórskotasveitir sér stað sín hvoru megin við oss, og þó all-langt fyrir framan oss. Þær hófu all-harða skothríð á óvinina, og tóku þeir ósleitulega á móti; leið eigi á löngu áðr þorpið Shévrínó var alveg horfið fyrir reykjarmekki.

Herdeild vor var í lægð einni og því nálega í skjóli fyrir skotum Rússa. Kúlur þeirra fóru yfir höfuðin á oss eða skirptu á oss dálitu af mold og möl, þegar mest var, enda vóru fáar þeirra oss ætlaðar, því að þeir hylltust til að skjóta á fallbyssulið vort.

Jafnskjótt sem oss var skipað að gauga fram, leit sveitarforingi minn á mig og horfði svo vandlega, að mér fanst ég mega til að strjúka nokkrum sinnum á mér yfirskeggið — þó lítið væri — til þess að láta sjá, að ég væri svo sem ekki smeikr. Ég var annars ekki hræddr, og óttaðist ekki annað enn það, að menn kynni að ímynda sèr, að ég væri hræddr. Það styrkti enn fremr hetjuhug minn, að kúlurnar áðr höfðu ekki mein gert oss. Af hégómagirni ímyndaði ég mér, að ég væri í verulegri hættu, þar sem ég nú loksins var í skotfœri frá kastalavirki. Mér þótti vænt um að égvar svona öruggr, og hlakkaði til þeirrar ánœgju, að segja frá töku Shévrínóvirkisins í samkvæmi hjá frú B. í Provence-götunni.

Ofurstinn reið fram með sveit vorri, ávarpaði mig og mælti: „Það verðr ekki sitjandi sælan hjá yðr í dag, svona í fyrsta sinn“.

Ég brosti við með mesta hermannssvip og þurkaði af kápuermi minni, því að kúla, sem lent hafði góðan spöl frá mér, hafði skvett á hana dálitlu af mold.

Svo er að sjá, sem Rússar hafi orðið þess varir, að kúlum þeirra varð lítið ágengt, því að nú tóku þeir að skjóta sprengikúlum, og gátu þær heldr gert oss

mein í lægðinni þar sem við vórum. Allmikið kúlubrot tók af mér húfuna og drap mann við hliðina á mér.

„Ég samgleðst yðr“, sagði sveitarforinginn við mig, þá er ég var búinn að taka húfuna mína upp aftr, „ekki fái þér fleiri í dag“. Mér var kunnugt um þá hjátrú hermanna, að þeir telja það víst, að eigi lendi tvö skot á sama manni á einum degi í orustu, eins og eigi má kæra tvisvar um sömu sök fyrir dómi. Ég setti með rembilæti húfuna á höfuðið og mælti: „Mér þykir þeir heimta nokkuð hranalega kveðjurnar“. Þetta lélega spaugsyrði féll mönnum ágætlega í geð, eftir því sem á stóð. „Ég samgleðst yðr“, mælti sveitarforinginn aftr, „þér fáið eigi fleiri skot, og í kveld verðið þér orðinn sveitarforingi, því að ég finn á mér, að mér er þegar-staðr búinn. Í hvert skifti sem ég hefi fengið sár, hefir foringinn við hlið mér fengið meinlaust skot“. Síðan sagði hann í enn lægri róm og eins og hann fyriryrði sig: „Og svo hafa nöfn þeirra allra byrjað á P.“

Ég lét sem ég tæki eigi mark á slíku; enn mörgum mundi hafa farið eins og mér, að þeim hefði fundizt mikið um þessi spásagnarorð. Enn með því að ég var nýkominn og öllum ókunnugur, fann ég að ég gat engum trúað fyrir tilfinningum mínum, og að ég mátti eigi láta á öðru bera, enn að ég væri óskelfdr, hvað sem á gengi.

Að hálfri stundu liðinni rénaði skothríð Rússa, að miklum mun, og fórum vér þá úr skjóli voru, og héldum að virkinu.

Í herdeild vorri vóru þrír liðsflokkar; var öðrum flokknum skipað að fara kringum virkið, og koma

að þeim megin sem hliðið var; hinir tveir skyldu gera árás. Ég var í þriðja flokki.

Þá er vér konum upp á barð það, er áðr hafði hlíft oss, dundu á oss nokkrar byssuskota hríðir, enn lítt féllu menn af oss fyrir þeim. Mér varð hverft við kúluþytinn; ég leit í ýmsar áttir hvað eftir annað, og bakaði mér með því háðglósur hjá lagsmönnum mínum, sem vóru vanari þessum þyt enn ég. „Þegar öllu er á botninn hvolft, þá er það eigi svo óttalegt að vera í orustu", hugsaði ég með sjálfum mér.

Vér héldum nú fram á hlaupi, og fóru dreifskytturnar á undan. Alt í einu œptu Rússar þrisvar sinnum *húrra*, greinilega þrisvar sinnum, enn þögnuðu síðan og skutu eigi. „Mér er eigi um þessa þögn", mælti sveitarforinginn; „hún er einskis góðs viti". — Mér þótti menn vorir hafa full-hátt, og gat ekki að mér gert að jafna saman í huganum hávaðanum og ólátunum í þeim og hátíðlegri þögn óvinanna.

Vér komumst fljótt að virkinu. Kúlur vorar höfðu þar brotið varnarstaurana og umturnað moldinni. Hermennirnir þustu upp á þessar nýju rústir og œptu: „Lifi keisarinn", svo hátt, að lítil líkindi mætti þykja af þeim mönnum, er búnir vóru að œpa svo mikið áðr.

Ég leit upp fyrir mig, og mun ég aldrei gleyma sjón þeirri, er ég sá þá. Reykrinn var mestallr kominn upp í loftið, og hékk eins og ársalr svo sem 20 fet fyrir ofan virkið; gegnum bláleita gufu mátti sjá skotmennina rússnesku, þar sem þeir stóðu grafkyrrir eins og líkneski fyrir aftan hálfhruninn varnarvegginn, og höfðu byssurnar á lofti. Mér er sem

ég sjái enn þá hvern hermanninn um sig horfa á oss með vinstra auganum, enn byssan skyggði á hið hægra. Í skarði einu, fáein fet frá oss, stóð maðr með tundrstöng í hendinni rétt hjá fallbyssu.

Það fór hrollr um mig, og ég hélt dauðastund mín væri komin. „Nú hefst leikrinn“, kallaði sveitarforinginn; „góðar nætr“. Þetta vóru síðustu orðin sem ég heyrði hann segja.

Nú kvað við trumbuglamr í virkinu. Ég sá að öllum byssunum var miðað á oss; lét ég þá aftr augun, og því næst heyrði ég ógurlegar dunur og fylgdu þeim óp og andvörp. Ég lauk þá upp augunum og varð hissa, er ég sá, að ég var enn í þessum heimi. Virkið var nú aftr alþakið reykjarmekki, og alt í kringum mig lágu dauðir menn og sárir. Sveitarforinginn lá fyrir fótum mér; hafði kúla molað höfuð hans og var ég allr ataðr heila og blóði úr honum. Af allri sveit minni stóðu eigi uppi nema 6 menn auk mín.

Eftir þessa mannskæðu hríð stóðu allir forviða um stund. Ofurstinn réð fyrstr upp á varnargarðinn, setti hatt sinn á sverðsoddinn og kallaði: lifi keisarinn! Fylgdu honum þegar allir þeir sem eptir lifðu. Það er nú naumast að ég muni glögt það sem á eftir fór. Við komumst inn í virkið; enn eigi veit ég hvernig það varð; var síðan barizt í höggorustu í svo þykkri reykjarsvælu, að eigi sá handa skil. Ég held ég hafi höggvið, því að sverðið mitt var alblóðugt. Loksins heyrði ég œpt sigróp, og þá er reykrinn minkaði, sá ég að alt vígið var þakið dauðra manna búkum og flaut í blóði; einkum mátti svo að orði kveða, að fállbyssurnar væri á kafi í valköstunum. Hér um bil 200 manna, franskir allir, stóðu

að þeim megin sem hliðið var; hinir tveir skyldu gera árás. Ég var í þriðja flokki.

Þá er vér konum upp á barð það, er áðr hafði hlíft oss, dundu á oss nokkrar byssuskota hríðir, enn lítt féllu menn af oss fyrir þeim. Mér varð hverft við kúluþytinn; ég leit í ýmsar áttir hvað eftir annað, og bakaði mér með því háðglósur hjá lagsmönnum mínum, sem vóru vanari þessum þyt enn ég. „Þegar öllu er á botninn hvolft, þá er það eigi svo óttalegt að vera í orustu“, hugsaði ég með sjálfum mér.

Vér héldum nú fram á hlaupi, og fóru dreifskytturnar á undan. Alt í einu œptu Rússar þrisvar sinnum *húrra*, greinilega þrisvar sinnum, enn þögnuðu síðan og skutu eigi. „Mér er eigi um þessa þögn“, mælti sveitarforinginn; „hún er einskis góðs viti“. — Mér þótti menn vorir hafa full-hátt, og gat ekki að mér gert að jafna saman í huganum hávaðanum og ólátunum í þeim og hátíðlegri þögn óvinanna.

Vér komumst fljótt að virkinu. Kúlur vorar höfðu þar brotið varnarstaurana og umturnað moldinni. Hermennirnir þustu upp á þessar nýju rústir og œptu: „Lifi keisarinn“, svo hátt, að lítil líkindi mætti þykja af þeim mönnum, er búnir vóru að œpa svo mikið áðr.

Ég leit upp fyrir mig, og mun ég aldrei gleyma sjón þeirri, er ég sá þá. Reykrinn var mestallr kominn upp í loftið, og hékk eins og ársalr svo sem 20 fet fyrir ofan virkið; gegnum bláleita gufu mátti sjá skotmennina rússnesku, þar sem þeir stóðu grafkyrrir eins og líkneski fyrir aftan hálfhruninn varnarvegginn, og höfðu byssurnar á lofti. Mér er sem

ég sjái enn þá hvern hermanninn um sig horfa á oss með vinstra auganum, enn byssan skyggði á hið hœgra. Í skarði einu, fáein fet frá oss, stóð maðr með tundrstöng í hendinni rétt hjá fallbyssu.

Það fór hrollr um mig, og ég hélt dauðastund mín væri komin. „Nú hefst leikrinn", kallaði sveitarforinginn; „góðar nætr". Þetta vóru síðustu orðin sem ég heyrði hann segja.

Nú kvað við trumbuglamr í virkinu. Ég sá að öllum byssunum var miðað á oss; lét ég þá aftr augun, og því næst heyrði ég ógurlegar dunur og fylgdu þeim óp og andvörp. Ég lauk þá upp augunum og varð hissa, er ég sá, að ég var enn í þessum heimi. Virkið var nú aftr alþakið reykjarmekki, og alt í kringum mig lágu dauðir menn og sárir. Sveitarforinginn lá fyrir fótum mér; hafði kúla molað höfuð hans og var ég allr ataðr heila og blóði úr honum. Af allri sveit minni stóðu eigi uppi nema 6 menn auk mín.

Eftir þessa mannskæðu hríð stóðu allir forviða um stund. Ofurstinn réð fyrstr upp á varnargarðinn, setti hatt sinn á sverðsoddinn og kallaði: lifi keisarinn! Fylgdu honum þegar allir þeir sem eptir lifðu. Það er nú naumast að ég muni glögt það sem á eftir fór. Við komumst inn í virkið; enn eigi veit ég hvernig það varð; var síðan barizt í höggorustu í svo þykkri reykjarsvælu, að eigi sá handa skil. Ég held ég hafi höggvið, því að sverðið mitt var alblóðugt. Loksins heyrði ég œpt sigróp, og þá er reykrinn minkaði, sá ég að alt vígið var þakið dauðra manna búkum og flaut í blóði; einkum mátti svo að orði kveða, að fallbyssurnar væri á kafi í valköstunum. Hér um bil 200 manna, franskir allir, stóðu

uppi, en engi var skipun á þeim; vóru sumir að hlaða byssur sínar, en sumir að þurka af byssustingjunum. Ellefu rússneskir fangar vóru þar með þeim.

Ofurstinn hafði fallið aftr á bak alblóðugr á brotinn kassa, skammt frá virkis-hliðinu; stumruðu nokkrir hermenn yfir honum, og gekk ég þangað. „Hvar er elzti sveitarforinginn?“ spurði hann undirforingja einn. Undirforinginn yppti öxlum mjög skilmerkilega. "Hvar er þá elzti foringjafulltrúinn?“ „Hérna er sá sem kom í gær“, svaraði undirforinginn alvég rólega. Ofurstinn brosti og þó dapr í bragði. „Jæja þá“, sagði hann við mig, „þér eruð nú œðsti foringi hér; látið sem fljótast víggirða hliðið á virkinu með vögnum þessum, því að óvinirnir eru mannmargir; enn yfirhershöfðingi C. mun senda yðr liðstyrk“. „Eruð þér hættulega sár?“ mælti ég. — „Og andskoti, góðrinn minn, enn virkið er unnið“.

[*Sigurðr Sigurðarson* adjunkt hefir þýtt].

---

# L'Arrabiata.

Eptir

*Paul Heyse.*

---

Sólin var ekki komin upp. Ljósgrár þokumökkur huldi hlíðarnar vestan undir Vesúv allt niður að sjó og þar með Neapel og alla byggðina með fram flóanum. Á sjónum var logn og kyrrð. En í mjórri vík fyrir sunnan hamrana hjá Sorrentó var kvikt og fjörugt af fólki, þó ekki væri orðið framorðið. Það voru fiskimenn að koma að sumir, og sumir að búa sig á stað; en kvennfólk, börn og gamalmenni í kring um þá að hjálpa þeim til eða horfa á, eða þá eitthvað að sýsla annað. Sumir voru að gera við net; aðrir að taka til segl og árar, sem geymt var í stórum hamrabyrgjum með járngrindum fyrir. Þar voru kerlingar með prjóna sína og að líta eptir krökkunum, meðan mæður þeirra voru að hjálpa mönnum sínum að búa sig af stað.

„Líttu á, Rakel litla, þarna kemur hann, blessunin hann síra Viljálmur minn. Hann er nú að stíga út í skipið. Hann Antonió ætlar með hann út í Capri. Hann er með stírur í augunum enn þá, blessaður!"

Þetta sagði kerlingin ein við dótturdóttur sína, tíu

vetra gamla telpu, og benti á prestinn, sem var að hagræða sjer í bátnum, lypti upp hempunni og breiddi hana snirtilega út yfir þóptuna. Hann var lágur vexti, vel í holdum og sællegur, og vingjarnlegur útlits. Fólkið hætti við verk sitt snöggvast til að horfa á prestinn sinn fara frá landi og taka blíðlegri kveðju hans; hann þekkti þar hvert mannsbarn og var vel látinn af öllum.

„En hvers vegna ætlar hann út í Capri, amma mín?“ spurði Rakel litla. „Hefir fólkið þar þá engan prest, fyrst það þarf endilega að lána okkar?“

„Heimska er í þjer, barn,“ mælti kerling. „Náttúrlega hefir það bæði presta og kirkjur, og svo er þar að auki á einum stað í eynni guðhræddur einsetumaður, sem við höfum engan. En þar heldur líka til ein rík frú, ósköp góð og væn, sem var hjerna í Sorrentó í fyrra og lá veik ósköp lengi og var nærri því dauð; hún hjelt opt hún mundi ekki lifa nóttina af og ljet þá allt af sækja prestinn til sín. En blessuð guðsmóðirin hjálpaði henni, svo nú er hún orðin frísk og hraust og getur laugað sig í sjónum á hverjum degi. Þegar hún fór hjeðan út í Capri, gaf hún ósköp marga dúkata til kirkjunnar hjerna og til fátækra hjerna í þorpinu, og vildi ekki fara, segir fólk, fyr en presturinn lofaði að heimsækja hana við og við eptir að hún væri komin út í eyna, til þess að hún gæti skriptazt fyrir honum. Henni þykir svo ósköp vænt um hann. Og okkur má held jeg nú þykja nokkuð mikið vænt um, að við höfum annan eins prest, sem veit eins mikið eins og erkibiskup og sem fínustu frúr og höfðingjar leita til. Madonna veri með honum!“ — Og svo veifaði kerlingin á eptir bátnum, sem var að fara frá landi.

„Ætli' hann birti ekki upp, sonur?" mælti prestur og leit yfir að Neapel, eins og honum líkaði ekki útlitið.

„Sólin er ekki komin upp enn þá," svaraði Antonío; „en henni verður varla mikið fyrir að eyða þokunni þeirri arna."

„Þá er bezt að við hröðum okkur yfir um, áður en hitinn verður of mikill."

Antonío þreif til árinnar og fór að stjaka undan landi, en hætti allt í einu og leit upp á brekkuna fyrir ofan voginn, þar sem vegurinn liggur niður að sjónum frá Sorrentó. Hann hafði komið þar auga á kvennmann, sem var að flýta sér niður eptir og veifaði með klút. Hún hafði böggul undir hendinni og var heldur fátæklega búin, en laglega vaxin, há og grönn, og kvik á fæti, og nokkuð snörp í bragði og hnakkakert, og þó fyrirmannleg á svip. Hún hafði mikið hár, hrafnsvart, bundið upp í kerfi yfir ennið, eins og hún bæri djásn á höfði.

„Eptir hverju erum við að bíða?" mælti prestur.

„Það kemur þarna einhver", svaraði Antonío, „sem vill líklega fá að vera með út í Capri, ef þjer leyfið það, æruverði faðir. Það munar ekki mikið um hana í bátnum; það er unglingur á átjánda árinu".

Prestur leit upp og sá, hvar stúlkan kom. „Laurella!" mælti hann. „Hvaða erindi á hún út í Capri?" Antonío ypti öxlum. Stúlkan flýtti sjer ofan að bátnum. „Góðan daginn, L'Arrabíata!" kölluðu einhverjir til hennar úr hóp hinna ungu fiskimanna. Þeir hefðu líklega sagt eitthvað meira, ef presturinn hefði ekki heyrt til; því það var auðsjeð, að þeim var storkun í, að stúlkan gerði ekki nema setti á sig reigingssvip við kveðju þeirra og svaraði engu orði.

„Góðan daginn, Laurella!“ kallar nú prestur. „Hvað er þjer á höndum? Ætlar þú með út í Capri líka?“

„Já, ef jeg má, æruverði faðir“.

„Spurðu Antoníó um það; hann á bátinn. Hver er bær aðráða sínu, og Drottinn ræður yfir oss öllum“.

„Hjerna er eitt mark; fæ jeg far fyrir það?“ Hún rjetti peninginn að Antoníó, en leit ekki á hann.

„Þú hefir meira með hann að gera sjálf“, tautaði Antoníó í hálfum hljóðum og hliðraði til í bátnum. Hann hafði meðferðis nokkrar körfur með aldinum í, er hann ætlaði að selja út í Capri, því að þar fer svo mikið af þeim handa ferðamönnum, meira en eyjan gefur af sjer sjálf, með því að hún er svo klettótt og gróðui lítil til þess að gera.

„Jeg vil ekki fara fyrir ekki neitt“.

„Komdu bara, barnið mitt“ segir prestur. Antoníó er vænn piltur. Hann vill ekki græða á því sem þú hefir unnið þjer inn með súrum sveita. Hana nú, komdu nú út í“ — hann rjetti henni hendina — „og seztu hjerna hjá mjer. Líttu' á, þarna hefir hann breitt peysuna sína, til þess þú hafir mjúkan sessinn. Hann hefir ekki verið svona hugull við mig. En svona er það ætíð með unga fólkið. Það er hlynnt betur að einni telpu en tíu æruverðum klerkum. Nú, þú þarft ekkert að vera að afsaka þig, Antoníó minn; það er Drottinn, sem hefir hagað svo til, að hvað elskar sjer líkt“.

Laurella var nú komin út í bátinn og sezt niður; hafði þó ýtt burtu peysunni áður, en sagði ekki neitt. Antoníó skipti sjer ekki af því, nema tautaði eitthvað í hálfum hljóðum. Hann ýtti undan og bar bátinn brátt út á voginn. Þegar komið var góðan

spöl undan landi, rann sólin upp og var veður hið fegursta.

„Hvað ertu með í pynklinum þínum, barnið mitt?“ mælti prestur.

„Silki, þráð og brauð, faðir. Jeg á að selja silkið konu í Capri, sem býr til bönd, og þráðinn annari“.

„Hefirðu spunnið þráðinn sjálf?“

„Já, faðir“.

„Þú hefir líka lært að búa til bönd, ef mig minnir rjett“.

„Já, herra; en mamma er nú orðinn svo slæm aptur, að jeg má ekkert vera að heiman, en við höfum ekki efni á að eignast vefstað sjálfar“.

„Er hún nú orðin lakari aptur, vesalingur! Þegar jeg kom til ykkar um páskana í vor, var hún þó á fótum“.

„Hún er ætíð lökust á vorin. Hún hefir orðið að liggja í rúminu allt af síðan mikla veðrið var og landskjálptarnir“.

„Þú mátt aldrei láta af að biðja hina heilögu mey að hjálpa henni. Og vertu góð og iðin, barnið mitt, svo þú verðir bænheyrð“.

Prestur vekur aptur máls eptir litla stund og segir: „Þegar þú komst áðan niður að sjónum, kölluðu þeir til þín: góðan daginn, L'Arrabíata! Af hverju kölluðu þeir þig það? Það er ekki neitt fallegt nafn fyrir kristna stúlku, sem á að vera bljúg og hógvær“.

Stúlkan blóðroðnaði út undir eyru og brann úr augunum. „Þeir draga spje að mjer, af því að jeg dansa aldrei og læt ekki munninn vaða, eins og hinar. Þeir ættu að láta mig vera í friði; jeg geri þeim ekki neitt“.

„En þú gætir vanið þig á að vera dálítið þýðari í viðmóti. Lofum þeim að dansa og syngja, sem lífið

leikur meira við. En að ávarpa vingjarnlega þann sem verður á vegi fyrir manni, það samir líka þeim mótlættu«.

Hún leit niður fyrir sig og hnyklaði brýrnar, eins og hún vildi dylja óblítt augnaráð. Þau hjeldu nú áfram um hríð og mælti enginn orð. Sólin skreytti fagurlega alla fjallatinda, Vesúvíus mændi skallanum upp úr skýjabólstrinum, og niðri á láglendinu skein í hvít húsin hjer og hvar milli grænna aldintrjáa.

Prestur tekur til orða aptur eptir nokkra stund. »Hefir«, mælti hann, »málarinn, þessi sem þú kannast við, Laurella, ekki gert vart við sig síðan, þessi frá Neapel, sem vildi fá þig fyrir konu?»

Hún hristi höfuðið.

»Hann kom í þetta sinn, sem við vitum, til þess að búa til mynd af þjer. Hvers vega vildirðu ekki lofa honum það?«

»Af hverju reið honum á að mála mig? Það eru aðrar stúlkur miklu fallegri en jeg. Og hver veit líka hvað hann kynni að hafa gert með því? Hann hefði getað heillað mig meðan hann var að mála mig, svo að jeg hefði skaðazt á sálinni; mamma sagði, að hann hefði meira að segja kannske getað gert út af við mig«.

»Hvað kemur til, að þú hugsar svona syndsamlega?« svaraði prestur með alvörurróm. »Ertu ekki sífellt í Guðs hendi, án hvers vilja ekkert þitt höfuðhár fellur til jarðar? Og heldurðu, að maður, sem býr til svona mynd, sje fyrir það máttugri en Drottinn? Þú máttir þar að auki sjá, að hann vildi þjer vel Helldurðu hann hefði annars viljað eiga þig?«—Hún þegir.—»Og hvers vegna vildurðu ekki taka honum?

Það kvað hafa verið vænn maður og mikið ásjálegur, og hann hefði getað alið önn fyrir henni móður þinni betur heldur en þjer er hægt með þessu litla sem þú getur unnið þjer inn«.

»Við erum fátæklingar«, svarar hún, nokkuð snögg í bragði, »og hún mamma hefir legið veik svo lengi. Við hefðum ekki orðið honum annað en eintómur byrðarauki. Það er ekki fyrir mig, bændastúlkuna, að verða fyrirmanns-kona. Hann hefði kannske skammazt sín fyrir mig, þegar kunningjar hans hefðu komið að heimsækja hann«.—»En að heyra til þín, barn! Jeg sem sagði þjer, að þetta væri vænsti maður. Og svo ætlaði hann þar á ofan að flytja sig búferlum og setjast að í Sorrentó. Það getur orðið bið á því, að þjer bjóðist hans maki; hann var einmitt eins og af himnum sendur að hjálpa ykkur«.—»Jeg vil hreint ekki giptast,—aldrei«, sagði hún með þrjózkusvip og leit niður fyrir sig.—»Hefirðu strengt þess heit, eða ætlarðu að setjast í helgan stein?«—Hún hristi höfuðið.—»Það er satt, sem fólk segir, að þú ert sjerlunduð, þó jeg kunni nú samt ekki við, að þeir skuli kalla þig þetta sem jeg heyri þeir kalla þig. Gleymirðu þá því, að þú ert einmana í heiminum, og að þú eykur einmitt á mótlæti móður þinnar með þrjózkunni í þjer? Hvaða mikilvægar ástæður hefirðu til þess að veita hverjum vænum og nýtum manni afsvör, sem vill vera þjer stoð, þjer og henni móður þinni? Svaraðu mjer, Laurella!«—»Jeg hefi nóg fyrir mjer« mælti hún; »en jeg vil ekki segja það«. — »Ekki segja það? Ekki mjer heldur? honum skriptaföður þínum, sem þú líklega heldur annars að vilji þjer vel? Eða heldurðu ekki það?«—Hún bar ekki á móti því.—»Segðu

mjer þá, hvað þú ber fyrir brjósti, barnið mitt. Hafirðu í sannleika rjett fyrir þjer, þá skal jeg verða fyrstur manna til að kannast við það. En þú ert ung, og þekkir ekki mikið til heimsins, og það gæti farið svo, að þig iðraði þess síðar meir, að þú hefðir haft af þjer gæfu þína af barnaskap«.

Hún renndi auga snöggvast þangað sem hinn ungi sjómaður sat, sveittur við árina og með húfuna niðri í augum. Hann horfði út á sjóinn, eins og hann væri um annað að hugsa. Prestur tók eptir augnaráði stúlkunnar og laut nær henni. »Þjer hafið ekki þekkt hann föður minn«, mælti hún þungbúin.

»Hann föður þinn? Hann sem dó minnir mig þegar þú varst naumast 10 ára gömul. Hvað kemur það honum við, þverúðin í þjer? jeg vona, að sál hans sje í paradís.«

»Þjer hafið ekki þekkt hann, æruverði faðir. Þjer vitið ekki, að það er honum að kenna, öll veikindin hennar mömmu«.

»Hvernig stendur á því?«

»Af því að hann misþyrmdi henni, barði hana og sparkaði. Mjer er enn í fersku minni, þegar hann kom heim á nóttunni og var trylltur. Hún talaði aldrei aukatekið orð til hans, heldur gjörði allt sem hann vildi. En hann barði hana svo, að jeg ætlaði að springa af ekka, þegar jeg sá það. Jeg breiddi upp fyrir höfuð og ljezt sofa, en linnti ekki á gráti alla nóttina. Og þegar hann svo sá hana liggja á gólfinu, varð hann allt í einu eins og annar maður, tók hana í fang sjer og kyssti hana með þeim ósköpum, að hún hljóðaði og hjelt að hann ætlaði að gera út af við sig. Hún hefir bannað mjer að láta nokkurn mann heyra þetta; en það tók svo á hana, að

hún hefir aldrei á heilli sjer tekið síðan. Og deyi hún fyrir tímann, sem guð varðveiti okkur frá, þá veit jeg vel, hverjum það er að kenna«.—Prestur vissi ekki almennilega, hvað hann átti að segja um þetta, hvort hann ætti að samsinna skriptabarni sínu eða eigi. Loks mælti hann: »Fyrirgefðu honum, eins og móðir þín hefir fyrirgefið honum. Vertu ekki að rifja upp fyrir þjer harma þína, Laurella. Jeg trúi ekki öðru en að þú eigir betri daga fyrir höndum, svo að þú gleymir þessu öllu saman«.

»Nei, jeg gleymi því aldrei«, mælti hún og hrökk saman. Og þess vegna ætla jeg mjer að vera jómfrú alla æfi, æruverði faðir, og engum manni undirgefin, sem fyrst misþyrmir mjer og síðan kjassar mig. Þegar nú einhver ætlar annaðhvort að berja mig eða kyssa mig, þá kann jeg að verjast. En mamma gat það ekki; hún gat hvorki hrundið af sjer höggunum nje kossunum, af því að henni þótti vænt um hann. »Og jeg ætla mjer ekki að láta mjer nokkurn tíma þykja svo vænt um nokkurn mann, að jeg vinni það fyrir, að verða veik og aumingi«.

»Hana nú, nú læturðu eins og óviti aptur og talar eins og manneskja, sem ekki þekkir hót til heimsins. Helduröu þá að allir karlmenn sjeu eins og hann faðir þinn, vesalingurinn, og láti hverja geðshræring og dutlunga við sig ráða og fari illa með konur sínar? Hefurðu ekki sjeð vandaða menn í þínu nágrenni og hefirðu ekki sjeð margar konur, sem lifðu í friði og einingu við menn sína?«

»Það vissi heldur enginn, hvernig hann var við hana mömmu, hann faðir minn heitinn. Hún vildi þúsund sinnum heldur deyja, heldur en að kvarta eða segja nokkrum manni frá því. Og það var allt saman af því,

að henni þótti svo vænt um hann. Ef manni er svoleiðis háttað, þegar manni þykir vænt um einhvern, að það tekur fyrir munninn á manni, þegar maður ætti að kalla á hjálp, og gjörir mann ráðalausan gegn því, sem er verra en það sem versti óvinur manns getur gert manni, þá vil jeg aldrei leggja ást við nokkurn mann«.

»Jeg segi þjer satt, að þú ert barn og veizt ekki hvað þú fer með. Og annars spyr hjartað þig hreint ekki um, hvort þú vilt eða vilt ekki, þegar þinn tími kemur; þá dugar þjer ekki hót þetta sem þú hefir nú tekið í þig«. Eptir litla þögn bætti hann við: »Og leizt þjer annars svo á málarann frá Neapel, að hann mundi verða slæmur við þig?«

»Hann setti upp sömu augun og hann faðir minn heitinn, þegar hann var að biðja mömmu fyrirgefningar og vildi taka hana í fang sjer og friðmælast við hana. Þau augu kannaðist jeg við undir eins. Jeg minntist þess, að svoleiðis augu getur líka sá haft, sem ber konu sína, þá konu, sem aldrei hefir gert honum neitt til miska,—og það fór hrollur um mig, þegar jeg sá þessi augu aptur«.—Að svo mæltu þagnaði hún og sat lengi hljóð. Prestur þagði líka. Hann mundi reyndar ýmsa fallega ritningarstaði, sem hann hefði getað brýnt fyrir hinni ungu stúlku; en honum varð litið til sjómannsins fram í og sá, að hann fór að verða órór, þegar á leið skriptajátningu stúlkunnar, og því hugsaði hann með sjer, að það væri líklega rjettara að sleppa því.

Að tveimur stundum liðnum voru þau komin út í eyna. Antonío óð með prestinn í land á bakinu upp voginn og setti hann niður á klöppina með hægð og lotningu. En Laurella hafði ekki viljað bíða þess, að hann kæmi aptur eptir sjer. Hún bretti

upp pilsið og óð í land og flýtti sjer, með skóna af fótunum á sjer í annari hendinni, en böggulinn í hinni. »Jeg stend líklega nokkuð lengi við hjerna í dag á eynni«, mælti prestur, »og þú þarft ekki að bíða eptir mjer. Það getur meira að segja verið að jeg komi ekki heim aptur fyr en á morgun. Og þú, Laurella, berðu henni móður þinni kveðju mína, þegar þú kemur heim. Jeg skal koma og finna ykkur einhvern tíma í vikunni. Þú fer þó líklega heim aptur fyrir kvöldið?«—»Já, svo framarlega sem jeg fæ far«.—»Þú veizt að jeg ætla líka heim aptur«, mælti Antoníó, og ljet eins og hann væri annað að hugsa. »Jeg skal bíða þín til nóns. Verðirðu ekki komin þá, fer jeg af stað«.—»Þú verður að fara með honum«, tók prestur fram í. »Þú mátt ekki láta hana móður þína vera eina heima nokkra nótt. Er langt þangað sem þú ætlar?«—»Jeg ætla inn í Anacapri«.—»Og jeg ætla til Capri (bæjarins). Jæja þá, Guð veri með þjer, barnið mitt, og með þjer líka, sonur minn!« Laurella kyssti prestinn á höndina og sagði: »Guðs friði!« sem hún mun hafa ætlazt til að þeir Antoníó ættu báðir. En Antoníó tók það svo sem það væri ekki til sín talað. Hann tók ofan fyrir prestinum, en leit ekki þangað sem Laurella stóð.

En þegar þau voru búin að snúa sjer við og komin af stað, horfði hann litla stund á eptir presti, sem staulaðist með erfiðismunum upp grjótið upp á eyna, og litaðist síðan um eptir stúlkunni, er hljóp upp brekkuna hægra megin og skyggði höndinni fyrir sólina birtunnar vegna. Rjett áður en hún hvarf fyrir veggjarkampinn uppi á barðinu, staldraði hún við allra snöggvast, eins og hún væri að kasta mæðinni,

og litaðist um. Skipin lágu þar niður undan; brattir klettar gnæfðu hringinn í kring. Sjórinn var spegilfagur og heiðblár. Það var sjón, sem vel var gerandi að standa dálítið við til að horfa á. Nú atvikaðist svo, að um leið og hún renndi augunum fram hjá bát Antoníós, þá horfðust þau í augu allra snöggvast. Þeim brá báðum í svip, líkt eins og þegar manni verður eitthvað á í ógáti. Síðan hjelt stúlkan leiðar sinnar, og eins og með hálfgerðum þykkjusvip.

---

Það var stundu fyrir nón, og þó var Antonió búinn að sitja tvær stundir á bekknum niður við sjóinn. Hann var eitthvað öðru vísi en hann átti að sjer, því hann var allt af að spretta á fætur og skyggnast upp eptir veginum. Hann sagði konunni í veitingaskemmunni, að sjer litist ekki almennilega á veðrið. Hann væri reyndar bjartur í lopti, en hann kvaðst kannast við þennan lit á sjónum og loptinu; einmitt svona hefði hann verið rjett á undan ofviðrinu síðast, þegar hann hefði verið rjett búinn að drepa sig með enska fólkið á leiðinni upp úr eynni. Hún myndi víst eptir því, ef hún hugsaði sig um. »Nei«, svaraði konan. — Jæja, hún skyldi þá minnast orða sinna, sagði hann, ef veðrið breyttist fyrir kvöldið, eins og sjer segði hugur um.—»Er margt aðkomufólk þarna á landi hjá ykkur?« mælti konan eptir litla stund. — »Það er um það leyti að koma núna fyrst. Það hefir ekki verið björgulegt til þessa. Þeir sem koma til að lauga sig, ætla ekki að hraða sjer, að út lítur fyrir«.—»Vorið kemur bráðum. Hafið þið haft meira upp úr því heldur en við hjerna á Capri?«—»Jeg hefði ekki einu sinni getað smakkað makrónur

tvisvar í viku, ef jeg hèfði ekki haft bátinn. Að skjótast með brjef endrum og sinnum inn í Neapel eða róa með útlending út á sjó til að fiska — það var allt og sumt. En þjer vitið, að hann móðurbróðir minn á aldingarðana stóru og er efnamaður. Meðan jeg lifi, Tonni minn, segir hann, læt jeg þig ekki svelta, og það skal líka verða hugsað fyrir þjer, þó jeg falli frá. Þannig hef jeg komizt af veturinn, með guðs hjálp«.—»Á hann nokkur börn, hann móðurbróðir yðar?«—»Nei. Hann hefir aldrei kvænzt. En hann hefir verið lengi í útlöndum og fjenazt þar margur skildingurinn. Nú ætlar hann að byrja á stórkostlegum fiskiútveg, og setja mig fyrir allt saman«.—»Þá eruð þjer stöndugur maður, Antonío«.—Hann yppti öxlum. »Hver hefir sinn djöful að draga«, sagði hann, spratt upp í sama vetfangi og leit til veðurs til hægri og vinstri, þótt hann hlyti að vita, að vindáttin gat ekki verið nema ein.

»Jeg ætla að koma með eina flösku enn handa yður; móðurbróðir yðar getur borgað«, mælti konan.—»Nei, ekki nema eitt glas til; það er ekki svo dauft, vínið yðar. Mjer er farið að verða þungt í höfði af því«. —»Og ekki skil jeg nú í því, að það rjúki upp í höfuðið, að tarna. Yður er óhætt að drekka af því eins og yður langar í. Þarna kemur líka maðurinn minn, og þjer megið til að hinkra við og skrafa við hann dálítið«.

Það var húsbóndinn, sem kom ofan barðið, laglegur maður og vasklegur, með netið um herðarnar og rauða húfu á höfði. Hann hafði farið með fisk inn í bæ handa frúnni, sem presturinn var að vitja; hún hafði pantað hann þegar hún átti von á prest-

inum. Hann kvaddi gestinn vingjarnlega, settist á bekkinn hjá honum og tók að skrafa við hann út í alla heima og geima undir eins. Í því bili sem kona hans kom með aðra flöskuna af ófölsuðu Capri-víni, heyrðist fótatak í sandinum. Þar var Laurella komin aptur frá Anacapri. Hún kastaði lauslegri kveðju á þá sem fyrir voru og nam staðar, eins og hún væri á báðum áttum.

Antonío spratt upp. »Jeg verð að fara«, mælti hann. »Það er stúlka frá Sorrentó, sem varð prestinum samferða hingað í morgun, og verður að vera komin heim aptur fyrir kvöldið, af því að móðir hennar er veik«.—»Jæja, það er langt til kvölds enn«, sagði húsbóndinn; »hún hefir nógan tíma til að drekka eitt glas af víni. Heyrirðu, kona; komdu með eitt glas enn!«—»Jeg þakka; ekki handa mjer«, mælti Laurella og stóð kyr álengdar.—»Helltu bara í glasið, kona, láttu bara í glasið; það er ekki, annað en að hún vill láta ganga eptir sjer«.

»Látið hana ráða«, sagði Antonío; »hún vill fara sínu fram. Það sem hún einu sinni vill ekki, það getur enginn fengið hana til«. — Þar með kvaddi hann í snatri, hljóp niður að bátnum, losaði festina, og stóð svo og beið eptir Laurellu. Hún kvaddi húsbóndann lauslega, og gekk svo hikandi niður að bátnum. Fyrst litaðist hún um í ýmsar áttir, eins og hún byggist við að fleiri mundu verða með til lands. En þar var engan að sjá í nánd. Fiskimennirnir sváfu sumir, sumir voru úti á sjó með net sín, nokkrar konur og börn sátu úti og voru að spinna eða sváfu, og aðkomufólkið, sem komið hafði um morguninn, beið þangað til meira liði á daginn og loptið yrði svalara. Hún hafði og eigi langan tíma til að

litast um, því áður en hún gæti varazt það, var Antonío búinn að þrífa hana í fang sjer og hljóp með hana út í bátinn eins og barn. Síðan stökk hann sjálfur upp í, og eptir fáein áratog voru þau komin út á rúmsjó. Hún hafði setzt fram í og sneri að honum bakinu hálfvegis, svo að hann sá að eins utan á vangann á henni, þegar hann leit um öxl sér. Hún var alvarlegri á svip heldur en hún átti að sjer. Hún ljet hárið lafa niður yfir ennið, var með einþykknisdrætti fram með nefinu og kreisti fast saman varirnar, þykkar og rjóðar. Þegar þau voru komin nokkuð á leið, og hvorugt þeirra hafði mælt orð frá vörum, fór henni að þykja heldur heitt af sólinni. Hún vafði klútnum utan af brauðinu, nestinu sínu, og fleygði honum ofan yfir fljetturnar. Svo fór hún að borða nestið; það var miðdagsverður hennar; hún hafði ekki bragðað vott nje þurrt úti í eynni. Antonío brá sjer til og tók tvö aldini úr einni körfunni, sem hann hafði haft þau í um morguninn út í eyna, og mælti: »Hjerna er nokkuð handa þjer með með brauðinu, Laurella. Þú skalt ekki halda að jeg hafi haldið þeim eptir handa þjer. Þau höfðu oltið niður í bátinn; jeg fann þau þegar jeg kom aptur með körfurnar tómar«. — »Borðaðu þau bara sjálfur; jeg fæ nóg af brauðinu mínu«. — »Þau eru svo svalandi í hitanum, og þú hefir gengið langt«. — »Jeg fjekk vatnssopa að drekka þar sem jeg kom, og það hressti mig«. — »Ráð þú þá«, mælti Antonío og sleppti aldinunum niður í körfuna aptur. — Aptur þögn góða stund. Sjórinn var spegilgljár og bærðist lítið eitt með fram kilinum. Sjófuglarnir, sem áttu sjer hreiður uppi á ströndinni, flugu hljóðir eptir bráð. »Þú gætir fært henni móður þinni

aldinin þau arna«, tók Antonío til orða aptur. — »Við eigum aldini heima, og þegar þau eru búin, kaupi jeg önnur«.—»Færðu henni þau samt og berðu henni kveðju mína«.—»Hún þekkir þig ekkert«. — »Þá getur þú sagt henni, hver jeg er«. — »Jeg þekki þig ekki heldur«.—Það var ekki í fyrsta sinni, að hún þóttist ekki þekkja hann. Ári áður, einmitt þegar málarinn kom þar til Sorrentó, vildi svo til einu sinni, að Antonío og nokkrir fleiri piltar voru að knattleik á vellinum við aðal-þjóðveginn. Þar mætti málarinn Laurellu í fyrsta sinn með vatnskrukku á höfðinu. Hún gekk fram hjá honum og veitti honum enga eptirtekt. Maðurinn nam staðar eins og þrumulostinn af þessari sjón, og horfði á hana, þótt hann væri á miðri knattbrautinni og hefði ekki þurft nema að ganga eitt eða tvö spor til þess að komast úr skotmáli. Í því bili kom knöttur með fleygiferð og skall í fótinn á honum, og minnti hann á, að hjer væri ekki staður nje stund til að falla í leiðslu. Hann litaðist um, eins og hann byggist við afsökun frá þeim, sem kastað hefði. En pilturinn, sem knöttinn átti, stóð þegjandi og ygldur á brá í hóp lagsmanna sinna, og leizt hinum ókunna manni ráðlegast að sneiða hjá orðakasti út af þessu. Samt sem áður varð tilrætt um þetta atvik, og þegar málarinn síðan kom og bað Laurellu, svo allir vissu, þá barst það aptur á góma. »Jeg þekki hann ekki«, hafði Laurella sagt, þegar málarinn spurði hana, hvort það væri vegna þessa pilts, sem hefði verið svo ókurteis, að hún vildi ekki taka sjer. Henni hafði samt borizt líka til eyrna, hvað talað var, og mun hún raunar hafa kannazt við Antonío eptir það, þegar hann bar fyrir hana. Nú sátu þau í bátnum og gutu hornauga hvort til annars, eins og þau

væru megnustu óvinir. Antonío, sem annars var góðlegur á svip, var nú sótrauður í framan; hann lamdi árunum í sjóinn svo hart, að það slettist inn á hann sjálfan, og varirnar titruðu við og við, eins og hann væri að tauta eitthvað í bræði. Hún ljet sem hún veitti því enga eptirtekt, setti upp mesta sakleysis-svip, laut út yfir borðstokkinn, og hjelt hendinni niðri í sjónum. Svo tók hún aptur af sér klútinn og fór að laga á sér hárið, eins og hún væri alein í bátnum. En allt af voru hnyklar í brúnunum og allt af var hún að strjúka votum höndunum um kinnar sér til að kæla þær.

Þau voru nú komin miðja vegu milli lands og eyjar, og var hvergi skip að sjá á þeirri leið. Það var undir sól að sjá út til eyjarinnar og gljáði á sandinn; allt var í kyrrð og þögn; ekki svo mikið að heyrði þyt af fugls flugi nærri þeim. Antonío litaðist um; það var eins og honum dytti allt í einu eitthvað í hug. Roðinn hvarf úr kinnum hans snögglega, og hann hvíldi sig á árunum snöggvast. Honum varð ósjálfrátt litið til Laurellu; var hann áhyggjulegur í bragði, en þó óttalaus.

»Jeg verð að fá einhvern enda á þetta«, mælti hann heldur stygglega. »Það er búið að standa nógu lengi. Jeg skil ekki í mjer annars, að jeg skuli hafa borið það af svona lengi. Þú þekkir mig ekki, segir þú. Hefirðu þá ekki verið nógu lengi sjónarvottur að því, að jeg hefi verið eins og vitstola maður, þegar þig hefir borið fyrir mig? Mjer hefir búið svo mikið niðri fyrir, að jeg hefi engu orði upp komið af því, sem jeg ætlaði að segja þjer. En þú, þú gerðir ekki nema geiplaðir þig og snjerir þjer undan«.— »Jeg átti ekkert vantalað við þig«, svaraði hún

þurlega. »Jeg þóttist raunar sjá, að þú vildir mjer eitthvað; en jeg vildi ekki fyrir nokkurn mun láta fara að orða mig við pilt. Og að eiga þig, það vil jeg ekki, hvorki þig nje nokkurn mann annan«. — »Þú verður ekki alla tíð þannig skapi farin. Engan mann! Er það af því, að þú vildir ekki taka málaranum? Hvað er það að marka; þú varst barn þá. Sá tími kemur, að þjer finnst þú einmana og yfirgefin og þá tekurðu þeim sem fyrst býðst«. — »Enginn veit fyrir ókomna æfi. Það getur vel verið, að jeg breytist; en hvað kemur það þjer við?« — »Hvað kemur það mjer við?« kallaði hann upp og spratt upp af þóptunni svo hart, að báturinn hristist allur. »Hvað það kemur mjer við! Og það spyr þú mig um nú, þegar þú veizt, hvernig ástatt er fyrir mjer? Það er enginn maður í víðri veröld, sem ann þjer og vill þjer eins vel og jeg«. — »Hefi jeg nokkurntíma heitizt þjer? Get jeg að því gert, þó þú sjert ekki með sjálfum þjer? Hvaða rjett hefir þú yfir mjer?« — »Það stendur hvergi skrifað, það er satt; það er enginn prókúrator, sem hefir skrásett það á latínu og sett innsigli undir; en það veit jeg, að jeg hefi sama rjett til að eignast þig eins og að komast í himnaríki, hafi jeg lifað eins og kristinn maður. Heldurðu kannske að jeg muni horfa með rósemi á að þú gangir í eina sæng með öðrum manni, og að aðrar stúlkur síðan yppti öxlum við mjer þegar þær ganga hjá? Á jeg að láta slíka vanvirðu yfir mig ganga?« — »Gjörðu það sem þjer sýnist. Jeg læt ekki hræða mig, hvað mikið sem þú ógnar mjer. Jeg vil líka hafa heimild til að gera það sem mjer lízt«. Hún hrökk við og renndi til hans heiptaraugum. »Dreptu mig, ef þú hefir þrek til«, mælti hún seint og hægt. — »Það

verður að vera annaðhvort hrátt eða soðið«, mælti hann og hafði nokkuð lægra. »Það er nóg rúm fyrir okkur bæði á mararbotni. Jeg get ekki að því gjört«—þetta sagði hann í meðaumkunarrómi og eins og í leiðslu;—»við megum til að fara þangað bæði, og í einu, og það núna!« Þessi síðustu orð sagði hann eins og í bræði og hvessti röddina, og þreif allt í einu utan um hana. En í sömu svipan kippti hann að sjer hægri hendinni. Hún hafði bitið hann, svo að blóðið vall út úr.

»Svo jeg á að gjöra eins og þjer þóknast«! hrópaði hún upp og hratt honum frá sjer snarplega. »Við skulum vita, hvort jeg er á þínu valdi!«—Hún henti sjer jafnskjótt útbyrðis og sökk. Henni skaut skjótt upp aptur. Fötin lögðust fast að líkamanum. Sjórinn hafði losað um hárið og liðuðust lokkarnir niður um hálsinn. Hún þagði eins og steinn, greip til sunds og var að vörmu spori komin spölkorn frá bátnum og stefndi til lands. Antonío hafði orðið svo mikið um, að hann stóð agndofa í bátnum og naumast með fullu ráði. Hann laut út yfir borðstokkinn og einblíndi á eptir henni, eins og hann sæi eitthvað yfirnáttúrlegt. Síðan rankaði hann allt í einu við sjer, þreif til áranna, og rjeri á eptir henni af öllu því afli, sem hann hafði til. Blóðið fossaði úr hendinni, svo að austurrúmið varð allt rautt. Hann var á svipstundu kominn jafnhliða stúlkunni á sundinu, þótt henni skilaði furðu vel áfram. »Í nafni hinnar heilögu meyjar«, hrópaði hann, »komdu upp í bátinn. Jeg var viti mínu fjær; jeg skil ekkert í því sjálfur, hvað það var, sem vjelaði úr mjer vitið. Það þaut í höfuðið á mjer eins og elding, svo jeg vissi ekki hvað jeg gjörði eða sagði. Þú skalt

ekki fyrirgefa mjer, Laurella, heldur bara forða lífi þínu og koma upp í bátinn aptur«. Hún hjelt áfram á sundinu, eins og hún hefði ekkert heyrt. — »Það er hálf vika sjávar til lands; svo langt geturðu ekki synt. Hugsaðu um hana móður þína. Jeg mundi deyja af skelfingu, ef þjer vildi slys til«. Hún horfði til lands snöggvast, eins og hún væri að ætlast á, hvað langt það væri. Hún svaraði engu, en synti þegjandi að bátnum aptur og tók í borðstokkinn. Hann stóð upp til að hjálpa henni; treyjan af honum, sem lá á þóptunni, datt í sjóinn þegar bátnum hallaði af þunga stúlkunnar á annað borðið. Hún henti sjer fimlega upp í bátinn og settist á sama stað og áður. Þegar hann sá, að henni var borgið, tók hann til áranna aptur. Hún vatt sjóinn úr pilsinu sínu og hárinu. Þá varð henni litið niður í bátinn og sá blóðrennslið. Hún leit undir eins á hendina, sem hjelt um árina eins og ekkert væri að. »Hjerna«, sagði hún og fjekk honum klútinn. Hann hristi höfuðið og hjelt áfram að róa. Loks stóð hún upp, gekk að honum og batt klútnum um sárið, sem var býsna-mikið. Síðan tók hún aðra árina frá honum, þó hann ætlaði ekki að sleppa henni, og settist undir hana. Hún leit ekki á hann, heldur hafði augun á árinni, sem var roðin í blóði, og sótti knálega róðurinn. Þau voru föl í andliti bæði og mæltu ekki orð frá vörum. Þegar þau komu nær landi, mættu þau fiskimönnum, sem voru á leiðinni fram með net sín að leggja þau undir nóttina. Þeir sendu þeim kveðju og voru með dylgjur við Laurellu. Hvorugt leit upp eða anzaði. Það var langt til sólarlags þegar þau lentu. Laurella hristi fötin sín, sem höfðu þornað á leiðinni, og stökk upp

úr bátnum. Kerlingin með snælduna, sem var við þegar þau lögðu frá landi um morguninn, stóð þar niður frá enn. »Hvað er það sem þú hefir um hendina?« kallaði hún til Antoníós. »Heilaga guðs móðir! báturinn er allur löðrandi í blóði«. — »Það er ekki neitt«, svaraði Antoníó. «Jeg reif mig á nagla, sem stóð út úr. Það verður orðið jafngott á morgun. Það er blóðrennslið sem gerir, að þess konar sýnist ætíð miklu voðalegra en það er«.—»Bíddu dálítið við, þá skal jeg koma og leggja við það græðijurtir«. — «Vertu ekkert að ómaka þig. Jeg er búinn að gera við það eins og þarf, og á morgun er þetta farið. Jeg hefi holla vessa, svo það grær fljótt á mjer«. — »Guðs friði«, sagði Laurella, og gekk leiðar sinnar upp stiginn.—»Góðar nætur«, kallaði hann á eptir henni, en leit ekki við. Síðan tók hann áhöldin úr bátnum og körfurnar og gekk upp að kofa sínum.

---

Enginn var í kotinu, nema hann. Hann gekk um gólf fram og aptur. Loptið streymdi inn um gluggana og svalaði honum; það var ekki annað í þeim en hlerar á nóttinni. Honum fannst fara vel um sig þar í einverunni. Hann stóð lengi frammi fyrir myndinni af Maríu mey og horfði bljúgur á geislaljómann kringum andlitið, sem var tilbúinn úr silfurpappír. En ekki datt honum í hug að biðjast fyrir. Og til hvers átti hann að vera að biðjast fyrir, nú þegar honum var þrotin öll von? Honum fannst dagurinn ætla aldrei að líða. Honum leiddist eptir myrkrinu. Hann var eptir sig, og blóðmissirinn hafði dregið mátt úr honum meira en hann vildi kannast við með sjálfum sjer. Hann kenndi býsna mikið til í hendinni, settist á skemil

og leysti utan af henni. Þá fór undir eins að blæða aptur, og það var komið töluverð bólga kringum sárið. Hann þvoði hendina í vatni og hjelt henni lengi niðri í. Þegar hann tók hana upp úr aptur, sá hann glöggt tannaförin. »Það var ekki nema rjett af henni«, mælti hann. »Jeg var trylltur og mjer var það mátulegt. Mig skal hún aldrei sjá framar«. — Og hann tók sig til og þvoði úr klútnum vandlega, þegar hann var búinn að binda um hendina aptur eins vel og honum var hægt með tönnunum og vinstri hendinni. Síðan fleygði hann sjer upp í rúm og ljet sjer renna í brjóst. Hann vaknaði af blundi við tunglsljósið og sársaukann í hendinni. Hann spratt á fætur að útvega sjer vatn til þess að kæla í sjer blóðið. Þá heyrir hann eitthvað við dyrnar. Hann lýkur upp og spyr, hver þar sje á ferð. Laurella stóð þar úti. Hún gekk inn, án þess að yrða á hann, tók af sjer klútinn, sem hún hafði yfir sjer, og setti dálitla körfu á borðið, sem hún hafði í hendinni. Hún varpaði öndinni mæðilega. »Þú ert komin til að sækja klútinn«, sagði hann. »Þú hefðir ekki þurft að ómaka þig; jeg ætlaði að senda þjer hann í fyrra málið«.—»Jeg er ekki komin klútsins vegna«, svaraði hún fljótt; »jeg fór upp í fjall að sækja grös, sem stöðva blóðrás. Hjerna eru þau«. Hún tók lokið af körfunni. — »Það var of mikil fyrirhöfn«, sagði hann, alveg gremjulaust; »þú hefir haft langt of mikið fyrir. Jeg er undir eins miklu betri; og þó svo væri ekki, þá væri það mjer alveg mátulegt. Hvað hugsarðu annars, að koma hingað á þessum tíma? En ef einhver hitti þig hjer? Þú veizt, hvað fólki er tamt að tala, þó það viti ekkert hvað það fer með«. — »Mig

varðar ekkert um það«, sagði hún, nokkuð hvatlega. »En jeg vil sjá á þjer hendina og leggja við hana grös, því þú getur ekki gert mikið einhentur og það með vinstri hendinni«. — »Jeg segi þjer satt, að þess þarf ekki«. — »Lofaðu mjer þá að sjá, hvort það er satt«. Hún þreif til handarinnar orðalaust og leysti utan af henni. Þegar hún sá, hvað bólgin hún var, hrökk hún við og rak upp hljóð. — »Það hefir komið dálítill þroti í hana«, sagði hann; »það batnar á einum degi«. — Hún hristi höfuðið: »Þú kemst ekki á sjó í viku«. »O jú, jeg vona jeg komist það úr því líður dagurinn á morgun«. Hún var búin að sækja vatnsílátið og þvo sárið aptur, og ljet hann hana ráða, eins og hann væri barn. Síðan lagði hún græðijurtirnar við; þá linaðist strax seyðingurinn, og síðan batt hún um aptur með nokkrum ljereptsræmum, sem hún hafði líka haft með sjer. Þegar það var búið, sagði hann: »Jeg þakka þjer fyrir. Og heyrðu, ef þú vilt gera mjer enn þá betur til, þá fyrirgefðu mjer, að jeg hagaði mjer í dag eins vitlaus maður, og gleymdu öllu, sem jeg hefi talað og gjört. Jeg skil ekki sjálfur í því, hvernig þetta kom að mjer. Þú hefir að minnsta kosti aldrei gert neitt það, að jeg þyrfti að láta svona. Þú skalt aldrei heyra mig segja neitt hjeðan af, sem þjer er skapraun í«. — Hún tók fram í og sagði: »Það er jeg, sem á að biðja fyrirgefningar. Jeg hefði átt að fara öðru vísi að við þig og skynsamlegar. Jeg hefði ekki átt að æsa í þjer blóðið með því að þegja. Og svo þar á ofan sárið...« — »Þú áttir hendur þínar að verja, og það mátti ekki seinna vera, að jeg rankaði við mjer. Auk þess er þetta hreint ekki neitt, eins og jeg hefi sagt. Vertu ekki að tala um

fyrirgefningu; þú hefir verið góð við mig, og jeg þakka þjer fyrir það. Farðu nú heim að sofa, og þarna, — þarna er klúturinn þinn«. Hann rjetti henni hlútinn, en hún stóð kyr í sömu sporum og var eins og hún ætti örðugt með að ráða við sig. Loks sagði hún: »Þú hefir líka misst treyjuna þína mín vegna, og jeg veit, að peningarnir fyrir aldinin voru innan í henni. Það flaug allt saman í huga minn þegar jeg var á leiðinni upp eptir og ekki fyrri. Jeg get ekki bætt þjer það undir eins, því við eigum ekkert til, og þó svo væri, þá ætti hún mamma það, en ekki jeg. En hjerna er silfurkrossinn, sem málarinn lagði á borðið, þegar hann kom til okkar síðast. Jeg hefi ekki litið á hann síðan og hirði ekki um að hann liggi í öskjunni minni lengur. Ef þú seldir hann — mamma segir að hann sje nokkurra pjastra virði —, þá fengirðu líklega bætt það sem þú hefir misst, og ef eitthvað vantar á, þá reyni jeg að vinna mjer það inn með því að spinna á næturnar, þegar mamma sefur«. — »Jeg tek ekki við neinu», sagði hann, og stjakaði hendinni við krossinum, sem hún hafði tekið upp úr vasa sínum, fagurgljáandi. »Þú skalt taka við honum«, mælti hún. »Hver veit hvað lengi höndin kann að baga þig, svo þú getir ekkert unnið þjer inn. Þarna liggur hann, og jeg vil aldrei sjá hann fyrir augunum á mjer framar«. — »Þá er ekki annað en að kasta honum í sjóinn«. — »Þú sjer sjálfur, að jeg er ekki að bjóða þjer neina gjöf; þetta er ekki annað en það sem þú átt með öllum rjetti«. — »Með öllum rjetti? Jeg hefi hreint engan rjett til að taka við nokkrum hlut af þjer. Ef við hittumst einhvern tíma aptur, þá gerðu það fyrir mig að líta ekki á mig, til þess að það rifjist ekki

upp fyrir mjer, hvað þú átt að mjer. Og nú, góðar nætur; það er bezt að þetta sje það síðasta, sem við tölum saman«. Hann lagði klútinn og krossinn í körfuna henna, og lokið ofan yfir. En þegar hann svo leit við og sá framan í hana, varð honum hverft. Tárin flóðu niður eptir kinnunum á henni.

»Heilaga guðsmóðir!« kallaði hann upp; »gengur nokkuð að þjer? Þú skelfur og titrar öll saman«. — »Það er ekki neitt«, sagði hún; »jeg verð að fara heim«. Og hún gekk fram að hurðinni. En gráturinn bar hana ofurliði. Hún studdi enninu upp við dyrastafinn og grjet hástöfum. Og áður en Antonío var kominn þangað sem hún stóð til að aptra henni frá að fara, snjeri hún sjer við allt í einu og fleygði sjer um hálsinn á honum.

»Jeg get ekki staðizt þetta!« hrópaði hún upp og þrýsti sjer upp við hann eins og í dauðans ofboði; »jeg get ekki risið undir því, að þú hefir ekki nema góð orð við mig og lætur mig fara frá þjer með alla þessa sekt á samvizku minni. Þú mátt berja mig sparka mjer, formæla mjer—eða þá, sje það satt, að þjer sje vel við mig enn, eptir allt það sem jeg hefi gert þjer illt, þá taktu mig og hafðu mig hjá þjer og gerðu við mig hvað sem þú vilt. En sendu mig ekki burtu svona!« — Þá setti aptur að henni því meiri grát en áður.

Hann hjelt henni stundarkorn í fangi sjer og mælti eigi orð frá vörum. »Hvort mjer þykir vænt um þig enn!« segir hann svo. »Heilaga guðsmóðir! Heldurðu þá að allt blóð sje farið úr hjartanu á mjer, þó jeg fengi skeinuna þá arna? Finnurðu ekki hvernig það berst í brjóstinu á mjer, eins og það vildi komast út og til þín? En sje svo, að þú segir þetta,

sem þú sagðir áðan, til þess að freista mín, eða af því að þú kennir í brjósti um mig, þá farðu, og jeg skal reyna að gleyma því líka. Þú skalt ekki ímynda þjer, að jeg eigi þetta að þjer, af því þú veizt, að jeg líð þín vegna«.

»Nei«, sagði hún, og horfði framan í hann með augun full af tárum; »jeg elska þig, og hefi lengi óttazt, að svona mundi fara, hefi óttazt þessa stund og streizt á móti því. En nú verður það allt saman að verða öðru vísi en jeg ætlaði; jeg get ekki risið undir því, að horfa á þig, þegar þig ber fyrir mig. Já, og jeg ætla að kyssa þig, til þess að þú getir sagt við sjálfan þig, þegar efablendnin kviknar í þjer aptur: Hún hefir kysst mig, og Laurella kyssir ekki aðra en þann, sem hún ætlar sjer að eiga«. Hún kyssti hann þrisvar, sleit sig síðan úr fanginu á honum og sagði: »Góðar nætur, elskan mín. Farðu nú að hvíla þig og vertu ekki að fylgja mjer, því nú óttast jeg engan mann framar«.

Hún hoppaði út úr dyrunum og hvarf fyrir vegginn. En hann sat lengi og horfði út um gluggann, út yfir sjóinn, sem stafaði í og stjörnurnar lauguðu sig í þúsundum saman, hljóðar og þögular. —

---

Þegar presturinn kom út úr skriptastólnum næst, þar sem Laurella hafði kropið á knje lengi, ljek hægt gleðibros um varir hans. »Hver mundi hafa trúað því«, sagði hann við sjálfan sig, »að Guð miskunnaði sig yfir þetta undarlega hjarta svona fljótt? Og jeg sem var jafnvel farinn að ásaka sjálfan mig fyrir að jeg tók ekki betur ofan í lurginn á henni fyrir einþykknina í henni. En augu vor eru skammsýn gagnvart stjórn Drottins. Nú nú, hann blessi þau þá og

láti mig lifa það, að elzti sonur Laurellu flytji mig, þegar jeg fer á sjó, í stað föður síns«.

[*Björn Jónsson* þýddi].

---

# ‚Monitor' Jóns Eirikssonar.

Eftir

## Hjálmar Edgren.

[Með því að fæstir af lesöndum vorum munu þekkja þann hugvitsama völund, er þáttr sá, er hér fer á eftir, einkum lýtur til, þykir oss hlýða, að segja fyrst í fám orðum frá inni löngu og starfsömu æfi hans.

Jón Eiríksson (Eriksson) er fæddr á Vermalandi í Svíþjóð 31. júlí 1803. Þrettán vetra tók hann að nema stórsmíðar við Gautelfarskurð og vakti þegar svo athygli Platens greifa með uppdráttum sínum, að honum að fám mánuðum liðnum var falið á hendr ið mikilvæga starf, að mæla út legu skurðarins, er 600 manna vóru að grafa. Hann var þá svo lítill, að hann varð að hafa undir sér pall, til þess að geta séð á hallamælinn. Í tómstundum sínum stundaði hann stœrðfrœði og aflfrœði ásamt bróður sínum, Nils Eriksson, og hvé nær sem

hann fékk því við komið, gerði hann uppdrætti af vélum þeim, er hafðar vóru við skurðgröftinn. Árið 1820 hætti hann störfum þessum, og gekk í herflokk Jamtalands, og tveim árum síðar var hann gerðr að undirforingja. Skömmu síðar tók hann próf í landmælingum í Stokkhólmi, og var síðan settr til jarðmælinga í Norrlandi. Þar ávann hann sér frægð fyrir iðjusemi og leikni í landbréfaritun. Við og við fékst hann við verkvélar, og in fyrsta vél hans var svo ger, að hún var sett í hrœringu með lofti, er þanið var út með hitun. Hafði hann þar fundið hitaloftsvél þá, er hann síðar endrbœtti og svo fræg hefir orðið. Til þess að útbreiða þessa uppfundning sína fór hann árið 1826 til Englands og fékk skömmu síðar lausn úr sœnskri þjónustu. Meðan hann dvaldi í Lundúnum hafði stjórn járnbrautar þeirrar, er liggr milli Manchester og Liverpool, ákveðið, að reyna skyldi gufuvagna, og heitið verðlaunum fyrir þann vagninn, er fljótastr væri. Jón Eiríksson tók þegar til starfa og smíðaði á sjö vikum gufuvagn, og reyndist sá fljótastr allra. Sakir þess, að hann varð að flýta sér svo mjög með vagnsmíðina, varð vagn hans eigi svo traustr sem skyldi, og bilaði lítið eitt er hann var reyndur. Þeir menn, er kvaddir vóru til að dœma um vagnana, dæmdu að Jóni bæri verðlaunin, enn seldu honum sjálfdœmi um það, hversu líta skyldi á annan vagn, er næstr stóð verðlaunum, og var að vísu eigi jafnfljótr sem hinn, enn traustari. Jón eftirlét þegar verðlaunin, enn hér var heldr eigi við smámenni að etja, því að kappnautr hans var enginn annar enn Stephenson, er fyrstr fann gufuvagninn. Jafnframt því sem Jón starfaði að hitaloftsvél sinni, tók hann sér fyrir hendr að

reyna, hvort eigi mætti nota skrúfu í staðinn fyrir hjól til að hreyfa gufuskip. Heppnaðist honum það eftir nokkrar tilraunir. Smíðaði hann þá skipdráttabát, sem knúinn var áfram með skrúfum, og sýndi hann inni ensku sjóliðsstjórn. Enn lávarðarnir, er fullir vóru af stœrilæti og sérgœðingsskap, gátu með engu móti vitað, að útlendr maðr yrði til þess að koma fram með þessa nytsömu uppfundning, og létust hvorki vilja heyra hana né sjá, og jafnómakleg svör veittu þeir um hitaloftsvélina. Gramdist Jóni svo þessi ódrengskapr, að hann ásetti sér að leita brott úr Englandi og fór hann þá til Ameríku. Þetta var árið 1839. Í Bandaríkjunum var öðru vísi litið á verk hans og verðleik, og fekk hann þar brátt mikið orð á sig. Árið 1843 var sett fram af stokkum freigátan ‚Princeton‘, er hann hafði smíðað. Það var ið fyrsta sannarlegt skrúfu-gufuskip, og breyttist þá algerlega herskipa smíð og útbúnaðr allr.

Nú liðu nokkur ár, og mun Jón Eiríksson þá mest hafa fengizt við að bæta hitaloftsvél sína. Enn er minst varði, fluttu málþræðir og fréttablöð frægðarorð hans af nýju um allan heim. Það var árið 1862, þegar þrælastríðið stóð sem hæst í Bandaríkjunum. Þá smíðaði Jón lítið gufu-herskip, ‚turnflekaskip‘, er nefnt var ‚Monitor‘ (‚Áminnir‘). Barðist það á Hampton Road við ina járnbyrðu freigátu suðrríkjanna ‚Merrimac‘, og vann svo frægan sigr, að norðrríkin vóru síðan óhult fyrir brynskipum sunnanmanna, er annars hefði að líkindum eytt flota norðanmanna og unnið hafnarbœi þeirra. Flytjum vér hér á eftir frásögu um orrustu þessa og fullnaðarsigr, svo sem frá hefir sagt einn af sjónarvottum og ritað í sœnsku tímariti.

12*

Er orrusta þessa einnig að því leyti merkileg, að þá barðist járnskip í fyrsta sinn við tréskip, er ‚Merrimac' barðist við ‚Cumberland' og ‚Congress'. Sigr ‚Monitors' og in góðu endalok stríðsins má að nokkuru leyti þakka völundinum Jóni Eiríkssyni. Ameríkumenn hafa síðan komið sér upp nokkurum flota af herskipum með þessu lagi, og mörg önnur lönd hafa tekið það eftir þeim.

Uppfundningar Jóns Eiríkssonar allar, smáar sem stórar, eru fleiri enn hundrað að samtöldu. Skulum vér hér drepa á eina, er líkindi eru til, að framleiðis verði að miklu gagni. Það er sólvélin. Þá er Jón Eiríksson hafði umbætt hitaloftsvél sína, kom honum til hugar, að hreyfa mætti verkvélar með inu mikla afli, er sólarljósið hefir í sér fólgið. Sökum skorts á eldsneyti og vatni verðr gufa eigi höfð til að hreyfa vélar á stóru svæði um miðbelti jarðar, enn þar er sólarhitinn mestr og jafnastr. Þessi mikli hiti kemr þar eigi að miklu gagni, heldr gerir miklu fremur þau lönd að eyðimörkum, er vera mættu in dýrlegustu á jörðunni. Ef auðið yrði að koma þar upp nœgilega mörgum sólvélum, ætlar Jón Eiríksson, að lönd þessi gæti orðið in frjósömustu, svo að jarðrækt og kaupskapr næði þar beztum blóma. Hann hefir reiknað hreyfingarafl það, er fá mætti úr sólargeislum þeim, er falla á strandgeira þann, er væri 1 ensk míla á breidd fram með inni veðrsælu vesturströnd Ameríku og við Níl, Eufrat, Persaflóa og Rauðahafið, enn þessar strendr eru að samtöldu 1300 mílur á lengd, og svæðið alt 223000000000 ferhyrningsfeta að flatmáli. Þá er afl sólargeisla þeirra, er falla á flöt, sem er 100 ferhyrningsfet á stœrð, er jafnt einu hestsafli, mundu 22 000 000 sólvéla, er hver hefði 100 hesta

afl, geta haldizt í hreyfingu níu stundir á hverjum degi á öllu þessu svæði.

Einhver in síðasta uppfundning Jóns Eiríkssonar er hrökkálsnekkjan ‘Destroyer‘ (Tortímir‘). Þetta skip er örskreiðast allra skipa, er bygð hafa verið til þessa, og öðru vísi að gerð enn önnur hrökkálaskip. Á því er fallbyssa neðansjávar, og að eins eitt skot úr henni mundi sökkva inu stœrsta brynskipi.

Jón Eiríksson hefir jafnan verið mjög unnandi ættlandi sínu Svíþjóð, þótt hann hafi dvalizt erlendis. Hefir hann opt sent stórgjafir heim til Svíþjóðar til að styrkja ýmsar nytsamar framkvæmdir. Svíar hafa og sýnt honum allan sóma; vísindafélög í Svíþjóð hafa kosið hann til félaga síns, og háskólinn í Lundi hefir gert hann að heiðursdoktóri, að vér ekki nefnum krossa og heiðrsmerki.]

---

Það eru liðin rúm tuttugu ár síðan tilburðir þeir urðu, er hér skulu í frásögu fœrðir. Laugardagsmorguninn 8. marz 1862 var ég á ferð í glaða sólskini á litlum báti með nokkrum amerískum sveitarforingjum; komum vér frá kastalanum Fort Monroe, er þar var á landi uppi, og vórum á heimleið til virkis vors Rip Raps, er stóð utanvert við mynni Jamesfljótsins, þar sem vér höfðum setulið vort undir forustu lautenants Helledays, er fyrr hafði verið foringi í sjóliði Svía.

Útlitið var tvírætt; alt var í kyrð og ró, enn all-ófriðlegt um að litast. Á landi uppi vóru þau tvö kastalavirki, er þegar er getið, og þaðan mændu fallbyssurnar með ógurlegum svip, enn í milli virkjanna lágu nokkur herskip með blaktandi fánum. Á aðra hönd vóru tvær vígisstöðvar vorar í

Newport News, og vóru virkin þannig í skökkum ferhyrning, og héldu ásamt nokkrum herskipum vörn uppi fyrir mynni James-fljótsins og Sewalls-tanga, þar sem óvinir vorir höfðust við og vörðu innsiglingu að bœnum Norfolk. Enn fánarnir blöktu blíðlega í vorblænum og fallbyssurnar í virkjunum vóru steinþegjandi, sem friðrinn væri inn tryggasti, og svo þögular höfðu þær verið allan veturinn, nema endr og sinnum, þá er vor sókndjarfi hershöfðingi hafði gert hríð að virkjunum á Sewalls-tanga.

Vér rérum vorum örskreiða báti yfir sægrœnar bárurnar og vórum að tala um leiðangr, er í ráði var með vorinu; var þá svo til ætlað, að meginherinn skyldi leggja frá Fort Monroe upp til Richmond, þar sem var aðalstöð óvina vorra og aðsetr stjórnarinnar í suðrríkjunum; vórum vér þegar búnir að draga saman allmikinn flutninga-flota við kastalann. Alt í einu gall við einn af félögum vorum upp úr eins manns hljóði og segir: »Hvað ætli sé um að vera á herskipunum?« Oss varð öllum litið þangað, og sáum vér þegar, að þar var eitthvað á seyði venju fremr; herskipabátarnir vóru innbyrðir, fallbyssurnar gægðust út um opin á hliðum skipanna og hermennirnir vóru önnum kafnir í kring um þær, reykrinn þirlaðist upp úr strompunum og akkerunum var létt. Það var auðséð á öllu, að verið var að búast til orrustu. »‚Merrimac' kemr!« sögðu félagar mínir, og urðu allir uppi til handa og fóta og sóttu nú róðrinn ákaflega. Náðum vér skjótt heim að virki voru Rip Raps og tókum að hlaða fallbyssur vorar.

»‚Merrimac' kemr«. — Þessi orð skutu oss heldr skelk íbringu, því að það hafði flogið fyrir og vér höfð-

um það fyrir satt, að suðrríkjamenn hefði þar vakið upp þann draug, er oss yrði eigi auðið að kveða niðr. ,Merrimac' var herskipa stœrst í Bandaríkjunum. Höfðu norðanmenn árinu áðr sökt skipinu í Norfolk, enn sunnanmenn vóru nú búnir að ná því upp aftr og höfðu gert úr því voðalegan bryndreka, er ef til vill skyldi einn góðan veðrdag reyna sig í fyrsta skifti í heimi í orrustu við herskip þau, er þá gerðust. Skipið hafði verið rifið niðr að skotþiljum, og vóru inar efri þiljur gerðar af járni mjög traustlega; var borin fita utan á skipið til þess að örðugra væri að ráðast til uppgöngu á það. Úr framstafni gekk járntrjóna mikil.

Vér gengum skjótt úr skugga um, að orðrómr þessi mundi vera á rökum bygðr. Sjáum vér nú hvar skipi einu miklu, siglulausu, þokar fram undan virkjunum á Sewalls-tanga. Járnkinnungarnir glóðu í sólskininu og rann það þunglamalega á undan allmiklum herskipa-flota, og stefndi beint til móts við herskip vor, er lágu við Newport News. Nú var eigi lengr griða að spyrja. Vér rufum fyrst þögnina með eldtungum virkis vors og sendum ferlíki þessu hvimleiðar kúlur, enn óvinir voru sendu oss óðara sömu kveðjur og skutu á herlið vort, er kom frá Fort Monroe til liðs við oss.

Enn þetta var að eins hátíðlegr fyrirboði innar eiginlegu orrustu. Orrustan hefst þá fyrst, er bryndrekinn er kominn svo nærri herskipum vorum, að eigi er lengra á milli enn nokkur hundruð feta. Herskip vor skjóta öll í senn úr fallbyssum sínum á þeirri hlið, er veit að bryndrekanum. Kúlurnar hrökkva hvínandi á bug frá járnbarði skipsins sem hagl af steini og svala reiði sinni í sjávaröldunum eða

brotna á hliðum skipsins. Virkisbúar í Newport News senda og óvinum vorum skot, enn alt kemr fyrir ekki. ‚Merrimac‘ heldr áfram gegn um kúluhríðina sem ekkert væri um að vera og stefnir á herskipið ‚Cumberland‘; sendir því ógurleg skot og rennir síðan trjónu sinni á hlið þess og veitir því það drápshögg, að það brotnar fyrir og inn fellr kolblár sjór. Verða þeir á ‚Cumberland‘ nú að láta undan síga, enn eigi félst þeim hugr að heldr. Hefja þeir nú leikinn af nýju. ‚Merrimac‘ víkr sér nú aftur fyrir ‚Cumberland‘ og lætr stórskotin dynja yfir skipið að endilöngu. Verpir nú valköstum á þiljur svo þykkum, að eigi verðr þverfótað fyrir dauðra manna búkum. Þeir á ‚Cumberland‘ vilja nú bregða upp friðarfána, enn því er eigi sinnt. Gerir þá ‚Merrimac‘ aðra atrennu að ‚Cumberland‘ og rennir tjónunni á hol í hlið skipsins, svo að allr kinnungrinn brotnaði í spón og sökkr Cumberland í sömu svipan. Enn fáninn blakti enn víglega við loftið, og er skipið var svo sokkið, að sjórinn tók hermönnunum í mitti á þiljum, sendu þeir ‚Merrimac‘ sína síðustu kveðju með stórskoti.

Nú snýr ‚Merrimac‘ atsókninni að skipinu ‚Congress‘, er hefir séð ‚Cumberland‘ sökkva við góðan orðstír, enn eigi getað veitt því nokkurt lið Hleypir ‚Merrimac‘ fram með hliðinni á ‚Congress‘ og skýtr í senn á það úr öllum fallbyssunum öðru megin á skipinu. Mannfallið á ‚Congress‘ var ógurlegt; enn margr sýndi þar frábæra hreysti. Ein af kúlunum frá Merrimac drap alla þá menn er vóru við eina fallbyssuna, nema einn; hann misti annan handlegginn, enn með hinni hendinni reynir hann að skjóta úr fallbyssunni, enn þá kemr kúla og tekr af honum

höfuðið. Foringi skipsins fellr. Að síðustu kviknar í skipinu á mörgum stöðum. Draga þeir þá loks upp hvíta fánann.

Nú vóru þrjú herskip óunnin, er höfðu komið til liðs við oss frá Fort Monroe. Tvö þeirra, ,Minnesota' og ,St. Lawrence', höfðu rekizt á grynningar og á inu þriðja, ,Roanoke', hafði skrúfan brotnað. ,Merrimac' snéri nú móti ,Minnesota' og ,St. Lawrence', og hafði í fylgd með sér nokkura fallbyssubáta. Vorir menn tóku hraustlega á móti og bjuggust þegar við að falla með drengskap. Skutu þeir frá ,Minnesota' á einn fallbyssubát óvina vorra, svo að hann brann til kaldra kola. Enn viðreignin stóð skamma stund, því að ,Merrimac' hætti brátt sókninni. Óttuðust óvinir vorir, að þeir kynni að rekast á grynningar í myrkrinu, og hurfu því undan; töldu þeir sér sigrinn vísan og frestuðu orrustunni til morguns og snéru aftr inn undir virkin á Sewallstanga.

Nóttina eftir orrustuna var logn og heiðstirndr himinn. ,Congress' stóð í björtu báli; eldrinn læsti sig um alt skipið og brendi upp dauða menn og dauðvona, og hljóp einnig í inar hlöðnu fallbyssur og hleypti úr þeim, og var að heyra sem þrumandi skothríð í náttmyrkrinu. Loks sló eldinum í púðrbyrgið, og með ógurlegri dunreið flýgr skipið í loft upp. Eldibrandarnir steypast úr háa lofti niðr í sjóinn og síðan er alt þögult og kyrt.

Nú bjóst hvorratveggja lið til nýrrar orrustu með morgninum. Vér bjuggumst við, að Mac Gruder hershöfðingi kœmi frá Newport News ásamt með ,Merrimac', og hafði hann þrefaldan liðsafla á við oss. Bæði í Fort Monroe og Rip Raps höfðu vorir menn

allan þann viðrbúnað, sem kostr var á og föng vóru til. Fregnin um ósigr vorn á Hampton Road hafði flogið sem elding með málþráðunum um öll Bandaríkin og norðanmenn báru mikinn kvíðboga fyrir morgundeginum. Var eigi annað sýnna, enn að „Merrimac‘ og ið aukna herskipalið óvina vorra mundi vinna kastalann Fort Monroe, og gjöreyða flutningaflota vorn, er lá í skjóli við kastalann, og yrði þannig að engu herferð sú, er vér höfðu ráðið að fara. Þá mátti og búast við, að óvinir vorir mundu halda norðr eftir, leggja leið sína inn í Potomac-fljótið, vinna Washington og sigra oss norðanmenn að fullu.

Hér var úr vöndu að ráða. Norðanmenn áttu ekkert það herskip, er mætt gæti ‚Merrimac‘ í orrustu. Þeir höfðu engin járnskip. Í ágústmánuði 1860 hafði hermálaráðherra norðanmanna heitið verðlaunum fyrir brynskip, enn enginn hafði enn orðið til þess að smíða það. Auðugr kaupmaðr einn í New Haven, að nafni Bushnell, hafði að vísu lengi haft þau ráð með höndum og sjálfr látið gera líki af brynskipi. Hann hafði nú eigi als fyrir löngu farið til New York til að ráðfœra sig við þjóðhagann Jón Eiríksson. Sýndi hann honum skipslíkan sitt, enn Jóni þótti því í ýmsu ábótavant. Sýnir hann því næst Bushnell annað skipslíkan, er hann kvaðst hafa unnið að í 20 ár og hefði hann fyrir nokkurum árum boðið það bæði Ameríkumönnum og Frökkum. Bushnell leizt mjög vel á fyrirmyndina, og fór hann með hana og uppdrætti þá, er henni fylgdu, til Washington og fékk í hendr nefnd, er átti að kynna sér mál þetta.

Nefndarmönnum þótti skipsmyndin furðuleg, er hún var mjög ólík öllum herskipum, er þá gerðust, og

höfðu litla trú á því, að slík skip yrði að liði, og sumir nefndarmenn gerðu gys að smíðinni. Einir tveir menn, kapt. Fox, forstjóri sjóliðsdeildarinnar, og ritari hans, vóru þess hvetjandi, að byggja herskip í þessa líking. Þá fékk Bushnell Jón Eiríksson til þess að fara til Washington til að skýra mál þetta fyrir nefndinni. Höfðu þar verið bornar upp seytján tillögur um herskipagerð, enn svo fór að lokum, að þrjár þeirra voru samþyktar og þar með tillaga Jóns Eiríkssonar. Skipsmíðin var bundin ströngum skilmálum; skyldi verkinu lokið á 100 dögum, og varða ábyrgð, ef eigi hepnaðist.

Bushnell og tveir auðmenn með honum réðust í að hætta fé sínu til að byggja skip þetta. Var nú tekið til starfa, og gekk smíðin skjótt. Skipið var líkara fleka enn venjulegu skipi. Var það haft svo borðlágt til þess, að því minna væri hœgt að hafa að skotspæni, er á það væri skotið. Það var alt járni byrt, svo að engin skotvopn máttu á því vinna, slík sem þá gerðust. Þiljur vóru að eins 1½ fet yfir sjávarflöt. Á miðþiljum var turn; hann var byrðr þykkri járnhúð og lék á ramgerðum járnfœti. Í turnnum vóru tvær fallbyssur. Gufuvél var höfð til að snúa turninum eftir vild, og fylgdi því sá kostr, að sjálfu skipinu þurfti eigi að snúa í orrustu. Mátti hrœra turninn með lyftingarstöng, og var það létt verk. Við hvert skot opnuðust fallbyssuhliðin af sjálfum sér og lukust aftr.

Svo vildi til, að þessa sömu nótt eftir orrustuna á Hampton Road kom þetta ið nýja herskip ‚Monitor' til Fort Monroe. Foringinn á ‚Monitor', lautenant Warden, fór þegar til fundar við foringjann á skipinu ‚Minnesota' og beiddist að mega leggja ‚Monitor'

við hlið þess. Var nú margt talað um aðkomuskipið og ýmsar getur leiddar um það. Var mönnum sízt að skilja, hvað smásnekkja sú vildi, og ætluðu flestir lítið lið að henni vera.

Níunda dag marzmánaðar í býti stóðum vér hópum saman við fallbyssur vorar og horfðum yfir að Sewalls-tanga. Veðr var ið blíðasta, en ekkert sást fyrir þoku. Enn er rofaði, sjáum vér hvar þrjú skip koma fram úr þokunni; þykjumst vér nú vita, að þar muni til tekið, er frá var horfið um kveldið, og að orrusta muni hafin að nýju. ‚Merrimac‘ brunar fram og lætr sér eigi bilt við verða skot vor. Allir vóru nú milli vonar og ótta, og varð flestum starsýnt á ‚Merrimac‘. »Enn hvað mundi því valda, að hann fer svo ódjarflega? Eigi mundi hann óttast þessa smásnekkju, er liggr við hliðina á ‚Minnesota‘ og ber varla borð yfir sjó«. Þetta töluðu menn í virkinu. Þeir, sem eigi vissu fyrir komu ‚Monitors‘, héldu jafnvel, að þetta væri vígvél á floti, gerð til þess, að sprengja ‚Minnesota‘ í loft upp, eða að öðrum kosti friðbeiðsluskúta frá mönnum vorum, og værim vér þá sviknir í hendr fjandmanna vorra af ragmennsku foringjanna.

Enn það var ‚Monitor‘, sem komið hafði um nóttina, og var girðr megingjörðum og búinn til orrustu við ‚Merrimac‘. Vér sjáum nú blossa, og heyrum fallbyssuskot frá ‚Monitor‘, og þá þurfum vér eigi framar að sökum að spyrja. Hefst nú in ákafasta orrusta milli ‚Monitors‘ og ‚Merrimacs‘ og sér ekki í skipin fyrir reykjarmekki, enn eldingarnar þjóta og loftið skelfr fyrir fallbyssudyninum. Kúlurnar þjóta í sífellu og veita báðum skipunum mörg högg

og stór, eða þær falla í sjóinn, svo að gusurnar standa hátt í loft upp.

,Monitor' hefir að eins tvær 11 punda fallbyssur slétthleyptar, enn ,Merrimac' hefir átta slíkar byssur og auk þeirra tvær 100 punda fallbyssur hlaupstrendar, enn brátt er það sýnt, að ,Monitor' stendr eigi að síðr fult svo vel að vígi sem ,Merrimac'.

Nú rennir ,Merrimac' sér að ,Monitor', og hyggja sunnanmenn, að fjandi sá muni sökkvast fyrir því ofrefli. Hrökkr ,Monitor' undan högginu, enn ,Merrimac' fær allmikið svöðusár af járnbarði hans. Þetta gengr nokkurum sinnum og bíðr ,Merrimac' tjón að meira.

Járnskeyti flýgr gegn um varðbergsaugað á 'Monitor', er Warden hafði stœkka látið þrátt fyrir það þótt Jón Eiríksson hefði sagt, að betra væri að sjá minna í kringum sig enn verða blindaðr. Fór skotið svo nærri Warden sjálfum, að það særði hann svo, að hann var eineygðr síðan. Önnur kúla flýgr gegn um fallbyssuhlið á ,Merrimac' og gerir þar mikið tjón.— Orrustan stóð í nokkurar stundir, og vildu hvorugir upp gefast. Svo fór að lokum, að ,Merrimac' lét undan síga, enn eigi er fullkunnugt, af hverjum ástœðum. Létu þeir á ,Monitor' skotin dynja á eftir honum, og hélt hann til virkjanna á Sewalls-tanga. Honum var aldrei haldið út aftr, og sunnanmenn sprengdu hann sjálfir í loft upp nokkuru síðar.

Nú áttu norðanmenn sigri að hrósa, og fregnin um þennan fræga sigr flaug um öll lönd, og varla heyrðist um annað talað enn ,Monitor' og Jón Eiríksson. Komu nú menn víðsvegar að til að sjá ið sigrsæla

skip, og síðan hefir hver þjóðin á fætr annari látið smíða herskip af sömu gerð.

Þessi orrusta er mjög merkileg. Hún sýnir bæði, að tréskipum er ofrefli að berjast við járnskip, hve vel sem tréskipin eru að vopnum búin og mönnum, og að smáskip sem ‚Monitor' geta sigrað stórskip, ef þau eru betr löguð til orrustu. Hér eru og sýnd dœmi frábærrar hreysti og harðfengi Bandamanna.

[*Valdimar Ásmundarson* þýddi].

---

# Eyjarskeggjar á Pitcairn.

Í Hafinu kyrra milli Asíu og Ameríku liggja smáeyjar þúsundum saman, þar sem brauðaldintré vaxa og veita eyjabúum góða og holla fœðu. Þau eru þeim eigi minna bjargræði enn korn og hveiti eru öðrum þjóðum. Brauðaldintréð vex víðsvegar á eystra helmingi jarðar, enn á vestrhelmningnum vex það hvergi, og því hugðu Englendingar eitt sinn að planta það í Vestreyjum.

Í þeim erindum lagði skipið ‚Bounty' frá Evrópu 23. desember 1787. Skipstjóri hét Bligh, og var hann maðr harðr í skapi og illr við háseta.

Eftir tíu mánaða ferð kom skipið til Tahiti, og tóku eyjarskeggjar, er allir voru af innlendu kyni og viltir menn, báðum höndum við komumönnum. Féll svo vel á með þeim, að inir hvítu menn óskuðu, að

þeir mætti sem lengst dvelja þar, og undu sér einkum vel hjá kvenþjóðinni, þótt blökk væri. Að missiri liðnu bjuggust þeir aftr til brottferðar, og tóku með sér nokkur brauðaldintré. Enn allir áttu þeir þar unnustum á bak að sjá, bæði hásetar og foringjarnir sjálfir, og svo var því og varið fyrir öðrum stýrimanninum, er hét Kristján, og var hann svarinn óvinr Blighs skipstjóra.

Allir urðu nú að hlýða boðum skipstjóra. Lagði skipið nú á stað og fékk byr góðan og bar brátt úr landsýn. Flestum þótti mikið fyrir að fara og vildu fyrir hvern mun snúa aftr til eyjarinnar. Nú leið dagr að kveldi og skipstjóri háttaði í lyftingu. Skipverjar stóðu í hópum á framþiljum í tunglsljósinu og tóku ráð sín saman um að fyrirkoma skipstjóra og þeim, sem honum fylgdu, og snúa svo aftr til eyjarinnar. Gekst Kristján stýrimaðr fyrir því. Skipverjar höfðu bæði smábyssur og sverð. Gengu þeir með alvæpni ofan í lyftingu og tóku skipstjóra og 18 menn aðra og köstuðu þeim niðr í skipsbátinn. Fengu þeir þeim til nestis nokkur pund af brauði og fleski, fjórar tunnur af vatni og lítið eitt af víni, og sverð sín og leiðarstein. Síðan skáru skipverjar á bátsfestina og sigldu leiðar sinnar.

Þetta var í nánd við ey þá, er Tofua heitir, sem er ein af Vináttueyjum. Þangað leitaði Bligh, enn varð þegar frá að hverfa fyrir fjandskap eyjarskeggja. Vissi hann nú eigi, hvað til bragðs skyldi taka. Allar nálægar eyjar voru þá ónumdar af norðrálfumönnum. In næsta ey, þar sem norðrálfumenn höfðu aðsetu, var eyjan Timor; þar bjuggu Hollendingar og Portúgalsmenn. Enn þangað voru 3000 vikur sjávar, og bátrinn var svo sökkhlaðinn af

mönnum, að engin von var til að hann bæri það af að komast þangað. Þar að auki vóru vistir eigi nægar í svo langa ferð. Enn hér var ekki um annað að gera enn að freista hamingjunnar og reyna að komast til Timor. Lét Bligh menn sína gangast undir það, að éta eigi nema tvö lóð af brauði og drekka eigi nema lítinn vatnssopa á hverjum degi, og lagði síðan á stað til Timor. Ferðin gekk vonum betr, og mættu þeir félagar þó ýmsum hrakningi á leiðinni; hákarlar vóðu uppi og veittust að bátinum og eitt sinn eltu bátinn mannætur frá Fidschi-eyjum. Loks náðu þeir félagar landi við meginland Ástralíu, og dvöldu þar um stund. Þar fengu þeir sér ostrur og þjarft vatn. Héldu þeir síðan út á Asíuhaf og komu til Kupang á Timor eftir 40 daga ferð. Þaðan fór Bligh með lagsmenn sína til Batavíu og tóku þeir sér þar far til Englands, komu heim 14. marz 1790. Sagði Bligh þá upp alla söguna um uppreistina og hrakning þeirra félaga, og hafði hann haft heim með sér bátinn, er hann fór á yfir Kyrra-hafið.

Sjóliðsstjórnin á Englandi undi eigi við svo búið, og ásetti sér að leita uppreistarmanna og ná aftr skipinu ‚Bounty‘. Haustið 1790 lagði freigátan Pandora af stað frá Englandi í þeim erindum. Skipstjóri hélt fyrst til Tahiti og kom þar í marz 1791, og hitti þar tvo af uppreistarmönnum, er gengu sjálfviljugir á vald hans. Síðan fann hann ellefu aðra, er settir vóru í fjötra. Þá vantaði níu af skipshöfninni og þar á meðal Kristján, er foringi hafði verið uppreistarinnar. Þeir höfðu farið á skipinu og látið í haf, og vissi enginn hvað af þeim var orðið.

Þá er uppreistarmenn vóru orðnir einráðir á skip-

inu, réðu þeir af, að halda til einhverrar óbygðrar eyjar, þar sem þeir gæti verið óhultir fyrir Englendingum; því að þeir töldu sér hefndir vísar af þeirra hendi. Fóru þeir þá til eyjarinnar Tubuai, sem er fyrir sunnan Tahiti, og ætluðu þeir, að hún mundi verða þeim hollr griðastaðr. Enn þar brugðust þeim beztu vonir, því að eyjarskeggjar komu með ófriði af landi ofan óðara en þeir stigu á land. Urðu þeir því að hverfa þaðan, og héldu þá aftr til Tahiti til að fá sér þar konur, og heimsœkja þar vini sína, er skyldu semja við eyjarskeggja fyrir þeirra hönd. Þegar þangað kom, fóru þeir með undirferli og sögðu eyjarskeggjum, að Bligh hefði fundið auðuga ey og hefði þeir tekið sér þar bólfestu. Kœmi þeir til þess að fá fleiri til að setjast þar að. Fengu þeir með slíkum fortölum sínum átta karlmenn, tíu drengi og níu kvennmenn til að fara með sér til Tubuai.

Þá er þeir vóru komnir þangað, bygðu þeir sér þegar dálítið virki til varnar fyrir óvina árásum. Síðan komu þeir sér upp húsum og tóku til að rœkta jörðina. Framan af fór alt vel á með þeim. Í hóp þessum vóru nú tuttugu og fimm karlar, enn konur að eins níu; enn með því sumir þóttist lifa einlífi, rændu þeir sér konum frá eyjarskeggjum og spruttu af því óeirðir. Eyjarskeggjar tóku nú ráð sín saman um að gera atför að aðkomumönnum og drepa þá alla, enn þeir, er komnir vóru frá Tahiti, skildu mál eyjarbúa og sögðu hinum hvað í ráði var. Vildu þeir þá eigi verða seinni til stórræðanna og réðust á eyjarskeggja og drápu margt manna. Enn eptir það vóru aðkomumenn aldrei óhultir um líf sitt á eynni.

Þeir réðu því af að leita burtu úr eynni 1789.

Fjórtán af þeim fóru í land á Tahiti í nóvember 1789, og það vóru þeir, sem Englendingar höfðu náð á sitt vald. Þeir vóru hafðir í járnklefa á aftrþiljum Pandóru. Enn Pandóra strandaði á kóralrifi við strendr meginlands Ástralíu. Komust flestir skipverjar í bátana og hröktust 1000 vikur sjávar áðr þeir næði landi. Fjórir af uppreistarmönnum fórust á skipbrotinu; hinir komust heim til Englands í júlí 1792, og vóru þrír þeirra hengdir.

Enginn vissi nú hvar Kristján og félagar hans vóru niðr komnir.

Svo liðu tuttugu ár.

Enn það er frá Kristjáni að segja, að hann lét frá Tahiti og með honum átta af hinum fyrri félögum hans og tólf konur; enn fremr hafði hann tekið með sér sex menn frá Tahiti. Níu af konunum vóru giftar mönnum hans, en tvær vóru giftar eyjarbúum. Þeir félagar reikuðu víða um hafið, og vissu eigi hvort halda skyldu. Fór Kristján þá að leita í bókum þeim, er Bligh skipstjóri hafði eftir skilið, og fann þar ferðasögu Carterets. Las hann þar um ey eina, er Carteret hafði fundið 2. júlí 1767 milli 25. og 26. mælistigs suðrbreiddar; hafði hann nefnt ey þessa *Pitcairn*. Hún var langt frá öðrum eyjum, hálend og eldbrunnin; var hún skógi vaxin, enn engin var þar mannabygð, enda var eyjan eigi stœrri enn svo, að ganga mátti kring um hana á tveim stundum. Þangað hugði Kristján að fara með félögum sínum, 26 manns.

Í janúarmánuði 1790 komu þeir til Pitcairn. Vóru þar landkostir góðir; óx þar gnœgð af kókos-

pálmum og brauðaldintrjám. Villidýr vóru þar engin› utan völskur, enn mergð af fuglum. Hafið var fullt af fiski. Enn eitt var það, er fjekk þeim nokkurrar áhyggju: þeir sáu merki þess, að ey þessi hafði einhvern tíma verið bygð, og ugðu, að farmenn kynni að leita þangað. Enn þeir vildu vera í næði þar sem eigi væri von aðkomumanna. Þeir fundu þar og leifar af vopnum og mergð af hauskúpum; svo og tvær goðamyndir úr steini. Enn er þeir höfðu kannað eyna, urðu þeir þess vísari, að þar var engin bygð, og skipaði Kristján þá að brenna skyldu ‚Bounty‘, er þeir voru búnir að flytja í land alt það, er fémætt var í skipinu.

Nú liðu nokkur ár og undu eyjarskeggjar vel hag sínum; enn eigi þótti þeim vistin góð, er fylgzt höfðu með þeim frá Tahiti, því að inir hvítu menn höfðu gert þá að þrælum sínum. Einn af Evrópu-mönnum misti konu sína og ásældist konu frá einum Tahiti-búa. Þetta varð að ágreinings-efni, og af því spruttu óeirðir milli beggja flokkanna. Drápu Tahiti-menn Kristján og fjóra af félögum hans, enn fjórir, er eftir lifðu, er hétu Young, Koy, Adams og Quintal, urðu að flýja. Enn allar konurnar fylgdu einhuga inum hvítu mönnum og drápu menn sína sofandi. Vóru þá eftir á lífi að eins fjórir hvítir menn, tíu konur frá Tahiti og nokkur börn. Koy hafði áðr fengizt við brennivínsgerð; kom honum nú til hugar, að reyna það; hafði hann til þess eirketil, er verið hafði á skipinu, enn gerði brennivínið af rótum, er óxu á eynni. Leiddi það til þess, að eyjarskeggjar lögðust í drykkjuskap, og dró margan illan dilk eftir sér, og sjálfr beið Koy bana af of-

drykkju sinni. Quintal hafði verið óeirðaseggr inn mesti, og að síðustu hjó Young hann til bana með öxi, er hann hafði viljað véla konu hans. Þá vóru allir þeir menn dauðir, er komu með skipinu ‚Bounty' til Pitcairn, nema Young og Adams; þeir urðu báðir ellidauðir. Young dó árið 1800, enn Adams 1829.

Þegar Young dó, var Adams 36 ára að aldri, og var þá enginn annar fullvaxinn karlmaður á eynni. Ófriðr og manndráp eyjarskeggja og síðan einveran hafði fengið mjög á hann. Á hverjum degi gekk hann upp á klett einn á eynni; kallaði hann þar stjörnuturninn sinn, og þar litaðist hann um, hvort hann sæi ekki til skipa, því að hann bjóst alla jafna við herskipi frá Englandi, er mundi sœkja uppreistarmennina frá ‚Bounty, til þess að þeir fengju makleg málagjöld. Árið 1795 hafði skip komið til Pitcairn; höfðu skipverjar farið í land, enn eyjarskeggjar fálu sig og hurfu hinir burt og urðu einskis vísari.

Félagar Adams létu eftir tuttugu börn og kölluðu þau hann öll föður sinn; hann var sem höfuðfaðir þeirra allra, og stýrði einn inni litlu nýlendu. Hann las á hverjum degi í biblíunni og í bœnabók sinni. Iðraði hann mjög þess, hvé illa hann hafði breytt á yngri árum sínum og varð góðr maðr og guðhræddr. Hann varði miklum tíma til að upp ala börnin í dygð og guðsótta. Lifði hann þá ánœgðr og kendi öllum þeim stundum, er hann eigi sat að vinnu. Eyjarfólkið lifði kyrru og tilbreytingarlausu lífi. Allir fóru á fœtr í dögun; í hverjum kofa var svo lesin morgunbœn og tveir kapítular úr biblíunni. Að loknum morgunverði fór hver til sinnar vinnu. Börnin gengu í skólann; þar kendi Adams þeim að lesa og enska tungu. Inir fullorðnu önnuðust jarð-

rækt, fléttuðu hatta úr pálmaviðarblöðum, eða fóru á fiskiveiðar. Konurnar sáu um matreiðslu, eða fléttuðu og ófu dúka úr trjátaugum. Á kveldin var brent kyndlum, er vóru kvistir af kvoðu-tré, er óx á eynni. Engar vóru þar rúður í gluggum, enn mottur vóru hengdar fyrir þá í óveðrum. Te var eigi annað til enn það, er skipverjar höfðu með sér haft til eyjarinnar, og var það eingöngu haft handa sjúklingum. Kókosmjólk var drukkin á hátíðum. Úr sykrreyrsafa var gerðr sætr drykkr handa börnunum. Allir fóru snemma að hátta. Lása og slagbranda þurfti eigi að hafa á Pitcairn.

Svo liðu átján ár, og enginn hafði spurt til Kristjáns og félaga hans frá ,Bounty', og atburðir þeir vóru liðnir mönnum úr minni. Adams bjóst eigi við að sjá framar nokkurn mann af ættjörðu sinni. Enn árið 1808 kom amerískt hvalveiðaskip til Pitcairn. Skipverjar gengu upp á eyna og fundu þar leiðarstein og stundaklukku, er þeir höfðu með sér til menja. Sendi skipstjóri hluti þessa inni ensku sjóliðsstjórn, enn því var eigi frekari gaumr gefinn enn svo, að enn liðu sex ár, áðr Englendingar gerðu út skip í sendiför til eyjarinnar. Adams hugði nú, að Englendingar mundu aldrei vita þangað. Enn einn góðan veðrdag, er hann gekk upp á klettinn, sá hann skip, er stefndi að eynni. Það var freigátan ,Briton', er send hafði verið af ensku stjórninni til Pitcairn til að fá fregnir um skipið ,Bounty' og uppreistarmenn. Þeir vóru nú allir fyrir löngu dauðir, nema Adams, og honum vóru allar sakir upp gefnar, því að síðan 1789 vóru nú liðin tuttugu og fimm ár, og sökin fyrnd. Adams var nú fimmtugr að aldri, enn þrautir og áhyggjur

höfðu fengið svo á hann, að hann var orðinn hvítr fyrir hærum og ellilegr. Staines skipstjóri á ‚Briton‘ kemst svo að orði um Adams og eyjarbúa: »Vér hlutum að dást að inum gamla manni og þeirri föðurlegu umönnun, er hann bar fyrir öllum á eynni. Fólkið alt á eynni var ein fjölskylda, og allir kölluðu Adams föður sinn. Oss furðaði mjög á því, hvé in litla nýlenda var vel ræktuð. Hýbýli eyjarmanna vóru hrein og þrifaleg. Inir ungu menn vóru góðir sundmenn. Þeir komu á móti oss út fyrir brimgarðinn og kölluðu til vor á móðurmáli voru: ‚Viljið þér kasta streng niðr til okkar?‘ Þeir höfðu stráhatta á höfði með svörtum fjöðrum og um mitti sér höfðu þeir klæði úr dúki, er ofinn hafði verið á eynni; annars vóru þeir berir«. Skipstjóri bauð þeim í lyftingu, og veitti þeim mat og drykk; lásu þeir bœnir sínar, sem þeirra var venja, áðr enn þeir tóku til matar.

Skipstjóri skoðaði eyna og litaðist um meðal eyjarbúa. Á eynni vóru nú 46 karlmenn fullorðnir og fjöldi barna. Adams hafði skrásett nöfn allra eyjarmanna í bók, störf þeirra og vinnulaun. Hann hafði sett ýms lög á eynni. Enginn mátti fá sér konu, nema sá er yrkt hafði dálítinn blett af landi og bygt sér hús. Adams hafði og komið á kaupskap meðal eyjarbúa, og seldu sumir aldini og ávexti, enn fengu í staðinn kjöt og fisk.

Níu árum síðar kom enskr skipstjóri, Beechey að nafni, til Pitcairn, og lauk hann sama lofsorði á eyjarskeggja og Staines: »Eyjarbúar eru glaðir og ánœgðir og lifa sældarlífi. Þeir eru mjög gestrisnir og framar enn efni þeirra leyfa. Þeir unnast allir hugástum eins og brœðr, og vér gátum eigi séð, að

siðferði þeirra væri ábótavant í neinu. Vér dvöldum svo langan tíma á eynni, að vér höfðum nœg kynni af eyjarbúum. Á hverjum sunnudegi prédikaði Adams gamli og komu allir eyjarbúar til að hlýða á rœður hans. Inir ungu menn vóru vel vaxnir og hraustlegir, stúlkurnar fríðar og skemtilegar».

Ið eina, sem olli Adams gamla nokkurrar áhyggju, var það, að svo sem fólkið fjölgaði, mundi eyjan brátt eigi hafa nœgilegt uppeldi að veita íbúum sínum. Beechey skipstjóri skýrði ensku stjórninni frá þessu, og lét þá stjórnin flytja sextíu og fjóra af eyjarbúum til Tahiti. Enn þeir undu þar illa hag sínum, og gátu eigi búið við ófrið og siðleysi eyjarmanna. Lifðu þeir þar engan glaðan dag, og langaði alla heim til eyjar sinnar. Margir þeirra dóu í Tahiti, enn hinir vóru fluttir fyrir innilega beiðni þeirra til Pitcarn aftr. Þurfti þá að gera þar ýmsar umbœtr, því að jarðrœktinni á eynni hafði farið mjög aftr á þessu tímabili.

Adams gamli var nú kominn á grafarbakkann. Hann hafði yfirbœtt œskubrek sín, og þegar hann leit yfir allan hópinn, er hann hafði alið önn fyrir, mentað og kent góða siðu, þá var hann ánœgðari enn frá megi segja. Hann andaðist 5. marz 1829, og var þá hálfsjötugr. Varð hann mjög harmdauði eyjarbúum.

Maðr er nefndr Georg Nobbs. Hann var fæddr á Írlandi 1797,, og gekk á unga aldri í herþjónustu á flota Englendinga. Hann hafði reynt margt um dagana, verið í mörgum orrustum og að síðustu í frelsisstríði Chili-manna, er þeir börðust við Spánverja. Hann var maðr hugprúðr og hraustr, og inn mesti mannvinr. Var hann orðinn leiðr á hermensku og

langaði til að búa í ró og næði það sem eftir væri æfinnar. Á ferðum sínum hafði hann fengið fregnir af eynni Pitcairn, og geðjaðist honum svo vel að háttum eyjarbúa, að hann einsetti sér að komast þangað. Enn það var enginn hœgðarleikr, því að sjaldan sem aldrei gengu skip til eyjarinnar. Hann gerði margar tilraunir til að fá sér far til eyjarinnar, enn alt til ónýtis. Vildi hann eigi hætta við svo búið, og heldr leggja líf sitt í hættu enn hverfa frá ráði sínu. Hann fékk sér bát í Peru og bjóst að fara á honum til Pitcairn. Hann lagði af stað frá Callao í Peru og átti fyrir höndum að fara yfir reginhaf, 3000 vikur sjávar. Enn ferðin gekk að óskum, og kom hann heilu og höldnu til Pitcairn eftir 42 daga. Það var 15. nóvember 1828. Adams tók honum feg-ins hendi, og á deyjanda degi fól hann Nobbs á hendr að verða prédikari og kennari á eynni.

Nobbs gegndi trúlega starfa þeim, er honum hafði verið á hendr falinn, og undi nú mjög vel hag sín-um. Þá bar svo við einn góðan veðrdag, að skip kom að landi við Pitcairn. Hét sá Hill, er fyrir því réð, og kvaðst hann vera náskyldr hertoganum af Bedford. Sagði hann, að Victoría drotning hefði sent sig til Pitcairn til að hafa þar landstjórn á hendi og ráða öllum lögum og lofum á eynni. Nobbs sá þegar, að maðr þessi mundi vera falsari, enn eyjarbúar, sem aldrei höfðu lygi þekt, trúðu öllu, sem Hill sagði þeim. Adams hafði kent þeim, að valdstjórninni ætti allir að hlýða, og létu þeir því Hill einn öllu ráða. Gerðist hann þá svo ráð-ríkr, að Nobbs sá þann kost vænstan, að fara brott úr eynni. Skömmu síðan kom skip til Pitcairn, og vildi svo til, að á því var sonr hertogans af Bedford.

Höfðu þeir Hill burt með sér. Þetta frétti Nobbs; hafði hann dvalið í Gambier-eyjum þenna tíma. Fór hann nú aftr til Pitcairn og hélt áfram störfum sínum. Þegar langir tímar liðu svo, að ekkert skip kom til eyjarinnar, skorti eyjarbúa oft ýmsa þá hluti, sem menntaðar þjóðir mega eigi án vera. Þeir létu sér þá nœgja það, er fyrir hendi var og ey þeirra lét þeim í té. Nobbs átti svarta klæðisúlpu; hún var orðin aflóa, enn hann var jafnan í henni þegar hann hafði mest við og átti hátíðlegum kennimanns störfum að gegna. Þá er einhver hjóna-efni ætluðu sér að giftast, fóru þau til Nobbs og sögðu: »Meistari, á sunnudaginn kemr verðið þér að fara í svörtu úlpuna«, og vissi hann þá hvað undir bjó. Allir eyjarbúar kunnu að lesa og skrifa, og frá Englandi hafði verið sendr þangað fjöldi af bókum, og voru þær lesnar rœkilega.

Enn eigi var sífeld sæla í þessari jarðnesku Paradís. Sextánda dag aprílmánaðar 1845 geisaði óðastormr um eyna. Sjórinn gekk á land upp og regni helti yfir eyna, grassverði sópaði á burt, akrarnir biðu óbœtanlegt tjón, þrjú hundruð kókospálmum og fjórum hundruðum brauðaldintrjáa svifti upp með rótum. Fjöldi af húsum eyjarskeggja hrundu, og bátarnir í fjörunni brotnuðu í spón. Eyjarskeggjar fengu að vísu fœrt margt í lag aftr, enn upp frá þessum degi hafði eyjan eigi nœgan forða handa íbúum hennar. Eyjarbúar urðu því fegnir í hvert skifti er skip kom til eyjarinnar, og gengu dögum oftar upp á klettinn, þar sem Adams gamli oft hafði setið. Þegar skip komu, skunduðu allir niðr að sjó og fögnuðu komumönnum, og sjómenn sýndu eyjar-

búum meiri kurteisi og virðingu enn þeim annars er tamt í Kyrrahafs-eyjum.

Eyjarskeggjar höfðu lýðstjórn, og hafði einn maðr yfirstjórn á hendi og með honum tveir ráðherrar. Stjórn eyjarbúa sendi nú beiðni til ensku stjórnarinnar og fór þess á leit, að Nobbs mætti taka prestvígslu í Englandi. Komast þeir svo að orði í bónarbréfi sínu:

»Hr. Nobbs hefir nú í 19 ár verið prédikari vor og kennari, og fáum vér hvorki fullþakkað né metið alúð hans og iðju. Enn hann hefir eigi þegið prestsvígslu né prédikarasýslun hjá kyrkju þeirri, er vér heyrum til. Söfnuðr vor er nú 138 manns (71 karlmaðr og 67 konur) og stœkkar meir og meir. Vér leyfum oss því að beiðast þess, að Nobbs verði vígðr prestsvígslu«.

Árið 1852 kom enskr sjóliðsforingi, að nafni Moresby, til Pitcairn. Hann segir greinilega frá eyjarbúum: »Ég hefi orðið margs vísari á sjóferðum mínum, enn ekkert hefir orðið svo ríkt í huga mér, sem koma mín til Pitcairn. Ég þreifaði þar á guðs almættishönd í stóru og smáu. Ég kom þangað til að sœkja prédikara eyjarskeggja, er fara átti til Englands til að taka prestsvígslu. Eyjarmenn fá nálega allar nauðsynjar sínar, þær er eigi eru að fá á eynni, hjá hvalveiðamönnum frá Ameríku. Mig furðaði á því, er eg heyrði, að sjómenn hegða sér jafnan siðsamlega á Pitcairn. Ég sagði einum háseta minna frá þessu, er var drengr góðr, enn heldr ófyrirleitinn, og svaraði hann mér því: »Ef nokkurir af félögum vorum hegða sér illa *hér*, þá skulu þeir sjálfa sig fyrir hitta«. Eyjarbúar þessir eru svo saklausir, einaldir og blátt áfram, að því verðr ekki með orðum

lýst, og samt eru þeir vel að sér í ritningunni. Eg var 4 daga á eynni, sem er smádepill í inum mikla útsæ og mænir upp úr hafinu sem nokkurs konar jarðnesk Paradís. Enginn gat tára bundizt, er vér fórum þaðan». — Allir þyrptust utan um inn hálfáttræða sjóliðsforingja þegar hann var að kveðja, og grétu fögrum tárum og báðu hann í einu hljóði að vitja þeirra aftr næsta ár. Skipið kvaddi eyna með 21 fallbyssuskoti; flotamerkið blakti tigulega á siglutoppnum og skipið lagði af stað með Nobbs. Í stað hans varð skipsdjákninn eftir, svo að veslings-fólkið skyldi eigi vera föðurlaust í fjarveru hans. Eftir 26 ára burtveru kom Nobbs í október 1852 til Lundúna, enn margbreytnin og hávaðinn í borginni, þar sem alt var svo ólíkt því, er hann hafði lengi átt að venjast, hreif eigi á huga hans. Hann var hógvær og alvarlegr, þýðr í framgöngu og lítillátr; var hann orðinn svo rór í skapi eftir ina löngu dvöl sína á Pitcairn, að ekkert af því sem fyrir augun bar fékk framar á skapsmuni hans. Hann langaði til eyjar sinnar aftr. Lundúnabyskup veitti honum vinsamlegar viðtökur og vígði hann hátíðlega til prests á eynni. Victoría drotning talaði jafnvel sjálf við hann, og öll Lundúnaborg sýndi honum og inum ástúðlegu förunautum hans öll virðingarmerki, svo sem þeir áttu skilið. Sendu Englendingar með honum til eyjarinnar dálítið lyfjasafn (apótek), aktygi, húsgögn, eldhúsgögn, söngfugla, kyrkjuklukku og organ. Nobbs kom aftr til Pitcairn með heilu og höldnu, og hafði þá verið í burtu hálft annað ár. Urðu eyjarmenn honum fegnari enn frá megi segja, og glöddust mjög er þeir sáu gjafir Englendinga. Hér á ofan bættist það, að sjóliðsstjórnin hét söfnuðinum vernd sinni

og félag eitt sá Nobbs fyrir 1900 kr. tekjum árlega; þótti þá eyjarskeggjum sem alt væri fengið og öllu borgið um aldr og æfi á Pitcairn.

Þó átti þetta ástúðlega og friðsama líf að taka enda innan fárra ára. Árið 1856 var allr fólksfjöldinn á eynni 170 manns; þar af vóru 88 karlkyns. Nýlendunni stýrði yfirmaðr, sem ásamt tveim ráðgjöfum réð nálega öllum málum til lykta. Væri einhver óánœgðr með úrskurð þeirra, mátti skjóta málinu undir eiðsvarin dóm, er sjö eyjarskeggjar sátu í, og ef þeir, er hlut áttu að málum, eigi vildu hlíta dómi þeirra, þá var skipstjóri á ensku skipi, því sem næst bar það að, œðsti dómari í málinu. Áfengir drykkir máttu ekki koma á land á Pitcairn. Allir höfðu sömu smíðatólin og sömu sleggjuna og gengu þau áhöld hús úr húsi milli eyjarskeggja. Alifuglarnir á hverju heimili urðu að vera með vísu marki á fótum til þess að hver þekti sitt fjaðrfé. Peningar sáust varla á Pitcairn; þar var því varla önnur verzlun, enn vöruskifti, og var t. d. ákvæðisverð jarðeplatunnunnar 8 krónur; vinnulaun vóru 2 kr. á dag.

Pitcairn, þessi litla ey í inum mikla útsæ, fékk loks eigi lengr borið mannfjöldann; síðan voðastorminn 1845 hafði hagr eyjarskeggja alt af farið versnandi. Moresby sjóliðsforingi hafði þegar 1852 bent á það, að rœktunar-ávextir væri að rýrna, uppskeran að minka og vatnslindir að þverra. Enska stjórnin sá nú, að eyjarbúar mundu neyðast til að flytja burtu, ef þeir ætti eigi að deyja úr hungri. Valdi stjórnin Norfolk-ey, sem liggr langt vestr frá Pitcairn, milli Nýja-Sjálands og Nýja-Hollands; er það frjósöm ey, skógivaxin, heilnæm og veðrsæl og nœgi-

lega stór fyrir þúsund manns. Norfolk-ey var útlagastaðr og lastabœli og höfðu Englendingar flutt þangað stórglœpamenn. Enn nú var þessi lýðr fœrðr á braut og Pitcairn-búar fluttir þangað í október 1856. Ekki vitum vér, hversu þessir góðu eyjarbúar una hag sínum í þessum inum nýja bústað. Að því er enn hefir spurzt þaðan, má þó ætla, að þeir búi þar í friði og eindrægni ekki síðr enn á Pitcairn. Það má jafnvel sjá það á Pitcairn-búum, að þeir eru kynblendingar af Englendingum og Tahiti-búum; hörundslitrinn er ljósmórauðr, enn í andlitsfalli eru þeir líkari norðrálfumönnum. Flestir eru þeir all-snotrir og allir liðlega vaxnir. Klæðaburðr þeirra er einfaldr og léttr. Karlmenn eru í skyrtum og knésíðum brókum með hatt á höfði, enn á sunnudögum hafa þeir sokka og skó. Konur bera aðskorinn kyrtil og þar yfir kápu, sem liggr í fellingum. Hárið binda þær í knút og skreyta blómum.

Nú drynja œðandi-bylgjur úthafsins einróma kring um þessa eyði-ey, sem framan af var sjónarsvið blóðugra bardaga og síðan heimkynni hamingju og friðsemi; enn frá sjónbergi Adams gamla skygnist nú ekki framar neinn vingjarnlegr eyjarbúi eftir skipaferðum. Þessi hólmi, sem var svo kappsamlega ræktaðr, er nú í eyði; sjófarendr eru nú hættir að lenda þar; þeir halda fram hjá og hugkvæmist varla, að á þessum einmana hólma í Suðrhafinu hafi eitt sinn búið einhver inn sælasti mannflokkr í heimi.

[*Valdimar Ásmundarson* þýddi].

---

# Sagan af séra Hreini.

Eptir

George R. Sims.

Við þjóðveginn, sem liggr frá þorpinu *Audrey End* (odrí end) til *Lundúna*, — frá inu kotbæjarlegasta þorpi í Hertfurðu-skíri til innar voldugu Babýlónar—liggr prestsetr eitt undarlega forneskjulegt. Á sumrin vefjast rósirnar utan um dyrastafina og yfirbogann á hliðinu; fögr og forntízkuleg blóm vaxa í forgarðinum fram undan húsinu og fylla þau loftið sætri angan; þá staðnæmist ferðamaðrinn oft, sem á leið um farinn veg þar fram hjá, hallar sér upp að lága steingerðinu og starir undrandi á það, sem við honum blasir. En á vetrinn hverfa rósirnar, þá ýlir stormrinn í blaðlausum trjánum og djúpir snjóskaflar kringja um á alla vegu; þá hraðar ferðamaðrinn sér enn meir, sem leið á þar hjá, og sveipar sem bezt að sér yfirhöfninni, því að þá liggr húsið svo einmana, að það kemr í hann kuldahryllingr allan rétt við að sjá það.

Það fylgir saga þessu prestsetri, og hana getr hvert manns-barn í Audrey End sagt þér. Það var á aðfangadagskvöld jóla fyrir átta árum, að séra Hreinn gamli stóð fölr við bogagluggann stóra og horfði út á eftir einka-syni sínum Eiríki, sem var í

rauninni góðr drengr; hann gékk nú þjóðveginn frá föðurhúsum og stefndi til Lundúna. Þeir feðgar höfðu skilizt í reiði án þess að kveðja hvor annan og hvorugum orðið nokkurt mildandi sáttarorð af munni.—Og upp frá þeim degi kom enginn Eiríkr framar fram úr þeirri gráu þoku, sem á haustin og vetrinn legst eins og slæða yfir brúnirnar á Audrey-hæðunum.

Það var þessi gamla saga:—gjálífi æskunnar, heitt blóð í ungum æðum, glappaskot á glappaskot ofan, þar til loks að langlundargeð föður hans þraut, svo að hann vildi ekki fyrirgefa framar. Feðgarnir urðu báðir sáryrtir; Eiríkr var fríðr maðr sýnum, en andlit hans afmyndaðist af reiðinni, og í stórlátri og skammsýnni blindni sagði hann skilið við átthaga og ættingja. Hann yfirgaf sín föðurhús og sór þess eið, að láta aldrei sjá sig þar framar. Upp frá þeirri stund var prestrinn orðinn alt annar maðr. Hann var einn, aleinn í inu stóra húsi með skozku Jóhönnu, sem verið hafði honum trútt og dygt hjú í þrjátíu ár; hún hafði tekið Eirík ný-fæddan úr örmum móður hans andaðrar og elskað hann og upp-fóstrað, eins og hefði hún sjálf átt hann.

Yfir arninum í hversdags-stofunni hangir málverk. Það er mynd af bláeygum, sex ára gömlum dreng með gullna lokka. Jóhanna gamla starir oft á það þangað til hún er orðin rauðeygð, því að það er barnið hennar, fallegi drengurinn hennar, sem hún elskaði eins og hún hefði verið móðir hans. Það var sami inndæli drengrinn, sem óx upp og varð fríðr unglingr, særði svo banasári hjarta föður síns, fór til Lundúna og gjörði aldrei vart við sig framar.

En Jóhanna gamla hafði nóg að gjöra; annars

hefði hjartasár hennar ef til vill orðið jafn-hættulegt. Því að ár frá ári varð húsbóndi hennar gamli æ undarlegri og meir og meir utan við sig. Sóknarfólkið hristi höfuðið, þegar rugl kom á prestinn í miðri ræðunni eða honum skeikaði í hinu eða þessu í messugjörðinni. »Nú er hann að hugsa um son sinn«, sagði fólkið þá; »það er farið að slá út í fyrir honum«.

Og sóknarfólkið hafði satt að mæla. Smám saman jafnt og stöðugt fór meir og meir að »slá út í« fyrir séra Hreini gamla. Heima gat hann setið stundunum saman niðr sokkinn í hugsanir, án þess að taka eftir Jóhönnu gömlu, sem gjörði alt til að vekja hann af þessu hugarvingli, eða þá til að lokka hann að borðinu með inum gömlu skozku réttum, sem hún kunni svo vel að matreiða og honum hafði eitt sinn þótt svo mikið til koma.

Það var sorgleg og þung æfi, sem hún átti, veslingr; árin liðu og dag frá degi varð hennar kæri, gamli húsbóndi máttfarnari og meira utan við sig, og sökti sér æ meir og meir niðr í endrminningar ins umliðna tíma.

Ið fölva andlit hans, sem alt af beið við gluggann eftir syninum, sem aldrei kom, varð alkunnug sýn þorpsbúum í Audrey End. Börnin litu hornauga upp í gluggann, þegar þau géngu þar fram hjá á leiðinni í skólann, því að menn kvisuðu um það sín á milli, að prestrinn væri »utan við sig«, »geðveikr« eða »brjálaðr«. Börnin fengu veðr af þessu kvisi, og stóð þeim hálfpartinn geigr af prestinum. Loks breiddist fregnin um geðveiki séra Hreins út um bygðirnar þar í grend, og í öllu héraðinu var þetta haft á orði, drykkju-gestirnir á veitingahúsunum í

þorpinu báru fregnina út um alt og ýktu jafnan frásögnina að nokkru, þangað til séra Hreinn gamli í Audrey End var ekki kallaðr annað í öllu héraðinu en »vitlausi prestrinn«.

Loks barst þetta til eyrna Jóhönnu gömlu; það var í þorpinu á aðfangadag jóla, að hún heyrði það fyrst, og hrylti hana við. Hún hafði til þessa reynt að dylja sjálfa sig þess, að svona væri komið; hún hafði reynt að telja sjálfri sér trú um, að sér skjátlaði í því, sem henni sýndist vera, og að inn gamli húsbóndi hennar væri að eins þunglyndr og utan við sig. En nú er hún sá, að hver maðr vissi það, þá gat henni ekki dulizt það lengr. Og hvað skyldu þeir nú gjöra við blessaðan öldunginn, ef hann yrði alveg óðr? Það var svo sem auðvitað:—flytja hann miskunnarlaust á einhvern vitlausra-spítala, þar sem ókunnir menn mundu verða honum ómildir, og þar yrði hann að enda æfi sína í eymd og volæði, eins og fangi, undir gæzlu tilfinningarlausra sjúkravarða.

Jóhanna gamla flýtti sér út úr búðinni, þar sem hún hafði heyrt þessi þungu orð gálauslega töluð. Hún var rauðeygð og grátþrútin, er hún kom heim á prestsetrið.

Séra Hreinn hafði í langa tíð fyrirfarandi ekki getað stundað sjálfr embætti sitt; hann hélt aðstoðarprest, sem gjörði öll prestsverkin, og var það ekkert létt verk, því að eitthvað sex fjarliggjandi þorp áttu sóknarkyrkju að sækja til Audrey End, og var kallið allerfitt yfirferðar, en ferðalög tíð í svo fjölmennri sókn[1]. En aðstoðarprestrinn var bæði góð-

1) Í Englandi er það tízka, að prestrinn komi iðulega á

menni og hraustmenni og skoraðist aldrei undan aukastörfum þeim, er á hann hlóðust. Hann vitjaði gamla prestsins á hverjum degi og var jafnan vinalegr við hann og hughreysti hann. Nú síðast var hann þó farinn að hrista höfuðið og verða áhyggjufyllri.

Þegar Jóhanna gamla kom heim úr þorpinu þetta kvöld, var aðstoðarprestrinn inni hjá húsbónda hennar. Gamli prestrinn leit upp, þegar Jóhanna kom inn, og horfði spurnaraugum á hana, og var undarlegt fjör í augnaráðinu, sem annars var svo sljótt. »Á,« sagði hann; »það er þá ekki Eiríkr? Ég hugsaði það væri hann. Í kvöld kemr hann«.

Jóhanna leit til aðstoðarprestsins, eins og til að leita ráða. »Talið þér eins og hann vill heyra!« hvíslaði aðstoðarprestrinn að henni; »það er einhver sá svipr yfir honum, að ég er hálfhræddr við hann«.

»Hvað eiga þessar hvíslingar að þýða!« sagði gamli prestrinn byrstr og hálfreis við í hægindastólnum; »ég er einmitt að segja ykkr það, að Eiríkr kemr í í kvöld — yfir hafið — langt að — úr þúsund mílna fjarlægð kemr Eiríkr minn í kvöld. Jóhanna! hjálpaðu mér út að glugganum, ég ætla að horfa eftir honum«.

Honum var ekið að glugganum í hægindastólnum, og þorpsbúar, sem fram hjá gengu, sáu gamla prestinn með föla andlitið, sem alt af beið og beið — beið með þreyjandi vonaraugum eftir drengnum sínum, sem loksins átti að koma aftr.

Aðstoðarprestrinn bað Jóhönnu gömlu að láta ekki

---

hvert heimili, eru það í einu bæði eins konar húsvitjanir, og svo til að líta eftir, áminna og hugga. *Þýð.*

prestinn vera einan, því að sér litist ekki vel á þetta síðasta kast í honum. Hann horfði á gamalmennið, er sat hreyfingarlaus við inn stóra bogaglugga, og svo læddist hann út; því að hann átti enn eftir að vitja tveggja fjarliggjandi heimila þann dag.

Það var alsnjóa, og þokan steingrá breiddist æ þykkara og þykkara yfir; daglaunamennirnir, sem verið höfðu að vinnu á bændabýlunum, géngu fram hjá í rökkrinu heim til þorpsins til kvenna sinna og barna. Og enginn þeirra var sá, að eigi liti hann upp í bogagluggan, um leið og hann gékk fram hjá, og tautaði eitthvert hlýlegt hluttekningarorð fyrir munni sér, þegar hann sá gamla prestinn gráan fyrir hærum þrýsta fölva andlitinu út að rúðunni mœnandi og bíðandi eftir, að drengrinn hans kæmi fram úr þokunni á Audrey Hill.

Jóhanna gamla var í óða önnum að búa alt undir jólin. Tárin runnu niðr eftir hennar hrukkóttu kinnum meðan hún var að hengja upp mistilteininn í forstofuna.[1] Hvar skyldi nú veslings húsbóndi hennar verða næstu jól? Um það var hún sífelt að hugsa og fékk það henni svo mikils hugarangrs, að hún varð skapstygg við lítið stúlkubarn frá bóndabæ þar í grendinni, sem var að hjálpa henni með það, sem hún þurfti að gjöra, og var hún önug við hana, svo að stúlkan varð hálfhrædd. En hana iðraði þess að vörmu spori og klappaði hún þá stúlkunni aftr, var góð við hana og gaf henni allra handa sælgæti.

»Jóhanna!«

1) Það er enskr þjóðsiðr, að skreyta hús sín með mistilteinum á jólum. *Þýð.*

Það var séra Heinn, sem var að kalla. Jóhanna heyrði það, því hún hafði skilið hurðina eptir í hálfa gátt, meðan hún var frammi.

Gamli presturinn sat enn við gluggann. En það var orðið svo dimt úti, að hann gat ekki lengr séð veginn til Lundúna.

»Jóhanna,« sagði hann þreytulega, »flyttu mig að arninum! Ég ætla að reyna að sofna dálítið í stólnum. Vektu mig þegar Eiríkr kemr. Hann kemr í kvöld, — hann kemr í kvöld«.

»Já, húsbóndi góðr,« sagði hún blíðlega, »það getr verið hann komi, — það getr vel verið«.

»Sko, Jóhanna,» sagði séra Hreinn og benti með titrandi hendi á máluðu myndina af drengnum með gullnu lokkana, sem hékk yfir arninum. »Þetta er hann Eiríkr minn; manstu eftir honum, Jóhanna? Það eru hundrað ár síðan hann fór frá mér«.

Jóhanna þagði, en flýtti sér út úr stofunni, því að hún gat ekki dulið geðshræring sína, en vildi ekki angra séra Hrein með því, að láta hann sjá, hve nærri henni félli þetta.

Séra Hreinn hallaði sér nú aftr í hægindastólnum, krosslagði hendrnar á brjósti sér og starði á Eirík litla — Eirík s i n n, drenginn sinn með gullnu lokkana, sem hann þóttist vita að kæmi í kvöld. Svo smálygndi hann aftr augunum og sofnaði fast. — — Stóri vísirinn á klukkunni færðist í kring hvern hringinn eftir annan, og alt af svaf séra Hreinn. Hann var að smátala upp úr svefninum og nefna Eirík sinn. Drengrinn var stiginn fram af inu dauða lérefti málarans; faðir hans sat með hann í draumi og hossaði honum á kné sér.

Gamla Jóhanna smágægðist inn ofrhægt, en þeg-

ar hún sá húsbónda sinn sofa, þá vildi hún ekki raska ró hans.

Klukkan var nú sjö.

Þá var barið hægt að dyrum. Jóhanna lauk upp sem hljóðlegast, til að vekja ekki prestinn. Úti stóðu þrjár manneskjur: karlmaðr fullorðinn, kona og drengr. Karlmaðrinn var aðstoðarprestrinn.

»Má ég tala orð við yðr í einrúmi, jómfrú Jóhanna?« sagði aðstoðarprestrinn. »Hvar er prestrinn?«

»Hann sefr inni í stofunni,« sagði Jóhanna, og furðaði sig á, hvaða gestir það væru, sem aðstoðarprestrinn kæmi með svo síðla kvölds.

Aðstoðarprestrinn benti konunni, sem úti var með drenginn, að koma inn. Jóhanna var alveg hissa og bauð þeim inn í eldhúsið. En hún hrökk saman, þegar þau komu inn, svo að birtan féll á andlitið á litla drengnum, sem var auðsjáanlega hálf-feiminn og hélt í kjól mömmu sinnar. Jóhanna strauk hendinni um augum, féll svo á hné og fölnaði upp og starði á barnið. »Er það svipr eða vofa, sem þér komið hingað með í kvöld?« sagði hún við aðstoðarprestinn. Eða hafa mín gömlu augu svo lengi starað á þetta eina andlit í endrminningunni, að mér sýnist nú öll barna-andlit líkjast því?«

»Farið þér nú hægt, Jóhanna mín!« sagði aðstoðarprestrinn; »það er merkileg saga, sem þessi kona hefir yðr að segja. Ég hitti hana áðan í þorpinu; hún spurði mig til vegar hingað. Litli drengrinn er sonr Eiríks ykkar, sem hvarf, og þessi kona er konan hans«.

»Og h a n n—blessað barnið mitt—hvar er h a n n?« mælti Jóhanna nú ákaft og tók í hönd konunnar.

»Segið þér mér að hann bíði hér úti eftir fyrirgefningu föður síns; segið þér mér, að hann sé hér! Þér svarið mér ekki—hvar er hann þá? Ó, barnið mitt —inndæla barnið mitt—segið þér mér, að hann sé hér!«

Konan ókunna lyfti nú blæjunni frá andliti sér, og Jóhanna sá, að hún var fríð kona sýnum, en tárin runnu nú niðr kinnar hennar. »Æ,« sagði konan kjökrandi, »maðrinn minn er dáinn«.

Jóhanna gamla hné nú niðr á stól og hélt höndunum fyrir andlit sér.

Ókunna konan, sem hafði setið, stóð nú upp og tók blíðlega í hönd innar gömlu bústýru. »Heyrið þér mér, Jóhanna,« sagði hún: »takið þér eftir því, sem ég segi, Jóhanna mín góð! Eiríkr minn sagði mér frá yðr, og að þér hefðuð verið sér meira en í móður stað. Ég flyt yðr síðustu kveðju hans; skilnaðarkoss hans, — inn síðasta koss, sam hann kysti mig, — átti ég að færa föður hans«.

»Svo hann er dáinn!« sagði Jóhanna grátandi og hristi höfuðið,—»dáinn! Og faðir hans, sem hefir vonað og vonað öll þessi þungbæru ár! Æ, já, ég hefi líka vonað og vænt! Og svo eigum við aldrei að fá að sjá hann framar hér megin grafarinnar! Ó, barnið mitt! Inndæla barnið mitt!«

»Ég kem í kvöld með boð frá honum; ég flyt ykkr síðustu orðin, sem komu af vörum hans«, sagði konan. »Ég er komin langt að yfir reginhafið, til þess að segja föður Eiríks, að hann bað fyrir honum og blessaði hann á dauðastund sinni. Þegar hann lá banaleguna, sagði hann mér í fyrsta sinni frá misklíðinni milli sín og föður síns«.

»Því skrifaði hann okkr aldrei—æ, því skrifaði hann

okkr aldrei?« sagði Jóhanna og hélt forklæðinu fyrir augun.

»Hann vildi ekki skrifa. Hann hafði strengt þess heit, að faðir sinn skyldi aldrei frétta til sín framar. Það var syndsamlegt og miskunnarlaust. Hefði ég vitað af því, skyldi honum ekki hafa haldizt það uppi. En á banasænginni lægðist stórmennska hans, þá sigruðu inar fornu endrminningar um átthaguna, og síðustu augnablikin, sem hann lifði, bað hann mig að fara til Englands með barnið okkar og setja það á kné afa síns«.

Meðan konan sagði þetta, tók hún sveininn og setti hann í kjöltu sína, leysti trefilinn af hálsinum á honum og tók af honum hattinn. Þá hrundi straumr gullinna, hrokkinna lokka niðr um herðar hans. Aðstoðarprestrinn varð forviða; Jóhanna starði á barnið eins og hún sæi anda frá öðrum heimi.

»Þetta er einmitt barnið mitt!« kallaði hún upp yfir sig; »það er barnið mitt! Þér þekkið myndina yfir arninum í stofunni? Er það ekki einmitt sjálft inndæla barnið mitt?«

»Jú, mikið fjarskalega getr þetta verið líkt«, svaraði aðstoðarprestrinn, og virti nákvæmlega fyrir sér sveininn; — »ég er nú alveg hlessa! Það er eins og myndin væri stigin lifandi fram úr umgjörðinni«.

Jóhanna sagði nú ekkjunni frá, að prestrinn svæfi, og frá því, hversu hann væri farinn að verða hálfbrjálaðr af tómum söknuði og þrá eftir syni sínum, og svo frá því, að hann hefði sagt, að Eiríkr kæmi heim í kvöld.

Aðstoðarprestrinn ungi sat hugsandi um hríð. Hann var að hugleiða, hvernig bezt yrði að farið að segja gamla prestinum lát sonar hans, og láta hann

vita, að ekkja hans og barn væri nú komin þar á heimilið.

»Látið þig mig fá barnið!« sagði Jóhanna gamla alt í einu, og tók Eirík litla í fang sér og kysti hann innilega. »Bíðið þið hér á meðan! Ég skal sjálf annast um alt saman.«

Ekkjan félst á það, sem Jóhanna vildi, og sagði hún við drenginn, að hann skyldi ekki vera hræddr, en fara inn með góðu konunni og heilsa afa sínum.

Eiríkr litli hafði heyrt talað um veslings gamla afa, sem hann ætti að fara að finna; og meðan skipið var á ferðinni yfir Atlanzhafið, hafði hann oft spurt, hve nær þau kæmu nú til Englands, þar sem afi ætti heima. Hann kysti nú á fingr sér og sendi mömmu sinni brosandi þá kveðju, og lofaði Jóhönnu, sem var svo undr góð við hann, að bera sig í fanginu inn í stofuna, þar sem afi hans sat.

Séra Hreinn svaf enn. Jóhanna setti drenginn gætilega niðr við hliðafa síns, og bað hann að tala ekkert, fyr en afi hans vaknaði. Svo settist hún sjálf fyrir framan eldinn, eins og hún hafði verið vön að gjöra fyrrum, meðan Eiríkr hennar var barn. Svo söng hún með sinni gömlu rödd skozkt kvæði undir viðkvæmu og áhrifamiklu lagi, en það kvæði hafði verið uppáhalds-söngr Eiríks á æskuárum hans. Smátt og smátt fór prestrinn að tala upp úr svefninum. Orð og lag kvæðisins, sem honum voru kunn að fornu fari, fléttuðust nú í draum hans. »Syngdu fyrir hann, Jóhanna«, sagði hann upp úr svefninum; »syngdu fyrir hann! Syngdu fyrir Eirík!«

Þegar drengrinn heyrði nafn sitt nefnt, leit hann upp og tók hægt í hönd afa síns. Séra Hreinn fór

nú að opna augun nokkuð seinlega; loks leit hann niðr fyrir sig.

Eitt augnablik sat hann svo alveg agndofa. Svo lyfti hann upp titrandi höndunum og snéri á sér augun og horfði forviða á barnið, sem stóð rétt hjá honum.

»Eiríkr minn!« kallaði hann svo upp yfir sig, tók barnið í fang sér og faðmaði það að sér. »Eiríkr minn—loksins! loksins!«——Tárin streymdu af augum hans; hann huldi andlit sitt í inum gullnu lokkum sveinsins og grét eins og barn.

Eiríkr litli varð hálfsmeikr og hljóðaði upp yfir sig.

»Hjartað mitt! Barnið mitt!« sagði gamli prestrinn og leit nú upp; »þú ert Eiríkr minn; er það ekki? Mig hefir dreymt—ljótan, óttalegan draum! Mig dreymdi þú værir orðinn fullorðinn og hefðir yfirgefið mig, veslings gamla föður þinn, dauðvona. En þú ert Eiríkr; er það ekki? Talaðu—talaðu! Láttu mig heyra að þú sért ekki svipr, sem kominn er til að gabba mig!«

»Ég heiti Eiríkr,« sagði barnið hikandi. »Ert þú afi minn?«

»A f i!«

Séra Hreinn sat augnablik þegjandi, hélt sinni skjálfandi hendi á höfði barnsins og starði upp á myndina, sem hékk fyrir ofan arninn. — Jóhanna hafði horft þegjandi á til þessa, en nú gékk hún hægt til þeirra.

»Húsbóndi góðr,« sagði hún og lagði höndina á öxl honum. »Þetta er sonarsonr yðar. Faðir hans hefir sent yðr hann yfir Atlanzhaf. Þér sögðuð, að Eiríkr yðar kæmi í kvöld. Hér sendir drottinn yðr

hann; því að er ekki þetta Eiríkr? Er þetta ekki sama bláeyga barnið með gullnu lokkunum, sem faðir hans var?«

Gamli prestrinn var orðinn rjóðr í framan af geðshræringunni; augnaráðið lifnaði við, og það var eins og honum geislaði af hvarmi. Þessi snögga gleði, þessir óvæntu samfundir höfðu vakið sálaröfl prestsins af geðveikis-dvalanum; hann tók nú smátt og smátt að skilja rétta samanhengið í öllu. »Nú skil ég þetta,« sagði hann viðkvæmt; »Eiríkr minn er dáinn; þetta er sonr hans«.

Jóhanna læddist nú fram úr stofunni og skildi þá eina eftir séra Hrein gamla og Eirík litla.— — —

Um kvöldið var öll sagan sögð.

Um kvöldið hlýddi séra Hreinn, sem nú var með öllu ráði, á tengdadóttur sína, er hún sagði honum ina undarlegu sögu um flótta Eiríks og síðari æfi hans. Hún sagðist hafa hitt Eirík í Ameríku, og þar höfðu tekizt ástir með þeim. Hún vissi, að hann var Englendingr, en meira vissi hún ekki um ætt hans né átthaga. Skömmu eftir brúðkaupið fluttu þau til Kaliforníu; græddi maðr hennar þar fé við námafyrirtæki, sem síðar varð heimfrægt. Þar fæddist Eiríkr litli og þar lagðist maðr hennar í sjúkdómi þeim, er dró hann til dauða. »Á banasænginni«, mælti hún, »sagði Eiríkr mér frá öllu. Hann sagði mér þá frá ágreiningi sínum við yðr, og kvaðst hann hafa verið svo stórlátr til þessa, að sig hefði aldrei iðrað heits þess, er hann sór, að láta yðr aldrei framar til sín frétta. En þegar hann lá banaleguna og sá dauðann nálgast, þá mýktist hjarta hans og hann þráði mjög að sjá yðr og geta beðið yðr fyrirgefningar. ‚Taktu Eirík litla‘, sagði

hann; ,taktu barnið, þegar ég er dáinn, og farðu með það til Englands, til þorpsins þar sem faðir minn á heima, og segðu honum, að á banasænginni hafi ég blessað hann og beðið hann að fyrirgefa mér'... Svo rétti ég honum drenginn okkar og hann kysti hann, og bað hann að flytja þann koss afa sínum austr um haf, og segja honum að sá koss væri frá Eiríki hans«.

Um leið og ekkjan lauk máli sínu, lyfti hún sveininum upp á kné séra Hreins, og barnið kysti afa sinn.

---

Það er komið sumar og rósirnar eru í blóma yfir garðshliðinu á gamla prestsetrinu, sem liggr við þjóðveginn inn til Lundúna. Loftið er fult af ilm af angandi blómum; yfir moldrykugan þjóðveginn hellir sólin glöðum geislum.

Í stóra bogagluggamum sést enn þá andlit mæna út um rúðuna; það andlit þekkir hver maðr í grendinni. Það er andlitið á séra Hreini gamla; en það er ekki sama fölva, magra, áhyggjufulla andlitið, sem til forna; nú var hann blómrjóðr í kinnum og bros lék á vörunum. Hann er að horfa yfir á brúnina á Audrey Hill. Hann er að bíða eftir Eiríki, og nú bíðr hann ekki árangrslaust. Drengrinn kemr hlaupandi heim að húsinu berhöfðaðr og gulu lokkarnir hrokknu blakta í sólskininu; hann hefir litlu hendrnar fullar af blómum, sem fólkið í þorpinu hefir gefið honum. Á eftir honum kemr fríð kona og stillileg; það er móðir hans ...... þá flýtir afi hans sér út að hliðinu, tekr sveininn í fang sér og kyssir hann. Skömmu síðar kveðr við í stofunum í gamla prestsetrinu af hlátri sveinsins og hlaupum.

Nú er þetta ánægju-heimili. Jóhanna gamla er nú farin að þreytast og verðr fegin að afhenda ráðskonustörfin inni ástúðlegu konu, sem flutti heimilinu sólskin ánægjunnar vestan um haf. Hún er ástrík dóttir gamla prestinum, sem varð að þreyja barnlaus í átta þungbær ár.

Eiríkr sonr séra Hreins var að vísu dáinn, en eina jólanótt kom kona hans og sonr fram úr þokunni, sem hékk yfir Audrey-hæðinni. Við komu þeirra fékk séra Hreinn aftr fult ráð og rænu og naut hann síðan yndis og ánægju til æfiloka.

[*Jón Ólafsson* hefir þýtt.].

---

# Karfan.

Eptir ítalskan höfund *Alberto Pisano.*



Það var eins einfalt og hugsazt getur. Því skoðaðu nú til; jeg geng inn í örmjótt stræti og rekst fram á konu háaldraða og fremur smávaxna, sem situr þar grafkyr og hreifingarlaus undir háum körfuhlaða. Ein karfan var oltin frá henni og veslings konunni var ómögulegt að beygja sig niður til að ná henni, annaðhvort af því ellin hafði gert hana of stirða til þess að lúta niður, eða þá af því hún var hrædd við að raska inu haglega hleðslujafnvægi

hinna karfanna. Á þröskuldi andspænis gömlu konunni sat unglingsmaður reykjandi pípu sína og glotti að henni öðru hverju.

Það, sem jeg gerði, mundir þú líka hafa gert í minn stað; jeg segi það enn þá einu sinni, þetta var svo dæmalaust einfalt og óbrotið. En samt sem áður, þegar jeg gekk þaðan leiðar minnar, þá fann jeg til einhverrar sjerlegrar ánægju í innsta afkima hjarta míns. Undrun gömlu konunnar yfir því, að heldri maður skyldi hafa orðið til að sýna sjer þvílíka vinsemd .... og þau hjartnæmu þakkarorð, sem hún ljet þar með fylgja, þetta ljet ekki af að endurhljóma í mínum innra manni. Og hafði hún ekki líka þar á ofan heitið mjer umbun annars heims?

En við þurfum ekki að ómaka okkur úr þessum heimi, sem við erum í; sjerhvert góðverk ber ávöxt bæði þeim til handa, sem gott gerir, og þeim, sem góðverksins nýtur. Ef jeg á að segja fyrir sjálfan mig, þá gat jeg aldrei ætlazt til meira. En jafnframt hugsaði jeg til inna stórríku nöldrunarseggja, sem vita ekki, hvar þeir eiga að kaupa eyrisvirði af ánægju handa hjarta sínu; jeg kendi í brjóst um þá og spurði sjálfan mig með undrun, hvernig á því gæti staðið, að ekki sjálfselskan einmitt knýði þá til að gera öðrum dálítið gott.

Og enn þá eru svo margar körfur til að taka upp í heimi þessum.

*(Stgr. Th.).*

## K v æ ð i.

---

### Morgunstund í öræfum.

Man eg, milda morgunstund
Átti' eg mér upp í óbygða fjalldölum mærum,
Vakinn værum þá af blund
Var eg morguns í ljómanum skærum.
Kysti fagran fjallatind
Glæstri með geisla dýrð glaður álfröðuls ljómi,
Söng á silfurblárri lind
Svanur skærustum unaðar hljómi,
Þar var alt svo frjálst og frítt,
Fagurt, veglegt, glatt og blítt;
Íslands æskudýrðin hrein
Endurvakin í draumi þar skein.

Eins var sem eg sæi þá
*Þórir* með stálastaf standa' á tindinum háa,
Hæstri hamra gnýpu á
Höfði mæna við lopthvolfið bláa;
Skoða hraustri hetju lund
Logaskært geislaglit glóa' á fannhvítum hökli,
Sem að sveipar alla stund
Svellgar herðar á *Arnarfellsjökli*.
Það var alt svo frjálst og frítt,
Fagurt, veglegt, glatt og blítt;
Íslands hetjufrægðin hrein
Himinbornum í draumi þar skein.

Ó mín fríða fósturjörð,
Frægðin sem áður sveipaði skærasta ljóma,
En sem örlög þung og hörð
Undu síðar í grátlegan dróma,
Þitt hið forna fjör og líf
Blundar enn blítt í dal bak við jökulinn gljáa,
En mun eptir þrældóms kíf
Upp senn rísa með þrekinu háa,
Þegar loksins frelsið frítt,
Fagurt, veglegt, glatt og blítt
Aptur yfir börnin þín
Endurborið í sannleika skín.

*Á. G.*

---

## Frelsisbæn Pólverja.

Úr sænsku; eptir *Felinsky*.

Guð, þú, sem vorri ættjörð skýldir áður,
Alvaldi guð, sem vilt að hún sig reisi,
Lít þú í náð til lýðsins, sem er hrjáður
Lagður í fjötra, jafnt í borg sem hreysi.
Guð, heyr vort óp, er grættir þig vèr biðjum,
Gef oss vort land og frelsa það úr viðjum.

Barizt vèr höfum þèr til dýrðar, drottinn,
Djarft fyrir trúna, hönd þín fram oss leiddi,
Dáð vorri lèzt þú veröld bera vottinn,
Veittir oss frægð, er neyð vor sárt þig beiddi.
Guð, heyr vort óp, er grættir þig vèr biðjum,
Gef oss vort land og frelsa það úr viðjum.

Drottinn, gef Pólen mistar feðra frægðir,
Fold láttu blómgast, sem af harðstjórn máist,

Leið til vor aptur friðar náð og nægðir,
Nóg höfum þolað. Sjá, hve fólkið þjáist!
Guð, heyr vort óp, er grættir þig vèr biðjum,
Gef oss vort land og frelsa það úr viðjum.

Drottinn, þú lægir ríkismanna rosta,
Rèttláti guð! og kneikir þá sem fysið,
Lèttu' af oss fargi fjandmanns afarkosta,
Fólksins í hjörtum kveiktu vonar-blysið.
Guð, heyr vort óp, er grættir þig vèr biðjum,
Gef oss vort land og frelsa það úr viðjum.

Heilagi guð, sem verkar alvalds undur,
Angurs og þrældóms böndin af oss greiddu,
Jarðríkis þjóðir, sem að viltust sundur,
Saman í frið og kærleik aptur leiddu.
Guð, heyr vort óp, er grættir þig vèr biðjum,
Gef oss vort land og frelsa það úr viðjum.

*Stgr. Th.*

## Huggun skáldsins.

Eptir *Heine.*

Ef menn þig hata og tæla í trygð,
Þess trúrri vertu;
Og ef til dauðans þig hrellir hrygð,
Þá hörpuna snertu.

Við strengina hljómi þín hetjuljóð,
Sem hugmóð glæða,
Þá sjatnar heiptin og sorgin móð
Mun sætt út blæða.

*Stgr. Th.*

# Breiðu herðarnar.

Eptir

Spielhagen.

— En þið ætlið þó ekki að fara undir eins núna, herrar mínir? spurði Gottlieb.

— Það er æði framorðið, sagði assessor Stricker, stóð upp og kreisti saman á sér fingurgómana mjóu hvað eptir annað.

— Náðug frúin er víst búin að geispa nokkrum sinnum; hún hefir verið að því svona við og við, sagði lautenant von Berkenfeld og skotraði kærleiksfullum áminningar augum til ungu frúarinnar, sem sat yfrí enda legubekksins.

— Hvaða vitleysa, mælti Gottlieb, Emmý er glaðvakandi eins og sumarlóa. Þér þurfið ekki annað en að líta á augun hennar! Æ, Emmý, góða, láttu okkur fá ögn af sykri.

Unga frúin stóð upp úr sæti sínu og gekk að skáborði einu, er stóð upp við innsta vegg stofunnar, sem var einkar stór og skrautleg.

— Kvennfólkið hefir gott af að fá sér svona dálitla hreyfingu, bætti Gottlieb við og hafði heldur lægra, — annars hættir því við að dotta. Jeg skil annars ekkert í því, hvernig nokkur maður getur sofnað yfir

góðu toddýglasi og góðum vindli. En kvennþjóðin, kvennþjóðin! æ, já, það er hreint hneyksli hvernig kvennþjóðin er. Þær vantar allar saman, ef satt skal segja, tilfinninguna fyrir þessum djúpa skáldskap, sem blikar upp úr hálftæmdu glasi, þær hafa ekki hjarta fyrir þess konar, enga sál, engan skiln...

— Hvaða þvaður er það þó, sem þú kemur þarna með aptur, slæmi karlinn minn herðabreiði, sagði Emmý, setti sykurskálina á borðið og skelti dálítið á herðar bónda sínum þar sem hann laut fram á borðið, en það var sannast að segja um þessar herðar, að þær voru óvenju breiðar.

— Nei, blessuð láttu það vera, að skamma út herðarnar mínar, Emmý, sagði Gottlieb.—Þú veizt þó líklega, að þú átt eingöngu mínum breiðu herðum að þakka, að þú ert nú ekki framar frauken Emmý Jäger á vegum verzlunarhússins og samlagsins Jäger -Breitkopf, heldur frú og eiginkona gasgerðarstjóra Rólands.

— Já, já, sagði Emmý.

— En því geturðu þó ekki neitað, Emmý, að hefði jeg ekki haft mínar breiðu . . . .

— Þú ert óþolandi maður, Gottlieb, sagði Emmý, og reyndi af veikum mætti að setja á sig stygðarsvip.

— Þér gerið okkur sannarlega forvitna með þessu, mælti assessor Stricker; hann var fyrir löngu seztur aptur í sæti sitt.

— Hvað er að tarna um herðarnar yðar, Róland? spurði lautenant v. Berkenfeld.

— O, það er svo sem ekki neitt, það er enginn hlutur, sagði unga frúin og var mikið niðri fyrir. — Hann Gottlieb er svoddan gasprari, svo málskrafsmikill, svo sjálfhælinn.

— Nei, hættu bara, nú verðurðu of svæsin. Nú skuluð þið sjálfir heyra og dæma, herrar mínir, hvort þessi litla maddama, sem tæplega er búin að vera í hjónabandi eitt ár, hvort hún hefir rétt til að titla mig, manninn sinn, með þvílíkum heiðursnöfnum, og hvort jeg er nokkuð óhæverskur, þó jeg fullyrði, að það eru ekki vitsmunir mínir, kunnátta eða elskuverð persóna mín, heldur einungis þessar mínar breiðu herðar og axlir og armleggirnir báðir, er út frá þeim ganga, sem jeg á að þakka, að jeg hef náð í þessa góðu lífstöðu mína, og eignazt þessa óþolandi konu.

— Segið okkur söguna, mælti assessorinn.

— Náðug frúin leyfir yður það, sagði lautenantinn.

— Mín vegna guðvelkomið, mælti Emmý.

Hún var aptur sezt í legubekks endann og hafði sett á sig þykkjusvip; en það sá lautenantinn, og var heldur raun að því, að frúin horfði sérlega vingjarnlegum augum á sinn föngulega og sterkvaxna bónda. Gottlieb hrærði nú einu sinni enn í inu rjúkandi glasi sínu, blés út nokkrum bláum reykjarhringum úr vindli sínum, hallaði sér makindalega aptur á bak í hægindastólnum og tók til frásagna:

»Svo er nú mál með vexti, vinir góðir, að jeg er í rauninni frá upphafi vega minna ónytjungur, eða, e- það er of djúpt tekið í árinni, þá er jeg svona hálff gerður slóði. Þetta er að öllum líkindum rétt; að minnsta kosti er nógu opt búið að segja mér það. Áður en jeg hafði lært að ganga, skírði barnfóstra mín mig þessu nafni,—það var seinni skírnin mín; jeg hafði ekki verið nema hálfa stund í barnaskólanum, þegar kennarinn úthrópaði mig fyrir hinum börnun-

um svo sem ónytjung; blessunin hún móðir mín sæla þrýsti mér opt grátandi í fang sér og spurði mig, hvort jeg ætlaði þá aldrei að fara að hegða mér alminnilega; og opt kallaði minn kæri faðir á mig inn í herbergi sitt og hélt yfir mér langar ræður; jeg skildi reyndar vanalegast ekki annað af inntaki þeirra en það, að jeg væri óbetranlegur slæpingur og að framtíðar forlög mín fylltu hans gamla föðurhjarta með beiskustu hugsýki.

Þið getið því ekki nærri, hvað mörgum brennandi tárum jeg hef grátið út af þessum hrakspám. Jeg kendi sem sé altaf innilega í brjósti um sjálfan mig. Jeg sá sjálfan mig í anda, íklæddan gul- og svartröndóttum fötum, með járnstöng milli fótanna, og kúst um axlir reiddan, og svo í flokki með nokkrum öðrum herrum í sams konar gerfi; jeg sá hvernig jeg var leiddur um stræti fæðingarbæjar míns, nábúunum til skelfingar, og þá ekki nábúabörnunum hvað sízt, sem öll saman höfðu haldið áfram að vera saklaus ung og smá, meðan jeg hafði vaxið og tognað upp í þvílík ódæmi spillingarinnar; jeg sá mig hengdan á gálga, jeg sá mig dingla þar um nótt í tunglskini með gráðuga hrafna flögrandi í kringum mig; jeg sá mig festan á hjól og stagl, en sú myndin stóð fremur óglögt fyrir mér, því jeg gat einhvernveginn ekki komið þeim tilbúningi fyrir mig. Í stuttu máli, jeg var fullkomlega sannfærður um, að jeg hefði með minni dæmalausu vonzku unnið bæði til þessa og margs fleira, og þar sem vald himnanna hefði ekki enn þá slöngvað yfir mig refsidómum sínum, þá væri það einungis vegna kanarífuglsins míns, sem efalaut mundi deyja úr sulti, þegar mín misti við.—Æ hvernig fór!—kanarífuglinn minn, fallega litla dýrið heið-

gula með grænbrúnu toppfjaðrirnar, sem mér þótti svo einstaklega vænt um—hann svalt í hel, en það var ekki af því að mín misti við, nei, þvert á móti, það var jeg sem var þess valdur, og jeg skelfist enn þá í huganum, þegar jeg minnist næturinnar eptir síðasta daginn sem fugltetrið lifði, þegar hann í hinzta sinni spriklaði litlu fótunum sínum upp í loptið. Jeg var við því búinn, að nú kæmi djöfullinn og sækti mig, og hafði samið mér bænarkorn til að ákalla miskunn hans; mig minnir hún byrjaði svona: »Djöfull minn góður!«

Ef nú hinir heiðruðu herrar skyldu spyrja mig, í hverju mín voðalega vonzka hafi verið fólgin, þá veit jeg ekki að svo stöddu, ef satt skal segja, hverju jeg á að svara.—Það var reyndar stöðugur vani minn í skólanum að vera við endann á bekkjunum, og reyndar kom ekki svo á mig við latínskar æfingar, að villurnar yrðu ekki hjá mér milli tíu og tuttugu að minnsta kosti; mér var ómögulegt að komast hjá því, þó jeg hefði átt líf mitt að leysa,—þetta skal jeg nú raunar fúslega játa; en það voru sumir piltar, sem bæði voru heimskari og latari en jeg, og þeir fengu þó ekki helminginn af þeim höggum, sem jeg fékk, og spáði enginn fyrir þeim, að þeir mundu aldrei verða að manni. Ekki hafði jeg heldur ílt hjartalag; jeg held nærri því jeg megi segja, að jeg hafi haft gott hjarta og ef til vill of gott, eptir því sem heimur þessi gerist; helmingurinn fyrir víst af heimskupörum mínum var af hjartans toga spunninn. Jeg kom treyulaus heim, af því jeg gaf hálfnöktum förupilti treyu mína, því jeg sá það, að hann gaut til hennar öfundar augum; einusinni keyrði vagn yfir mig af því jeg ætlaði að forða barni, sem var að

leika sér á strætinu, frá því að verða undir hjólunum; í annað skipti var jeg rétt að segja druknaður, af því jeg reyndi að bjarga kláðugum hundi, sem þeir höfðu fleygt út í borgarsíkið; jeg hef aldrei séð neinn lagsbróður minn í bobba, svo jeg hafi ekki reynt að hjálpa honum, en það hef jeg haft fyrir, að jeg margsinnis hef orðið að taka annara ávirðingar og barsmíðina, sem þar með fylgdi—á mínar breiðu herðar. Þetta lætur nú reyndar í eyrum eins og gort og sjálfhælni, herrar mínir, en hvað get jeg að því gert, þó heilagreyið í mér sé ekki nándar nærri að tiltölu eins umfangsmikið og herðarnar? Hver verður að hafa til síns ágætis nokkuð, og þegar maður er af náttúrunni dæmdur til að setja fjöldamargar hroðavillur í tímastíla og vera fyrirlitinn af hverjum busanum og hverju skólapeðinu, sem maður alt að því gæti stungið í vasann, er það þá ekki öll von, þó maður friði harm sinn yfir vöntun andlegu hæfilegleikanna með því að hugga sig við líkamlegu yfirburðina? Og ef um krapta skal ræða, þá var jeg svo vel úr garði gerður, að jeg var kallaður Gottlieb sterki eða Golíath, eða Mammúth Golíat og þess konar, engu sjaldnar en jeg var kallaður Gottlieb heimski eða Gottlieb lati. Þessir miklu kraptar og góðmennska mín að auki, það er sú uppspretta sem mestöll ógæfa mín hefir af flotið, en jafnframt líka mestöll hamingja mín, eins og þið skuluð bráðum fá að heyra. Það var eins og náttúran sjálf hefði einkent mig á meðal annara svo sem þann, er skapaður væri til að fremja öll þau heimskupör, sem hugsazt geta. Það var eins og segir í alþýðuvísunni:

Farðu á undan þarna þá,

Þú hefir stígvél nógu há,
Sem hérar bitið hvergi á.

Og mikið hef jeg mátt þola um dagana fyrir mínar breiðu herðar. Hef jeg ekki margsinnis rifið mig út úr saumunum, þegar jeg átti að eins einn guð og einn frakka? hafa ekki hjásetar mínir í póstvögnum og járnbrautarvögnum optsinnis og beisklega kvartað yfir því, að jeg tæki upp tvo þriðjunga af rúmi því, sem ætlað væri tveimur; það var seinast í fyrra kvöld, þá sat kvennmaður einn bak við mig á innri bekkjunum í leikhúsinu og fór að tala um kínverska múrinn, af því að hún sá til hvorugrar hliðar fyrir mér; já, jeg hef meira að segja verið rekinn úr skóla fyrir mínar breiðu herðar. Það er nú saga að segja frá því, og er það vel lagað til að lýsa óláni því, sem elti mig í fyrri daga.

Það var einum degi áður en sumarfríið langa átt að byrja; við þriðjubekkingar vorum sérlega kátir, og með því stutt var eptir af samverutímanum, þá notuðum við frímínúturnar framan af tímanum til að ljúka við dálítinn bardaga, sem við áttum ókljáðan; það fór þá svo, að sá flokkurinn hafði betur, sem jeg var í, og kastaði hinum á dyr. »Þú verður að verja dyrnar, Gottlieb!« kölluðu þeir alt í kringum mig. Jeg spyrndi því herðunum í dyrnar og stóð hraustlega í móti, svo ramlega sem hinir ruddust á að utan, og það þó þeir seinast hömuðust eins og vitlausir menn og létu hnefana ganga á hurðinni; en sambekkingar mínir hoppuðu í háa lopt af fögnuðu yfir minni hreystilegu vörn og hetjudómi. Loksins varð samt þrýstingin á herðar mér svo gríðarleg, að jeg varð undan að láta, og hafði jeg sízt búizt við því; dyrnar hrukku upp, skólaþjónarnir, skólastjórinn sjálfur

og fimm eða sex kennarar fyrir víst, og þessum öllum hafði jeg veitt svo langa mótstöðu. Þið munuð nú fara nærri um, hver málalokin hafi orðið: mér hafði náttúrlega ekki verið ókunnugt um, hverjir þeir voru sem herjuðu á dyrnar, jeg hafði að eins látið leiðast af ofstopa míns þverúðarfulla hjarta. Þetta hafði verið það ljótasta stráksbragð, sem leikið hafði verið við kenslustofnun þessa í manna minnum, og var jeg því rekinn úr skóla *cum infamia*[1].

Gamla manninum, veslingum honum föður mínum, lá við að örvílnast. Að vera rekinn úr skóla og að vera húðstrýktur og brennimerktur opinberlega, það var í hans augum eitt og sama. Hann kallaði mig grátandi tapaða soninn sinn, og jeg lofaði guð fyrir, að mín góða móðir hafði ekki lifað þetta ólán mitt, úr því svo átti að vera, að hún burtkallaðist á undan mér; eins og nú var, þurfti hún ekki að gráta úr sér blessuð augun af hrygð og hugraun yfir óláni sonar síns.

Alt upp frá þessu hrakaði mér meira og meira og mér var alt af að verða torskildara og torskildara, hversvegna jeg einmitt ætti að heita Gottlieb[2], þar sem helzt var útlit fyrir, að jeg væri hvorki guði kær né mönnum, og engar líkur til að jeg geti orðið til nokkurs nýtur. Faðir minn hafði sent mig til stórbónda nokkurs, sem hafði orð á sér fyrir að vera afbragðs búhöldur. Aldrei hefði jeg getað komizt í verri hendur. Herra Bartel var frámunalega fáfróður maður og hrottalegur, bæði skepnuníðingur og manna, smásmuglegur, böðulslegur kúgari,

1) Með óhróðri.

2) Þýzka nafnið Gottlieb merkir: Guðkær (guði kær).

sem lamdi hvern, er móti honum andaði, með reið-písknum. Jeg bar þetta lengi vel framan af með þögn og þolinmæði, af því jeg vildi ekki styggja föður minn; en loksins fór það samt út um þúfur. Það var einn fagran sumarmorgun um kornskerutímann út á víðum akur-vangi, að okkur Bartel lenti saman í augsýn himinsins alskínanda og allra vinnuhjúanna frá höfuðbólinu; mundi Bartel þó að líkindum ekki hafa haft upptökin til þessarar viðureignar, ef hann hefði séð fyrir, hvern enda hún mundi taka. Mér er enn þá sem jeg heyri ið þrítekna »húrra«, sem gaus úr kverkum þessara hvítu þræla, þegar þorparinn lá undir mér á vellinum, og þegar jeg að síðustu eptir tvö vel úti látin högg þeytti reiðpísknum langa leið út á bláblikandi stöðuvatnið. Já, herrar mínar, jeg kemst á lopt við þetta húrra, í hvert skipti sem jeg hugsa til þess, og opt þegar illa hefir legið á mér, hef jeg huggað mig við, að það muni vera tilfært tekjumegin í höfuðbók lífdaga minna, og verði svo til að kvitta mig af refsingu fyrir eitt eða annað af hinum öðrum heimskupörum mínum.

Eptir þessi stórtíðindi þorði jeg ekki að koma heim til föður míns, eins og þið getið nærri. Jeg fór huldu höfðu meðal ættmenna og kunningja, þangað til sá tími kom að höndum, að jeg átti að fara í »kóngstreyuna«[1]. Mér gekk miklu betur að eiga við fallbyssurnar heldur en við latínsku stílana, og með því yfirmanni mínum gazt vel að mér, og faðir minn óskaði þess jafnframt, þá bauðst jeg til framhaldandi herþjónustu eptir að æfingarár mitt var á enda; það leið heldur ekki á mjög löngu að jeg komst

1) Þ. e. verða dáti.

dálítið áfram og varð undir-eldmeistari í skotliðinu. Jeg sá þegar í anda gullskúfana glóa á öxlum mér, en þá—jæa, Berkenfeld minn, jeg skal ekki halla á virðingu stéttar yðar, en það er á stundum eitthvað svo bogið við þessa hernaðarlegu hlýðnisskyldu, að það getur komið ærlegum dreng til að láta hugfallast. Einmitt um þetta leyti bar svo til, að einn af skólabræðrum mínum, sem jeg hafði stundum lumbrað á, þegar við vorum saman, og það að maklegleikum, held jeg megi segja—að einmitt þessi sami snáði slapp við burtfararpróf úr foringjaskólanum—,og það var nú svo sem auðvitað, að hann var skipaður í foringjastöðu við minn fallbyssugarð, rétt eins og það væri til að fylla mæli synda minna upp á barma. Hvað mikið þessi splunkurnýi lautenant hefir lært á foringjaskólanum, skal jeg láta ósagt, en hins varð jeg bráðum fullvís, að hann hafði engu gleymt, og sízt neinu, er við kom sambúð okkar í fyrri daga. Jeg ætla ekki að nafngreina hann, það stendur ekki á neinu, enda hef jeg fyrir löngu síðan fyrirgefið honum, og kæmi hann núna samstundis inn um dyrnar, þá skyldi jeg bjóða hann velkominn; en þá var jeg tíu árum yngri og heimskari, enda getur verið að hann hafi farið of frekt í það við mig, að minsta kosti var jeg dæmdur til fimm ára vistar í kastalanum, en það sögðu menn þá, að mætti kallast fáheyrt lán eptir því sem á stóð.

Hvað um gildir, alla hluti má skoða frá tveimur hliðum og eins er um fangavist í kastala. Vonda hliðin á henni og sú verri fyrir mig var það, að veslingnum honum föður mínum gekk svo til hjarta þessi skömm, sem jeg hafði orðið fyrir, að hann náði sér ekki aptur, og litlu síðar dó hann; jeg er

hræddur um að hjarta hans hafi brostið. Jeg var einka-barn hans, og guð einn veit, hvað glæsilega framtíð hann hefir ætlað mér. Hann hafði aldrei komizt lengra sjálfur en í undirtyllu-embætti við bág kjör; jeg átti nú að minsta kosti að komast svo hátt, að fá stjórnarráðs nafnbót. Minn góði, gamli faðir unni mér hugástum, og það er það sárasta sem hefir komið fyrir mig á æfinni, að jeg skyldi gera honum svo mikla sorg og mæðu — og þó veit guð, að það var mjög á móti vilja mínum. Faðir minn var ekkert fyrirtak að gáfum, en hann var ráðvendnin sjálf og valmenskan.—Friður veri með dupti hans.

Já, þá er nú einnig að taka fram góðu hliðina á þessari fimm ára fangavist; — það getur hugsazt að jeg hafi verið of blóðríkur eða þá að blóð mitt hafi ekki verið blandað í réttum hlutföllum, eða að það hafi þurft að brjóta sig og jafna sig sjálft, eins og vínið, sem menn láta liggja svo sem tveggja mánaða tíma í kjallaranum, áður en menn tappa það á flöskur. Svo mikið ervíst, að fyrst framan af sauð og ólgaði blóðið í mér fjarskalega, svo mér lá við að halda, að jeg hefði það ekki af, eða þá að jeg yrði bandóður; en það kyrðist í mér smámsaman, það færðist einhver rósemd, já, hreint að segja einhver helgidagsfriður yfir huga minn, svo mér gat ómögulega fundizt að jeg væri eins ógæfusamur og mér hefði átt að finnast, eptir því sem skyldan bauð mèr. Þó mér gæti ekki skilizt, hvers vegna sá maður, sem var sér ekki neins glæps meðvitandi, ætti endilega að sæta sömu meðferð og glæpamaður, þá hugsaði jeg svona með sjálfum mér: guð veit það líklega; og skyldi svo vera, að hann kærði sig ekki neitt sèrstaklega mikið um annan eins greyskinns garm og mig, þá hugsaði jeg að þetta

væru mín forlög, en móti forlögunum megnar enginn maður neitt. Og svo var ekki þess að dyljast, að jeg hafði verið fram úr lagi léttúðarfullur, og þungt lagðist það á hjarta mitt, hvað jeg hafði verið trassafenginn við latínulærdóminn. Jeg komst að lokum til þeirrar niðurstöðu, að jeg yrði að sitja fastur í fimm ár sakir leti minnar, léttúðar og heimskupara. Þetta var mér einstaklega mikil huggun.

Þar við bættist, að það var farið sérlega vel með mig í kastalanum—mér er óhætt að segja, betur en jeg átti skilið. Reyndar varð jeg í fyrstunni að aka hjólbörum eins og hinir, en af því jeg var þá í svo æstu skapi, þá var það ekki nema til góðs fyrir mig, og með því jeg hafði þriggja manna afl, þá vann jeg líka þriggja manna verk. En við þá verkstöð var jeg ekki nema fáeinar vikur. Kastalastjórinn, kapteinn von Eisenfresser[1] var mesti mannúðar maður og valmenni, þó nafnið væri hrottalegt, og hefir hann víst verið mér hlyntur í tillögum. Jeg var leystur úr fjötrum og fékk að vinna við skriftir í kastalaskrifstofunni. Þar var jeg svo allan hinn annan tíma fangaveru minnar, og með því jeg var ötull við verk mitt — það var nú meðfram af þakklátssemi við velgjörðamann minn, sem var sannur heiðursmaður—og með því jeg líka var góður skrifari — skriftin var nálega það eina, sem jeg hafði lært í skólanum fyrir hafnarlítið — þá varð jeg bráðum að kalla mátti »privat« skrifari hjá mínum vinveitta yfirboðara, og naut hinnar mestu vinsemdar bæði hjá honum og öllu fólki hans, svo jeg var ekki hegningarfangi framar nema að nafninu til. Og herra v. Eisenfresser lét ekki þar við sitja. Hann varð þess áskynja, að jeg

1) Nafnið Eisenfresser merkir: járnæta.

var ekki að eins vel skrifandi, heldur einnig góður reikningsmaður; lét hann á sér heyra að jeg mundi vafalaust vera sérlega vel upplagður fyrir stærðfræði. Jeg hló fyrst að þessum orðum hans eins og markleysu, en með því hann var sjálfur afbragðs stærðfræðingur og sterkur í röksemdaleiðslu, þá sannaði hann mér til fullnustu, að hann hefði rétt að mæla. Mér varð einhvern veginn undarlega við þetta. Jeg fekk nú í fyrsta sinni nokkurs konar virðingu fyrir sjálfum mér, og þó enn meiri virðingu fyrir velgjörðamanni mínum, og þegar jeg skömmu síðar leysti alsendis rétt úr verkefni einu, sem hann hafði fengið mér, og þegar hann svo klappaði mér á herðarnar og sagði: »Þarna getið þér séð, Róland, þér komizt prýðilega fram úr því»—já, þá varð jeg svo klökkur, að jeg feldi fegins tár af augum og kysti á hendur valmennisins með innilegri þakklátssemi.

Og hann gerði meira fyrir mig en þetta. Og stóð svo á að einmitt um þessar mundir var settur upp gas-mælir í kastalanum. Herra v. Eisenfresser sagði sjálfur verkmönnum fyrir og lét mig ekki að eins semja allar áætlanirnar og búa til uppdrættina í skrifstofunni, heldur gerði hann mig í tilbót að umsjónarmanni við byggingarverkið, svo að eg fyrir hans aðstoð kyntist út í æsar öllu hér að lútandi, bæði hvað hið þekkingarlega og verklega snerti. »Það getur komið yður að notum þó seinna verði, Róland minn«, sagði hann opt þegar hann kom inn í starfhúsið, og klappaði mér þá um leið á herðarnar til að láta í ljósi ánægju sína.

Honum geðjaðist vel að herðum mínum, blessuðum karlinum. Mínar herðar voru svo afarbreiðar og hans voru svo mjóar. »Það er sönn ánægja að

horfa á yður, manni léttir fyrir brjósti af því«,—þetta veit jeg að hann hefir margsinnis hugsað með sjálfum sér, og þá brosti hann ætíð svo vingjarnlega um leið og þó svo raunalega. Jeg held jeg hefði getað fórnað fyrir hann mínum síðasta blóðdropa, en það hefði samt ekki hjálpað honum neitt. Hann vesladist upp af tæringu og gaf upp öndina í faðmi mínum tveimur vikum áður en jeg útendaði fangelsistímann og losnaði úr kreppunni.

Þannig var jeg þá frjáls maður aptur, en það veit hamingjan, að opt langaði mig til að vera kominn í fangelsið aptur, þar sem hafði farið svo vel um mig. Mér sýndist heimurinn svo stór og þó svo ömurlega auður og snauður, þrátt fyrir hina ótölulegu mannmergð. Það var enginn sem hirti neitt um mig. Faðir minn var andaður og hafði dáið jafnsnauður og hann hafði lifað. Ættmenn mínir vildu hvorki heyra mig nè sjá, þar sem jeg var nýleystur úr hegningarfangelsi, og bæri svo til að jeg hitti þá, sem jeg forðaðist eins og jeg gat, þá létust þeir ekki þekkja mig. Jeg get með sanni sagt, að nú átti jeg lengi vel auma daga, og þegar mér eptir langa mæðu auðnaðist að komast að við gas-gerðarsmiðju nokkra sem undirumsjónarmaður, þá taldi jeg það einstaka hepni. Fimtán dali hafði jeg í kaup. Þið getið því nærri, hvað langt það hafi náð, eins matlystugur og jeg er, eða réttara sagt, þið getið ekki getið því nærri. Þeir, sem hafa alizt upp við als nægtir, geta ekki gert sér neina hugmynd um, hvernig liggja muni á þeim, sem sem sitja við svo naumlega deildan verð. Og svo ber þess að gæta, að þó faðir minn kæmist ekki hærra en að vera reiknings-endurskoðari, þá hafði hann þó haldið sig að heldri manna hætti og alið mig upp á

sömu leið, meira að segja í fyrstunni látið mig venjast heldur miklu dekri og dálæti. Móðir mín var fínleiks kona og vel mentuð, og foreldrar mínir höfðu ávalt tekið þátt í þess konar félagslífi, sem í reyndinni var nokkrum stigum fyrir ofan þeirra stétt og stöðu. Þrátt fyrir léttúð mína og æringjaskap hafði jeg erft tilfinningu foreldra minna fyrir nettleik og háttprýði og nokkuð líka af metnaðargirni föður míns; og þegar nú sá, sem gerir kröfur til svo mikils í lífinu, á að kúldast í lélegri herbergisholu hæst upp undir þaki og eta miðdegisverð sinn og kvöldverð með þjónum og vagnmönnum, og þess konar fólki, sem getur að vísu verið fullheiðarlegt, en er þó af grófara tæginu,—þegar hann neyðist til að sýna sig á strætum úti í óhreinum léreptsstakki eða margsnjáðum frakka-garmi, sem hann hefir keypt sér í ruslasölubúð — já, þá getur þetta og annað eins dregið af manni gamanið; þið megið trúa mér til þess, því jeg er þvældur í þessar konar lífi og tala af margra ára reynslu.

En þessi tími varð mér samt ekki ónýtur. Jeg varð alt af betur og betur heima í iðn minni, og kyntist einnig þeim hliðum hennar, sem verkmönnunum einum gefst kostur á að þekkja; þess utan lagði jeg mig kappsamlega eptir stærðfræði, og gerði jeg það með fram til að heiðra minningu míns framliðna velgjörðamanns. Þessar framhaldandi iðkanir mínar, sem samfara voru daglegri æfingu í inu verklega, urðu til þess að mér hugkvæmdist ýmislegt, sem jeg hugði vera til bóta, að því er snerti samsetning ofnanna og meðferðina á úrbrendu kolunum, enda hefir svo reynzt, að þau nýmæli mín eru verulegar endurbætur. Af öllu þessu óx mér nú töluverður sjálfs-

þótti, eins og gefur að skilja, og fór jeg að brjóta heilann um það, hvernig jeg ætti að komast úr ánauðinni í sjálfstæðari stöðu, þar sem jeg gæti gert uppgötvanir mínar arðberandi og yfir höfuð að tala náð því stigi í mannfélaginu, sem hæfði syni jafnheiðarlegs föður og jeg hafði átt. Því það skuluð þið vita, að umhugsunin um minn kæra föður, sem hafði syrgt sig til dauða mín vegna, hún yfirgaf mig aldrei, og jeg gat ekki að því gert, að mèr fanst alt af eins og það mundi gleðja hann í gröfinni, ef jeg kæmist vel áfram í heiminum.

Svona liðu fimm ár, og gat jeg nú með engu móti lengur eirt við að búa í þakhýsi mínu. Þá losnaði gasgerðarstjóra embættið hérna og skoraði samlagið á þá, sam hæfir þæktust vera, að bjóða sig fram. Það var 21. janúar, og stendur rétt heima að nú er ár síðan, að jeg las auglýsinguna, og með því jeg á nefndum degi fylti þrítugs-aldurinn, þá þótti mér það góðs viti og sagði við sjálfan mig: »Hertu upp hugann, Gottlieb, annaðhvort nú eða aldrei!« Og það var sannarlega ekki nein vanþörf á góðum fyrirboða, eins og ástatt var fyrir mér, því annars hefði mig bilað áræði þegar til kastanna kom. Þið vitið að það fylgir embætti þessu, að maður á um leið að vera iðnfræðislegur yfir-forstjóri allra hinna fjörutíu gasgerða, sem samlagið hefir þegar á stofn sett. Jeg átti eptir því að verða yfirboðari þess forstjóra, sem jeg alt til þessa hafði þjónað undir, og í þessa upphefð átti jeg að komast úr stöðu þeirri, er jeg gegndi enn þá sem undir-tilsjónarmaður. Þið munuð játa, herrar mínir, að þetta alt saman var dálítið hjákátlegt. En janúarmánuður í fyrra var nístandi kaldur, frostvindurinn hveininn um rifurnar á þakkytru minni

jeg kvaldist sáran af kulda og sulti á víxl og hefði fjandinn boðið í mig um það leyti, þá hefði hann fengið mig fyrir gjafverð.

En jeg hugsaði mér, að ekki væri vert að fara fjandans til svo bráðlega; mér væri eins gott að fara til verzlunarhússins og samlagsins Jäger-Breitkopf og segja þar til, að jeg ætlaði að sækja um ið óveitta embætti.

Það var samt ekki svo auðhlaupið að þessu eins og sýndist í fyrsta áliti. Fyrst og fremst var slæmt að þurfa að bíða, því jeg vissi að fyrstu þrjá dagana voru þegar komnir tuttugu og tveir umsækjendur, en jeg gat alt um það ekki farið frá starfstöð minni fyr en á laugardaginn, því þann dag hagaði svo til, að jeg gegndi varðstörfum til hádegis, en átti eptirmiðdaginn frían. Þar við bættist að mig vantaði alveg þess konar fatnað, sem hafa þurfti við svo hátíðlegt tækifæri. Stígvél og hálslín var svona nokkurn veginn viðunandi, og svo komu líka í leitirnar svartar buxur, sem nota mátti með því móti að borið væri dálítið af bleki í saumana. Hvítt vesti fékk eg með gjafverði hjá rusla-sölumanni, sem bjó fimm loptum neðar í sama húsi og jeg. Þá var eptir að fá frakkann og varð einn af samþjónum mínum til að lána mér hann; það var hann Hans Sorgenfrí, sem núna er yfirtilsjónarmaður hjá mér og bezti vinur minn; hann hafði nýlega haldið brúðkaup sitt og átti spánýjan frakka ljómandi fallegan.

»Heyrið þér, Hans Sorgenfrí«, sagði jeg, þegar hann kom á laugardaginn um hádegisbil og leysti mig af verði, við stóðum inni í gasmælis-skálanum og var jeg að reyna frakkann, sem hann hafði fært mér inn-

an í klút: »heyrið þér, Hans Sorgenfrí, ekki þori jeg að ábyrgjast, að jeg ekki kunni að rífa fyrir yður frakkann í ermasaumunum eða kannske þvers yfir bakið«.

»Áfram með yður og gefið það ekki eptir, Róland«, svaraði Hans Sorgenfrí; »ef þér fáið embættið, þá getið þér látið mig fá annan frakka í staðinn, og ef þér fáið það ekki—en, það getur nú ekki komið til mála. Annar eins maður og þér eruð þarf ekki annað en að láta skilja, að sér sje full alvara, þá gengur það alveg sjálfkrafa«.

Ykkur að segja hafði Hans Sorgenfrí það álit á mér, að jeg væri inn mesti maður þessarar aldar. Jeg var hans uppáhalds-hetja, hans hugsjónar ímynd, og hefði jeg sagt: Heyrið þér, Hans Sorgenfrí, jeg hef ásett mér að verða keisari í Fez og Marokkó, þá mundi hann hafa svarað: »Áfram með yður og gefið það ekki eptir, Róland, þér getið það leikandi, eins og að drekka«.

Jeg hló nú reyndar að þessu, sem minn góði vinur talaði í sinni hjartans einfeldni, en satt að segja var mér ekki um sel, þegar jeg stóð í þröngva frakkanum fyrir utan skrifstofudyr samlagsins Jäger-Breitkopf; jeg barði á dyrnar, fyrst hægt, svo harðara og seinast mjög svo hart.

Loksins heyrði jeg gegnt með ámátlega gjöllum málrómi: »Kom inn!« Jeg hélt fyrst að það væri hurð, sem ýskraði í einhversstaðar nálægt, en það var þó í raun réttri manns rödd, og gekk jeg svo inn.

Jeg kom inn í stórt herbergi og var þar maður fyrir—það var semsé liðið nokkuð á daginn og skrifararnir gengnir til miðdagsverðar — og svo hitti jeg þá sjálfan . . . . já, já, herrar mínir, jeg sé að konan

mín er sofnuð sælum blundi þarna í legubekks endanum, og þarf jeg þá ekki að feila mér neitt við að segja ykkur, hvernig minn heiðraði tengdafaðir kemur fyrir, þegar maður sér hann í fyrsta sinn, einkanlega ef maður hittir hann rétt á undan miðdegisverðinum, því þá er hann vanalega svangur og nöldurslegur, alveg eins og titilmyndin á enska kýmiblaðinu *Punch*, nema hvað herðakistilinn og smáseppann vantar; hann er líka, ef nokkuð er, dálítið ófríðari, og eptir því sem hann kom mér fyrir sjónir á þessari miðdegis-stundu, þá var hann óvenju þver og ófrýnn og ómannblendnislegur.

»Hvað viljið þér?« sagði inn litli gamli maður hryssingslega og snéri sér til hálfs að mér á skrifstofustólnum.

»Hæstv . . . .« jeg ætlaði að fara að segja, hæstvirti, en tók mig aptur, því mér þótti það vera fyrirlitlegur fleðuskapur, hóstaði svo dálítið og sagði með fullri einurð:

»Jeg ætlaði að tilkynna, að jeg sæki um gasgerðarstjóraembættið, sem auglýst hefir verið að sé laust«.

»Þér eruð sá þrítugasti«, sagði Jäger bystur.

»Það sakar ekki grand«, mælti jeg.

»Hvað meinið þér með því?«

»Það er þó ekki nema einn, sem getur fengið embættið«.

Gamli maðurinn snéri sér enn þá svo sem þumlung áfram lengra á stólnum og horfði enn þá bystara á mig en áður. Augun undir inum úfnu augabrúnum stungu mig eins og glóandi júlísólskin á undan skrugguveðri; en jeg sagði svo við sjálfan mig: Ef þú gerir nú svo mikið sem depla augunum, þá ertu

frá, enda brá jeg mér hvergi og hugsaði með mér: Já, hvestu augun, gamli karl, eins og þú vilt, frakkinn er reyndar fenginn að láni, en það er ærlegur drengur sem í honum er.

Í sama vetfangi var barið á dyr, og ekki beðið eptir svari Jägers, því inn í herbergið gekk maður, sem mér geðjaðist illa að af tveimur ástæðum, fyrst af því að hann truflaði samtal okkar Jägers þegar hæst stóð, í annan stað af því hann var viðbjóðslega ljótur, svipillur og fantalegur, og þar til kraptalega vaxinn og saman rekinn.

»Hvað viljið þér?« sagði Jäger bystur. »Þér vitið það líklega eins vel og jeg«, svaraði komumaður með mesta fruntaskap, »jeg vil hafa mína peninga og ekkert slúður«.

»Jeg hef skrifað yður áður og sagt yður, hvers vegna jeg get ekki látið yður fá þá«, svaraði Jäger kurteislega.

»Þá bið jeg sjálfan andskotann«—sagði hann.

»Það hjálpar yður víst ekki stórt«, mælti Jäger. —»Má jeg biðja yður, herra...?«—»Róland«, sagði jeg, —»herra Róland, gerið þér svo vel að fá yður sæti á meðan og bíða svo lítið þangað til jeg er búinn að afgreiða þennan herra«.

Jeg settist á stól nokkuð frá og héldu nú báðir hinir áfram viðræðu sinni. Komumaður sá hinn þrekvaxni var skipherra; það skiptir ekki um nafnið, hann hafði flutt verzlunarhúsinu kol frá Hamborg, og var svo að heyra sem hann krefðist borgunar yfir samninga fram. Það var skringilegur samsöngur, að heyra þessa tvo menn skammast; það var eins og mjórómuð hljóðpípa emjaði í kapp við dimmrómaða, rymjandi bumbu. En bumban reyndist þolbetri en pípan og grenjaði að síðustu svo voðalega, að gluggarúðurnar nötruðu. —

Jeg er nú svo gerður, að mér er lítið gefið um þras og illdeilur, og sérstaklega hef jeg alténd haft megna óbeit á þessu óskynsamlega rifrildis-gargi. Þar við bættist, að skipherrann hafði fortakslaust rangan málstað og ekkert fram að færa mót inni ljósu og greindarlegu máls útlistun Jägers annað en eintómar hótanir og fúkyrði. Því lengur sem jeg heyrði þrjótinn ólmast og garga, því andstyggilegri varð hann í mínum augum, og þegar hann loksins fór að færa sína dónalegu hnefa upp undir fálkanefið hans Jägers, sem var gamall maður og auðsjáanlega óhraustur, og farinn að blikna upp í framan af angist—já, þá er það sannast að segja, að þolinmæði mín var á enda. Jeg stóð upp og gekk fram að dyrunum, og gaf þorparanum í skyn með látbragði og bendingum, að okkur væri ekki lengur nein sérleg þægð í persónulegri návist hans. Skipherrann varð öskubálvondur og lét svo óðslega, að jeg varð hálfhræddur um gamla manninn, þar sem hann sat nábleikur á stólnum sínum og skalf eins og hrísla. Fór jeg þá og þreif yfrum axlir skipherrans, kreisti handleggina að kroppnum svo fast sem jeg gat, og bar hann síðan bröltandi og grenjandi í fangi mínu, út um dyrnar, gegnum fordyrið og fram á riðið. Þar lagði jeg hann niður og greiddi svo eptir beztu föngum fyrir för hans ofan tröppurnar. Þegar hann var oltinn niður fyrir neðsta þrepið, stóð hann upp aptur og fór út úr húsinu bölvandi og ragnandi, en jeg gekk aptur inn í skrifstofuna, læsti dyrunum á eptir mér og sagði: »Svona, nú held jeg við getum haldið áfram samtali okkar, og þurfum við víst ekki að óttast að verðum truflaðir í annað sinn«.

Það þori jeg að segja, að þó jeg yrði hundrað ára

gamall, þá gleymdi jeg aldrei hvernig gamli maðurinn var í framan, þegar hann horfði á mig að þessu sinni. Gremjan og hræðslan, sem hafði gagntekið hann fyrst, blandaðist nú svo hjákátlega saman við undrunina, og jeg má víst segja, gleðina yfir handatiltektum mínum, og þegar þessu lenti saman í inu skringilega andliti, þá kom það mér svo annarlega fyrir sjónir, að jeg hélt fyrsta kastið, að gamli maðurinn væri genginn frá vitinu. Þarna sat hann bíspertur og starblíndi á mig með sínum smáu, tinnuhvössu augum — og svo alt í einu rak hann upp skríkjahlátur, sem meira líktist gali einhvers fugls úr annari heimsálfu en vanalegum kristinna manna hlátri. Því miður sá jeg eða skynjaði von bráðara, hvað það var í útliti mínu, sem honum þótti svo hlægilegt. Nýi frakkinn, sem Hans Sorgenfrí lánaði mér, hefir víst ekki verið úr sem beztu efni, svo áferðarfagur sem hann var, — hann hafði bilað við átökin þegar jeg var að vinna slig á heljarmenninu, rifnað upp í öllum saumunum og hékk utan um mig eins rifrildi. Jeg fann á mér, að að jeg eldroðnaði í framan, en jeg var fastráðinn að vera ekki alvörumeiri í þessu máli en þörf gerðist.

»Jeg ætla að biðja yður, herra Jäger«, sagði jeg,»að afsaka, að fötin mín hafa færzt dálítið úr lagi; en úr því það var ásetningur minn að bjóða mig sjálfan fram, en ekki frakkann minn, þá vona jeg að það geri ekkert til. Máltækið segir að »fötin skapi menninа«, en varla munu þau skapa duglegan gasgerðarstjóra«.

»Í herrans nafni, þér eruð maður eptir mínu skapi«, kallaði gamli maðurinn upp, hoppaði niður af stólnum og rétti mér sína mögru og grönnu hönd, um

leið og hann horfði á mig svo elskulega eins og hann væri bráðskotinn í mér. — »Ef þér eruð fullfær í því, sem þér eigið að kunna, þá skuluð þér fá embættið, svo sannarlega sem jeg heiti Jóhann Agúst Jäger«.

»Ekki vantar mig kunnáttuna, herra Jäger«, sagði jeg, og enn í dag er mér óskiljanlegt, hvaðan mér kom sú dirfska, að tala svona sjálfbyrgingslega og digurmannlega; »jeg kann það alt saman upp á mína tíu fingur«.

»Jeg trúi yður, jeg meira en trúi yður, þegar þér segið það; þér eruð sannur ágætismaður. Komið þér nú og setjizt hérna við borðið og segið mér, hvar og hvernig og hvað þér hafið lært. Hvernig er nú t. a. m. yðar álit á inni nýu gasmælis-samsetning Mr. Hotwaters í Liverpool«?

Jeg skildi undir eins af spurningunni, að gamli maðurinn mundi vera æði vel heima í gasfræðinni. Jeg lagði mig því til og útlistaði ítarlega fyrir honum, hvers vegna mér als ekki geðjaðist að inni nýu uppfundningu Mr. Hotwaters, sem svo var kölluð, og hvers vegna mér fyndist minn máti vera betri. Því næst dró jeg upp úr vasa mínum uppdrætti nokkra, sem sýndu og útskýrðu uppfundningu mína, og breiddi þá fyrir framan Jäger. Og með því jeg var einstaklega innlífaður málefni þessu og hafði ekki hingað til hitt nokkurn mann, sem jeg gat látið mig í ljósi við nema Hans minn Sorgenfrí, þá lét jeg dælunа ganga jafnt og þétt og talaði þangað til jeg komst í hita; hélt jeg áfram hálfa klukkustund fyrir víst, en gamli maðurinn sat á meðan, kinkaði kolli og tautaði öðru hverju: »hum, hum, ágætt, ágætt, ljómandi gott«. Og úr því gangurinn var kominn á mig, þá sagði jeg honum með sama, hverjir foreldrar mín-

ir hefðu verið og í stuttu máli alt sem á dagana hafði drifið, gleymdi jeg þá ekki heldur að minnast á fangavist mína. Þegar jeg hafði úttalað, rétti gamli maðurinn mér sína mögru hönd og sagði: »Hérna er höndin mín upp á það, herra Róland, að þér skuluð vera forstjóri okkar; tvö þúsund dala laun á ári, og fylgir þar með embættisbústaður, ókeypis eldiviður og ljós og fimm af hundraði af allri ágóða-upphæðinni. Eruð þèr ánægður með það?«

Jeg klöknaði svo við þessi orð gamla mannsins, að hjartað barðist upp við kverkar mér, jeg greip um hönd hans og stundi upp einhverju — jeg veit ekki hverju, en svo mikið vissi jeg, að nú var öll neyð á enda og að Hans Sorgenfrí átti að fá svo fallegan frakka, sem nokkrum skraddara var unt að búa til.

»Farið þér nú heim«, sagði gamli maðurinn«, og fáið yður annan frakka, komið svo hingað klukkan fimm og borðið hjá okkur miðdegisverð. Jeg læt yður svo kynnast heimafólkinu hjá mér og á eptir getum við undirskrifað samninginn. Alt frá þessu augnabliki eruð þér genginn úr stöðu þeirri, sem þér hafið gegnt hingað til. Jeg skal samstundis skrifa yfirmanni yðar og tilkynna honum breytingu þá, sem orðin er á embættaskipuninni. Þér þyrftuð kannske á peningum að halda; ungu mennirnir hafa ætíð þörf fyrir peninga. Hérna eru hundrað dalir fyrir fram af launum yðar. Nei, verið þér nú ekki með nein ólíkindalæti. Viljið þér skrifa hérna nafnið yðar. Þökk fyrir! Verið þér sælir þangað til við sjáumst aptur, kl. 5 upp á slagið«.

Þar með lét gamli maðurinn mig frá sér fara og

vissi jeg svo varla til mín fyr en jeg var kominn heim til Hans Sorgenfrí, míns trúlynda vinar, og er þar stutt af að segja, að hann vafði mig í fang sér ýmist grátandi eða hlæjandi og sagði hvað eptir annað: »Er það ekki þetta, sem jeg alténd sagði: Þér þurfið ekki annað en að láta skilja á yður, að yður sé alvara, þá gengur það altsaman sjálfkrafa«.

Nú væri, góðir herrar, saga að segja frá því, sem til bar og hvernig lauk; þetta einkum, að kl. 5 kom jeg til Jägers og var leiddur þar fram fyrir frú Jäger og frauken Emmý Jäger, herra Breitkopf og frú Breitkopf, og að jeg við borðið sat við hliðina á Emmý Jäger og vissi ekki, hvort það var sjampaníið eða in fögru augu fraukenarinnar —; drottinn góður, svona eru kvinnurnar, maður þarf ekki annað en að tala um augun í þeim, þá glenna þær þau upp. Hvernig hefirðu sofið, Emmý?«

»Jeg hef als ekki sofið, slæmi karlinn minn«, sagði yngiskonan og var nú svo fagurrjóð í kinnum og svo himintöfrandi í feimni sinni, að Berkenfeld þoldi varla mátið og hnepti frá efsta hnappinum á brjósti sér.

En þið ætlið þó ekki að fara, herrar mínir, strax núna, segir Gottlieb.

Assessorinn hló—»Strax núna? klukkan er hálfgengin tvö«.

Nú jæa, sagði Gottlieb, hvað gerir það þá til? Fyrir lukkunnar börn er klukkan ekki til.

Herra Berkenfeld stundi við.

— Komið þér, Berkenfeld, sagði assessorinn, hann stóð með hattinn í hendinni, við getum ekki verið

þektir fyrir það.................................

.................................................

Báðir inir síðastnefndu voru komnir út á stræti. Tunglið skein á snjólögð húsþökin. Leiguvagn nokkur keyfaði þar fram hjá, seinfær og höktandi.

— Jeg ætla að fá vagninn þarna, sagði assessorinn. Og hvað var það nú sem jeg ætlaði að segja: hættið þér að hugsa um hana Emmý litlu Róland; þér hafið svo ekki nema vanvirðu af því, maður sæll! hann Róland er ekki sá einfeldnings garmur, sem við fyrst í hégómadrambi okkar ætluðum. Jeg segi yður satt, Berkenfeld, upp frá þessu kvöldi ber jeg meiri virðingu fyrir Róland en jeg gerði áður.

Haldið þér þá kannske að öðruvísi hafi farið fyrir mér en yður, sagði Berkenfeld —, Emmý er inndæl. *rosa senza spine*[1], hún er guðdómleg, en þér segið satt: *lasciate ogni speranza voi ch'intrate*[2].

Hann benti um leið á húsdyrnar, sem þeir voru komnir út um.

— Það verður víst það hyggilegasta, sagði assessorinn og sté upp í vagninn.

Lautenautinn leit ennþá einusinni angurblíðum augum upp til glugganna og tautaði þetta fyrir munni sér meðan hann gekk ofan eptir strætinu:

»Öfundsverður maður: Tvö þúsund dala laun á ári, fimm af hundraði af öllum ágóðanum, tengdafaðirinn »miljónéri«, konan inndælisleg,—og svo hefir

---

1) Rós án þyrna.

2) Þér, sem inn gangið varpið frá yður allri von. Þessi orð lætur Dante í kvæði sínu Inferno (Helvíti) vera letruð yfir hlið helvítis og eru þau orðin að máltæki.

maðurinn þessar ógurlegu herðar, en jeg ætla samt ekki að gera hann að ólánsmanni«.

*(Stgr. Th.)*

---

# Snarræði af stúlku.

## Sannur viðburður.

(Þýtt úr dönsku)

Þegar jeg kom til Kaupmannahafnar fyrir nokkrum árum, var jeg einu sinni á gangi á Kóngsins-Nýjatorgi seinni part dags með gömlum kunningja mínum.

Hjer um bil rjett fyrir utan »Hestinn« mættum við kvennmanni, sem förunautur minn tók ofan fyrir, og sem mjer virtist svo auðkennileg útlits, að mjer varð ósjálfrátt að líta við og horfa á eptir henni.

Hún var há og grannvaxin, í sorgarbúningi, gekk ofur-hægt og horfði alltaf niður fyrir sig. Hún leit út fyrir að vera ekki eldri en lítið yfir þrítugt í mesta lagi, og var þó hvít fyrir hærum; ekki gráhærð, heldur snjóhvít á hár.

Hún var fríð sýnum, en frámunalega föl í andliti og undarlega döpur í bragði og raunaleg.

»Hvaða kvennmaður er þetta?« spurði jeg.

»Það er frændstúlka mín, sem hefir orðið fyrir mjög raunalegum forlögum«, svaraði hann.

»Á, hvernig þá?—jeg vona þú fyrirgefir mjer, þó

jeg spyrji svona; mjer fannst svo mikið um útlit hennar; þetta er ekki af algengri forvitni fyrir mjer«.

»Jeg skal gjarnan segja þjer söguna af því, hvernið það atvikaðist, að hún varð svona« svaraði hann; »en það er ekki hægt hjerna úti á götu, því sagan er nokkuð löng. Ef þú hefir tóm til annað kveld, þá komdu út eptir til mín. Okkur hjónin hefir hvort sem er langað til allt af síðan þú komst að fá þig til að vera hjá okkur eina kveldstund í góðu tómi«.

Það vildi svo vel til, að jeg hafði hvergi ráðið mig kveldið eptir. Mjer hafði komið til hugar að bregða mjer í leikhúsið. Nú þótti mjer miklu meira í varið að heyra sanna sögu, að öllum líkindum einmitt af því tagi, sem leikskáldunum er vant að takast upp á.

Jeg kom út eptir þangað sem þau áttu heima, kunningi minn og kona hans, klukkan hálf átta um kvöldið. Það var úti á Austurbrú. Þau tóku mjer með hóglegri, fölskvalausri alúð, sem er manni svo notaleg. Þau áttu tvær telpur, allra-skemmtilegustu börn.

Eptir að búið var að borða, settumst við að ósviknu, skozku viskí-toddíi, með góðan vindil, en húsfreyja við prjóna sína; það voru sokkar, svo litlir, að jeg þóttist sjá, að þeir væru ætlaðir einhverju enn þá smávaxnara heldur en yngri telpunni.—Það var kalt og dimmt úti, en inni, þar sem við vorum, bæði hlýtt og bjart og notalegt.

Síðan hóf húsbóndinn þannig sögu sína:—

Fyrir nokkrum árum var frændstúlka mín, þess sem við mættum í gær, í kvennaskóla hjer í Khöfn. Hún heitir Ebba G . . . ., og við erum systkinabörn.

Hún átti vinstúlku í skólanum, sem hjet Lára B . . . og var handan af Jótlandi. Þær voru jafnöldrur, rúmlega 18 vetra. Þær voru mestu mátar. Það sýndi sig síðar, að það var meiri veigur í vináttu þeirra en vanalega gerist, þegar ungar stúlkur bindast vináttuheiti »í lífi og dauða«. Ebba sýndi það að minnsta kosti, og það rækilega.

Nú leið veturinn og vorið kom og sumarið, og þar með sumarleyfið.

Lára hafði misst foreldra sína í æsku, en föðurbróðir hennar tekið hana að sjer. Hann átti gamalt höfuðból á Jótlandi, og bjó þar. Lára bauð nú vinstúlku sinni að koma með sjer þangað og vera þar mánaðartíma um sumarið. Ebba þáði boðið feginsamlega.

Það var einn góðan veðurdag í júlímánuði, að þær stallsystur lögðu af stað frá Khöfn með gufuskipi til Árósa og komu daginn eptir þangað sem Lára átti heima. Þar var þá fyrir frændi Láru, sonur húsbóndans, ungur stúdent, nýkominn heim í sumarleyfið, og með honum tveir kunningjar hans og lagsbræður, stúdentar eins og hann; stundaði annar læknisfræði, en hinn lögvísi.

Nú var glatt á hjalla og kátt í kotinu. Unga fólkið gerði ekki annað en leika sjer og skemmta á ýmsa lund. Meðal annars, var eins og gerist, haft til gamans að leika hvort á annað og hræða hvort annað.

Undir eins fyrsta kvöldið barst í tal um reimleika. Það átti að vera reimt þar á bænum, eins og vant er á gömlum höfðingasetrum, og sjer í lagi var ekki hlífzt við að reyna að telja hinum ungu meyjum trú um reimleikann. Þær áttu sem sje að sofa í »turn-

klefanum«, er svo var nefndur, og þar áttu vofurnar að vera vanar að hafa sína bækistöðu.

En þær ljetu það ekki á sjer festa og þóttust hvergi hræddar. Það var líka satt og ekkert raup; þær voru hvergi hræddar við »reglulegan« reimleika, en grunaði hins vegar, að þeim mundi varlegra að vera við búnar við uppgerðum draugagangi; það þóttust þær sjá á augnaráði þeirra karlmannanna sín á milli.

Það var því ráð Ebbu, að þær fengju sjer eitthvað í hendurnar, hvað sem í kynni að skerast. Þær laumuðust út þegar þær voru búnar að bjóða góðar nætur, og fengu sjer sitt bareflið hver, ósvikna lurka. Gengu síðan öruggar til rekkju, upp í turnklefann, og var mjór stigi upp þangað úr litlum göngum rjett hjá eldhúsinu.

Það stóð heima.

Skömmu eptir að þær voru háttaðar, í gríðarstóru rúmi, »himinsæng«, sem stóð á miðju gólfi með höfðalagið upp að veggnum, fór að heyrast undarlegur skruðningur í stiganum fyrir utan. Það var eins og gengið væri um og dregnir eptir sjer fæturnir. Svo heyrðist hringlað í járnhlekkjum og strokið eptir veggnum fyrir framan dyrnar.

Ebba hvíslaði að stallsystur sinni, að hún skyldi vera alveg róleg; »það er svo sem auðvitað« mælti hún, »að það eru þeir piltarnir, hann frændi þinn og lagsmenn hans, og ætla að reyna að gera okkur hræddar. En þeir skulu nú ekki einu sinni eiga þeim sigri að hrósa, að við förum að kalla í þá. Við skulum láta eins og ekkert sje um að vera«.

»En ef þeir koma nú inn hingað?« sagði Lára.

»Það þora þeir ekki; og gjörist þeir svo djarfir,

þá er ekki annað en við reynum að snara yfir okkur pilsunum, bregðum okkur fram á gólfið, og lumbrum á þeim með lurkunum. Þú skalt ekki vægja þeim, þú þarft ekki að skipta þjer af, þó þú sjert fáklædd, það er nærri því koldimmt hjer inni, þó nóttin sje björt«.

Þær lágu nú grafkyrrar stundarkorn. Svo varð allt hljótt og kyrt, og voru þær ekki ónáðaðar frekar þá nótt.

Þegar þær komu til morgunverðar daginn eptir, gekk mikið á með spurningum um, hvernig þeim hefði sofnazt um nóttina.

»Ágætlega«, sögðu þær.

»Ekki varar við neitt óhreint?«

»Nei, ekki minnstu vitund; við heyrðum reyndar einhvern kátlegan skruðning, en það var svo áþreifanlegt, að það gátu ekki verið vofur; og við erum hreint ekki hræddar, eins og við erum búnar að segja; við höfum góða samvizku, og því sofnast okkur vel«.

Ebba var allt af fyrir svörum.

Svo var hlegið og gamnað sjer, svo ótæpt sem gerist þar sem ungt fólk er saman komið, fjörugt og kátt, í sumarleyfi uppi í sveit.

Nóttina eptir varð ekkert tíðinda.

»Ekki skulum við marka það«, mælti Ebba. »Það er ekki öll nótt úti enn. Við megum eiga það víst, að þeir eru ekki af baki dottnir enn. En þeir skulu fá fyrir ferðina«.

Það kom þriðju nóttina.

Þær stallsystur fóru um kvöldið, þegar þær voru búnar að bjóða góðar nætur, með húsfreyju upp í svefnherbergi hennar, til að skrafa þar við hana í góðu tómi,

og var orðið mjög fram orðið, þegar þær fóru upp að hátta í turnklefann, ljóslausar, eins og vant var.

Þegar þær luku upp hurðinni, sáu þær hvíta vofu, hræðilega útlits, rísa upp bak við rúmið og standa grafkyrra.

Lára rak upp hljóð, og Ebba gat ekki að sjer gert, að hún hrökk við. En hún áttaði sig að vörmu spori. »Nú, nú, lurkana á hann undir eins, og prófum, hvort skepnan hefir hold og blóð eða ekki«. Þær óðu að draugsa með urkana reidda og ljetu þá bylja á skrokknum á honum eptir því sem þær höfðu orku til.

»Æ, æ, hver þremillinn; æ, lemjið þið ekki svona miskunnarlaust«, hrópaði vofan með fyllilega mennskum róm —; »æ, æ, æ!« Hún stökk út æjandi og veinandi, og skildi eptir haminn, hvíta slæðu, sem Ebba hafði kippt í all-knálega.

»Hana nú, þar gerðum við hvítt að svörtu«, mælti hún og hló; »það hefði raunar átt að vera öfugt, því mjer sýndist ekki betur en að það væri laga-júristinn, sem við kræktum þarna í«.

»Jú, það var víst hann«, sagði Lára; »aumingja manntetrið; jeg lamdi æði-þjett«.

»Jeg segi þjer satt, að jeg dró ekki úr höggunum heldur. En það var honum mátulegt. Það er skárra uppátækið, að ætla að fara að hræða úr manni lífið. Hann getur held jeg látið það bíða þangað til hann er orðinn prókúrator eða eitthvað þess háttar«.

Lára stundi við ofurlítið; henni fannst hún þó hafa orðið heldur þunghent; og það einmitt á honum, laga-júristanum. — — —

Morguninn eptir var hann með bláa rák um þvert andlitið.

»Æ, hvað er þetta, hafið þjer meitt yður?« spurði Ebba.

»Já, jeg datt út úr rúminu í nótt«.

»Það var ljóta slysið; annars höfum við ekki átt sjerlega væra nótt heldur. Við máttum berjast við ferlega vofu, og komum henni á flótta að lokum við illan leik. Sálin rauk út um dyrnar, en hjer er hýðið; því hjeldum við eptir«. Og hún rjetti fram hvítan vöndul.

»Hver þremillinn er þetta?« mælti húsbóndinn. »Heyrið þjer, laga-júristi: svei mjer ef jeg tók ekki betur eptir en að það vantaði aðra rekkvoðina í rúmið hjá yður í morgun, þegar jeg kom inn að kalla á yður«.

Nú varð hlátur mikill og spurningar. Loks varð sakadólgurinn að gera játningu sína. Því rjeð hlutkesti, að hann skyldi gera draugaganginn í þetta skipti.

Eptir þennan atburð urðu hinar ungu meyjar, er höfðu reynzt svo hugprúðar, ekki varar við neinn draugagang. Þau nutu nú öll ótæpt þeirrar ánægju og glaðværðar, sem skemmtilegt sveitalíf getur í tje látið á sumrin.

Það fór hjer sem optar, að það af þessu fólki, sem helzt vildi vera saman, þá atvikaðist það einhvern veginn svo, að það lenti optast nær saman. Hvað sem farið var, hvort heldur var ekið, gengið, riðið eða farið á bát, þá mátti jafnan sjá son húsbóndans við hlið Ebbu, en sjálfsagt hlutskipti lagamannsins að hjálpa Láru á bak eða upp í vagninn eða út í bátinn. Læknisfræðingurinn stundaði sjálfan sig og tóbakspípu sína; sjer í lagi lagði hann mikla alúð við píp-

una; og hjónin gömlu horfðu glöð og ánægð á, að unga fólkið skemmti sjer.

Þannig liðu meira en þrjár vikur, og fór þá að síga á seinni hlutann af sumarleyfinu.

Einn góðan veðurdag í ágústmánuði gengu þær stallsystur seint til rekkju í turnklefa sínum.

Lára sofnaði undir eins, en Ebba lá lengi vakandi og gat með engu móti sofnað. Henni var einhvern veginn svo undarlega órótt, og gat hún með engu móti skilið í því, hvernig á því stæði.

Hún bylti sjer á ýmsar hliðar í rúminu. Loks hugsaði hún sjer að hún skyldi reyna að liggja grafkyr og vita hvort hún gæti ekki komizt í værð með því móti. Hún lá góða stund með aptur augun, en rak þau upp allt í einu og einblíndi beint fram undan sjer.

Hún sá manns höfuð gægjast upp fyrir fótagaflinn á rúminu, og horfa á sig milli sparlakanna hvasst og stöðugt. Það gat engin missýning verið; hún sá andlitið skýrt og greinilega; maðurinn var fölleitur, svartskeggjaður, svarteygður og inneygður. Það var tunglskin og því hálfbjart innan um herbergið.

Í sama bili rumskaði Lára dálítið í svefninum, og þá hvarf höfuðið.

Ebba lá grafkyr ofurlitla stund. Hún var dauðhrædd, sem von var til, en hafði þó alla rænu, og hugsaði sig um glöggt og vandlega.

Gat þetta verið sjónhverfing? — — Nei, nei, hún sem var glaðvakandi og heyrði þar að auki greinilega, að fötin strukust við gólfið og rúmbotninn, þegar maðurinn mjakaði sjer inn undir það hægt og gætilega.

Nei, hjer gat ekki verið um tvennt að tefla. —

Henni rann kalt vatn milli skinns og hörunds. Þetta var fullkomið hræðsluefni, og henni datt í hug, að hrópa á hjálp.

En hún áttaði sig undir eins aptur. Yrði maðurinn undir rúminu þess áskynja, að þær hefðu orðið varar við sig, mundi hann láta það verða sitt fyrsta verk að fyrirfara þeim, eða að minnsta kosti að ganga svo frá þeim, að þær gætu ekki kallað á hjálp. Henni hefði verið lafhægt að stökkva fram úr rúminu og út um dyrnar, því þær voru hennar megin við rúmið. En þá hefði verið úti um Láru.—Nei, aldrei skyldi það verða, hugsaði hún með sjálfri sjer; annaðhvort skyldi hún reyna að bjarga þeim báðum eða þá láta eitt yfir þær ganga.

Hún hugsaði sig um litla stund enn. Það var eins og allt væri á flugi í huga hennar. Síðan tók hún til að ræskja sig og bylta sjer á ýmsar hliðar, til þess að vekja Láru. En hún svaf fast.

»Æ, jeg er svo fjarskalega þyrst«, kveinaði Ebba. »Lára, Lára, ætli það sje ekkert vatn hjerna uppi?«

Lára svaf eins og steinn. Nú fór Ebbu ekki að verða um sel.

»Lára, Lára«, sagði hún og ýtti við henni; »mjer er svo illt!«

Loks fór Lára að rumska. »Hvað gengur á?« spurði hún milli svefns og vöku.

»Mjer er svo illt í hálsinum«, sagði Ebba. »Jeg má til að fá vatn að drekka; það er eins og jeg ætli að kafna; og kalt má vatnið til að vera, blákalt endilega«.

»Það er víst ekki annað vatn hjer uppi en í þvottakönnunni«, svaraði Lára; »það vildi einmitt svo illa

til, að stúlkunum hafði gleymzt að koma með vatnsflöskuna upp hingað í gærkveldi«.

»Ekki drekk jeg úr þvottakönnunni; komdu með mjer ofan í eldhús eptir flöskunni«.

»Æ-i nei, lofaðu mjer að vera kyrri; jeg er svo fjarskalega syfjuð«, svaraði Lára og var hálf-úrill.

Ebba var í standandi ráðaleysi. »Jeg þoli ekki við fyrir þorsta; jeg er hreint fárveik. Þú mátt til að koma með mjer; jeg þori ekki að fara ein. Við sem komum svo undir eins aptur, þá geturðu haldið áfram að sofa. Þú mátt til að gjöra það fyrir mig, að koma með mjer«.

Hún fór fram úr rúminu í hægðum sínum, og Lára á eptir, svona seint og bítandi.

»Við þurfum ekki að vera í meiru en þessu sem við erum«, mælti Ebba; »við komum undir eins aptur«. Svo fóru þær út í nærfötunum, og ljet Ebba Láru ganga á undan.

Hurðin var úr eik og járnslá mikil fyrir að utan. Þurfti ekki annað en bregða slánni í keng í veggnum, og fjelli hún vel niður í kenginn, var það á einskis manns færi að brjótast út úr klefanum.

Þegar þær voru komnar út fyrir dyrnar, lokaði Ebba hurðinni og reyndi síðan fyrir sjer með hægð, hvort sláin fjelli vel í kenginn. Hún fann, að sláin var hálf-laus, og flýtti hún sjer í dauðans-ofboði að keyra hana niður í kenginn.

»Hvað ertu að gera?« spurði Lára.

»Guði sje lof; nú erum við hólpnar«, mælti Ebba; »það er maður undir rúminu inni«.

»Hvað ertu að fara með? Þú ert ekki með sjálfri þjer, Ebba. Þú ert veik, þú talar óráð«.

»Nei, nei, þjer er óhætt að trúa mjer, að það er

satt. Jeg var glaðvakandi og sá framan í hann. Hann var með svart skegg og blíndi svörtum glórunum á mig, frá fótagaflinum á rúminu, þangað til hann varð hræddur, þegar þú hreyfðir þig, og hvarf undir rúmið. Þú svafst svo fast; en jeg mátti til að hafa þig með. Komdu; við skulum flýta okkur og finna hann bróður þinn. Við verðum að gjöra allt sem við getum til þess að hann verði höndlaður, þessi kauði, sem er þarna inni«, mælti Ebba og benti á dyrnar.

Nú varð Lára býsna-skelkuð. Þær brugðu yfir sig regnkápum sínum, og flýttu sjer ofan þangað sem húsbóndinn svaf, og börðu þar hart að dyrum, til þess að vekja hann.

»Hver er þar?« kallaði hann út.

»Það erum við; flýtið þjer yður í eitthvað utan yfir yður og komið þjer út; við megum til að tala við yður undir eins«, svaraði Ebba.

»Hvern þremilinn viljið þið mjer þá? Hvað re að?«

»Fyrir alla muni, komdu, góði bróðir« kallaði Lára inn; »það er maður uppi í turninum«.

»Maður uppi hjá ykkur? Hvaða bull er þetta«.

»Það er alveg satt; það liggur maður undir rúminu uppi; jeg hefi sjeð hann með mínum eigin augum«, kallaði Ebba.

»Hvaða vitleysa er þetta; þið hafið sjeð ofsjónir; farið þið nú upp aptur og látið mig hafa næði. Þið getið fengið einhverja af stúlkunum með ykkur og kveikt á ljósbera; þá er líklegt að þið getið ráðið við vofuna þá arna, þegar þið eruð þrjár«.

»Í guðs bænum, trúið þjer mjer!« kallaði Ebba.

»Komið þjer út og látið þjer vekja vinnumennina; jeg get svarið, að það er satt, sem jeg segi«.

»Hver þremillinn er á ferðum? Þeim erfull alvara, heyrist mjer. Nú skal jeg koma. En guð hjálpi ykkur, ef þið eruð að gabba mig«.

Að lítilli stundu liðinni kom hann út alklæddur með ljósbera í hendinni.

»Nú, það er satt; einhver fjandinn er á seyði, því þið eruð náfölvar báðar tvær«.

Ebba sagði honum nú upp alla sögu, og loks, hvernig hún hafði farið að loka kauða inni í turnklefanum.

»Það var laglega gert; það líkar mjer«, sagði húsráðandi; »bíðið þið við hjerna stundarkorn, meðan jeg er að safna liði«.

Ebba settist niður; hin voðalega geðshræring, sem hún hafði orðið fyrir, bar hana nú ofurliða; hún skalf og titraði öll saman, og mátti Lára til að styðja hana. Hún reyndi eins og hún gat að harka þetta af sjer og tókst það von bráðar.

Það var hálf-óskemmtilegt, þessi bið þarna. Loks kom húsráðandi aptur, með stúdentana alla þrjá og tvo vinnumenn. Leggur nú allt þetta lið af stað upp að turnklefanum.

Þegar þau komu að stiganum, nam Ebba staðar.

»Nú verður að hafa mestu varúð við«, mælti hún og varð ósjálfrátt litið á son húsráðanda. »Í Guðs bænum ljúkið þið ekki upp, fyr en við erum búin að skipa okkur öll í tvær raðir, sína til hvorrar hliðar, og sá sem lýkur upp, verður að standa á hurðarbaki. Það má búast við, að hann hafi eitthvað í höndunum, og mun þá ugglaust skjóta út um dyrnar, í því skyni að ryðja sjer þannig braut«.

»Nú, jeg segi ekki nema það« mælti húsráðandi, »að stúlkan sú arna, hún gerir okkur minnkun, karlmönnunum; hún hefir meiri fyrirhyggju og snarræði til að bera heldur en við allir saman. Þetta er gott ráð, og því skal fylgja«.

Það leyndi sjer ekki á augnaráði sonar hans, að honum fannst ekki minna um frammistöðu Ebbu en gamla manninum.

Þau gengu hægt og hljóðlega upp stigann og skipuðu sjer síðan eins og Ebba hafði ráð til lagt. Þau voru öll með öndina í hálsinum.

Húsráðandi tók sjálfur slána frá hurðinni og lauk henni snöggt upp; staðnæmdist síðan á hurðarbaki.

Í sama bili riðu af fjögur skot hvert á fætur öðru. Kúlurnar smugu inn í vegginn á móti dyrunum. Að vörmu spori hentist maður út úr dyrunum í stóru stökki, til þess að komast að stiganum, en var þrifinn á lopt áður og keyrður niður og höndlaður við illan leik, áður en hann gæti komið fyrir sig stórum kníf, sem hann hafði í hendinni.

Það varð þögn litla stund, svo að ekki heyrðist annað en másið eptir átökin.

Það sást nú við birtuna úr ljósberanum, að þetta var meðalmaður á vöxt, en samanrekinn, fölur í andliti og með mikið skegg, svart að lit. Hann litaðist um með heiptarsvip.

»Þarna sjáið þið, að jeg hafði rjett fyrir mjer« kallaði Ebba upp; »jeg vissi að hann var þarna inni; jeg sem sá framan í hann með svart skeggið við fótagaflinn!«

Áður en þess yrði varnað, vatt bandinginn sjer að henni, og mælti, skjálfandi af bræði:

»Það er þá þú, sem jeg á þetta upp á; það er þú,

sem ert orsök þess, að jeg verð nú að fara í tukthúsið aptur! — Já, það er ekki til neins að ætla sjer að leyna því, að jeg brauzt út fyrir nokkru úr tukthúsinu í Vebjörgum.—En varaðu þig«, mælti hann og ógnaði Ebbu; »þig skal ekki undan draga hefnd minni. Hefnd vil jeg hafa, og jeg mun finna þig, hvernig sem þú felur þig. Þú mátt loka þig inni, jeg skal brjótast inn til þín, hvort heldur er á nóttu eða degi; þó þú farir út á enda veraldar, þá skal jeg samt finna þig. Jeg hefi brotizt út einu sinni, og skal sýna, að jeg get gjört það einu sinni enn til þess að hefna mín á þjer;—jeg skal« . . . . . hann færði sig einu feti nær henni, en í því bili fjekk hann högg framan í andlitið, svo að hann reiddi við aptur á bak og blóðið lagaði niður um hann. Það var sonur húsbóndans, sem höggið greiddi, með staf, sem hann hafði í hendinni.

Við þá sjón leið Ebba niður allt í einu, og heyrðist hvorki til hennar stunur nje hósti. Hún var borin inn í rúmið í turnklefanum, en farið með bandingjann leiðar sinnar.

Hún var milli heims og helju vikum saman. Hún lá lengi mjög þungt í taugaveiki; þessi voðalega nótt hafði tekið það á hana, sem ekki var furða.

Bandinginn var morðingi, sem hafði verið dæmdur af lífi, en líflátinu síðan breytt fyrir konungs náð í æfilanga hegningarvinnu. Það komst upp í rjettarprófunum, að honum hafði verið kunnugt um hýbýlaskipun þar á bænum, hann hafði verið þar við smíðar einhvern tíma; hann var járnsmiður. Hafði hann ætlað að fela sig í turnklefanum, er hann hugði mannlausan, og leita síðan fyrir sjer um nóttina eptir fötum og peningum til þess að geta kom-

izt af landi burt. Hann hafði orðið þess áskynja, að húsráðandi mundi hafa mikla peninga undir höndum um það leyti, sem opt bar til; hann seldi mikið af hestum og nautum. Hann vissi, að peningarnir voru geymdir í skrifstofu hans, en hún var einmitt í sama endanum á húsinu sem turnklefinn. Hann var nýkominn inn þangað, þegar hann heyrði stúlkurnar koma upp stigann, og hafði þá eigi sjeð annað ráð vænna en að fela sig undir rúminu. Hann var hið mesta illmenni, og feilaði sjer ekki við að játa, að hefði hann orðið þess áskynja, að þær hefðu orðið varar við sig, mundi hann hafa skilizt svo við þær, að þær kynnu eigi frá tíðindum að segja. — Hann hafði viljað komast af landi burt, og þarna var hann kominn í bezta færi til að ná sjer í fje til þess. Hann hafði sí og æ á vörum voðalegustu bölbænir yfir stúlkunni, sem hafði ónýtt ráð hans og komið honum í tukthúsið aptur.

Í þessari löngu legu varð hár Ebbu hvítt sem mjöll. Hún hresstist á endanum nokkurn veginn að líkams burðum, en varð aldrei jafngóð á geðsmunum. Hún þjáðist af sífelldri hræðslu og kvíða og sá hinar voðalegustu ofsjónir, og klifaði sí og æ á hinu sama, að hún bað sjer verndar fyrir illmenninu, sem sæti um líf sitt. Hún þóttist sí og æ og alstaðar sjá sama andlitið, fölleitt og svartskeggjað og með svörtu glórurnar.

Henni batnaði ekki, hvað sem til var reynt. Loks var farið með hana á Bidstrup, og þar var hún í mörg ár.

Það var leitað allra bragða að friða hana. Henni var sagt, að illmennið, sem henni stóð þessi skelfilega ógn af, væri nú allt af í fjötrum og gæti því

með engu móti grandað henni. Henni var sagt, að hana hefði iðrazt og heitið að hyggja aldrei á hefndir framar. En það reyndist allt árangurslaust.

Þá kom einum lækninum það ráð í hug, að hann fór inn til hennar og lagsmenn hans tveir með honum einn góðan veðurdag, er verið var að hringja klukkum í Hróarskeldu, svo að glöggt heyrðist út í Bidstrup. Hann lauk upp glugganum hjá henni, til þess að klukknahljóðið heyrðist því betur inn.

Hann tók til máls, og sagðist vera kominn til þess að láta hana vita, að þessi, sem hefði ofsótt hana svo lengi, hann sje nú dauður. »Þjer heyrið klukknahljóðið«, mælti hann; »það er nú verið að hringja hann til grafar. Nú hafið þjer ekkert að óttast framar«.

Hún leit upp og hlustaði. Svo fórnaði hún saman höndum.

»Guði sje lof!« hrópaði hún upp. Síðan setti að henni óstöðvandi grát.

Þá fjekk hún vitið aptur, en þjáðist þó af megnu þunglyndi, og það losast hún líklega aldrei við.

Lára er nú gipt lagamanninum; bróðir hennar er dáinn, og Ebba er hjá ekkju hans, er hefir flutt sig hingað til Kaupmannahafnar.

Sonur þeirra tók við búinu eptir föður sinn látinn. Hann er ókvæntur og verður það líklega meðan hann lifir. —

Svo lýkur þessari sögu.

*(B. J.).*

---

# Klukkur Lóretókirkjunnar.

Eftir *Neruda*[1].

Það eru orðin nokkur hundruð ár eða lengra síðan að bláfátæk ekkja ein átti heima í *»nýja heiminum«*; svo nefnist einn partur af Prag.

Hvað dugði það, þó að hún væri sívinnandi og héldi spart á; hún átti svo mörg börn.

Allir vita, að margar klukkur eru í Lóretókirkjunni; jafnmörg börn átti ekkjan, og hún nefndi þau líka Lóretóklukkurnar sínar.

Þá hljómuðu klukkurnar ekki með svo miklu afli sem nú á tímum; þær mörkuðu eyktir dagsins; þær stærri hringdu á stundamótum, þær smærri á fjórðungamótum stunda.

Ekkjan sagði, að klukkurnar sínar heima væri alveg eins; þær stærri hafa nokkura biðlund, enn þær smærri eru sí-rellandi.

Ekkjan átti einn grip, enn ekki heldur fleiri; það var band með silfurpeningum á; þeir voru jafnmargir og börnin hennar.

Bandið var frá auðugri guðmóður og móðirin geymdi það sem minningarfje barna sinna.

Þá kom upp í Prag næm sýki, sem mest lagðist á fátæklinga, og þeir sögðu í örvæntingu sinni, að hin-

1) Czechneskt skáld í Bœheimi (Böhmen).

ir ríku hefði vakið hana með eitri, til þess að fækka hinum fátæku.

Loksins kom sýkin á heimili ekkjunnar; elzti pilturinn lagðist.

Móðirin ætlaði að örvílnast af sorg, því að hún elskaði öll börnin sín jafnt, og henni kom ekki í hug, að ef hún misti börnin sín, mundi áhyggjum og mæðu létta af henni.

Hún gat ekki borgað lækni, enda sá hún líka, að þeir höfðu of mikið að gera til þess, að nokkur þeirra færi að ómaka sig til hennar. Það liðu varla tvær stundir áðr en barnið fór að búa sig inn í annan heim.

Þegar aumingja móðirin sá, að hún gat ekkert hjálpað, tók hún upp bandið með silfrpeningunum, leysti af þann stærsta og hljóp með hann til Lóretókirkjunnar.

Litlu síðar gall við stærsta klukkan—sveinninn lá í andarslitrunum;—það var dánarklukkan hans.

Þá skröltu líkvagnarnir liðlangan daginn fram og aftr um Prag, staðnæmdust við hverjar húsdyr og tóku þar við líkunum; og þegar komið var nóg á vagninn, var ekið út í kirkjugarð að stórri safngröf. Daginn eftir gekk aumingja ekkjan á eftir líkvagninum, til þess að sjá að minsta kosti, í hvaða gröf barnið hennar yrði lagt.

Þegar hún kom heim, lá annað barnið hennar, yndisfalleg, glóhærð stúlka, veik eins og bliknuð rós. Að tæpum tveim stundum liðnum hljóp móðirin með annan pening til Lóretókirkjunnar.

Og svona fór það á hverjum degi. Peningr eftir pening hvarf af bandinu, og sífelt gullu færri klukkur í turni Lóretókirkjunnar.

Móðirin var sokkin í þögla örvænting; hljóð rölti hún á eptir líkvagninum út í hinn geigvænlega náreit, og máttvana heim þaðan aftr til þess að veita næsta barninu nábjargirnar.

Við lát seinasta barnsins brá hún þögninni; það var yngsta barnið hennar. Þegar síðasta klukkan gall við í kyrkjuturninum, hélt hún að hjartað sitt ætlaði að springa.

Hún fylgdi síðasta barninu sínu til grafar; enn þegar hún var komin heim, fann hún að hún var líka orðin sjúk; hún hneig ofan á rúmfletið, þar sem hún hafði séð allan sinn auð líða undir lok.

Þarna lá nú aumingja ekkjan hjúkrunarlaus; hún hafði engan sem rétti henni vatnssopa. Eina huggunin hennar var, að hún þurfti að minnsta kosti ekki að lifa lengi börnin sín.

Ósegjanlegr hiti brendi allan líkama hennar; loks fann hún, að undarleg máttþrot færðust um alla limu hennar; það var eins og lífið liði burt úr þeim hverjum á fætr öðrum.

»Æ, blessuð börnin mín«, andvarpaði hún, »ykkur hefi eg fylgt til grafar, enn mér mun enginn fylgja. Eg lét dánarklukkuna hljóma yfir ykkur, enn hver mun láta hana hringja yfir mér?«

Óðara en hún hafði þetta mælt, dundu við hljómandi allar klukkur Lóretókirkjunnar. Þær glumdu með sívaxanda afli, fagrt, eins og það væri englaraddir.

»Það eru sálir blessaðra barnanna minna«, sagði móðirin í hljóði — og dó.

Upp frá því hljóma klukkur Lóretókirkjunnar.

[*Jónas* prestr *Jónasson* þýddi].

# Kvæði.

---

## Ástin.

(Þýzkar þjóðvísur).

Engin blossandi blys
Geta brunnið svo heit
Sem ástin hin leynda,
Er enginn af veit.

Engin rós, engin lilja
Svo yndisleg grær
Sem elskanda sálir,
Þá una saman tvær.

Haltu hreinum spegli
Fyrir hjartað í mér,
Svo að séð þú getir,
Hve sviklaust ann eg þér.

*(Stgr. Th.)*

---

## Hinn föðurlausi.

(Serbneskt).

Í miðju marardjúpi
Rís meitilbjargið hvíta,
En hátt á hvítu bjargi
Sig hefur eikin græna.

Þar aumur synti' eg yfrum
Og eik með höndum spenti:
Æ, viltú ei, vænleg eikin,
Nú verða að mínum föður?

Og mundu' grænar greinar
Sig gera að björtum höndum,
Og blöðin grænu breytast
Í blíðust kærleiks orðin?

Æ, brátt eg burt fór þaðan
Og beiskust feldi tárin,
Því eikin vænleg vildi
Ei verða að mínum föður.

Og ekki grænar greinar
Sig gerðu' að björtum höndum,
Og blöðin græn ei breyttust
Í blíðust kærleiks orðin.

*(Stgr. Th.)*

---

## Til móður minnar.

(Magyariskt).

Um himinn máninn heiðri sveif á nóttu,
Við háa lind[1] eg stóð á skógar veg;
Á munarvængjum sál mín sem í draumi
Þá sveif til þín, mín móðir elskuleg!

Og þakkargjörð eg glaður bjóst að syngja
Til guðs er lét mig þig að móður fá;
Þá hreyfði tréð sinn topp og eg nam þagna
Og talað heyrðist bifðum greinum frá.

---

1) Linditré.

»Eg smátré var á veiku bernsku skeiði,
Er voðastormur feldi mig að grund;
Þín móðir batt mig; góður guð þess minnist
Hvað gæzkurík hún var mér alla stund!«

Og heyr, þá kvað við næturgali' í greinum:
»Mig grimmir drengir veiddu á þessum stað,
Þín góða móðir gaf mér aumum lífið,
Og gaf mér frelsið; himinn launi það!«

Og fiðrildin og fuglar, tré og blómin
Mér fundust móður lofið kveða þá:
Sá einn, sem bar þó bezta þökk að færa,
Þitt barnið stóð og hlýtti þögult á.

*(Stgr. Th.)*

---

## Sorgin.

(Eftir Petöfi[1]).

Hvað er sorgin?
Hafið stóra.
Hvað er gleðin?
Hafs þess perla.
Fyr enn upp í ljósið
Eg lypt geti henni,
Brotnar hún í höndum
Og á burt er horfin.

*(Stgr. Th.)*

---

1) Þjóðskáld Magyara.

# Skólalíf á miðöldunum.

Á miðöldunum var jafnan kvikt á þjóðbrautum um alla Norðurálfu af ungum mönnum, er skunduðu þangað sem einhverjar kennslustofnanir voru. Þeir hópuðust saman eins og flugur að bíflugnabúi í þeim borgum, þar sem lærdómurinn átti sjer heimkynni, svo sem í Öxnafurðu, París, Bónóníu (Bologna), Salamanca og Prag. Það bar ósjaldan við, að þeir voru töluvert fleiri en bæjarbúar sjálfir; í París er tala þeirra gerð 50-100 þúsundir, og ýmsir rithöfundar segja svo frá, að þegar hinn nafnfrægi prófessor Jóhann Hoffmann var rekinn frá háskólanum í Prag, fyrir tilstilli Húss, þá hafi um 40,000 stúdenta slegizt í förina með honum. Þó voru þetta alls ekki einu háskólarnir, sem til voru; það voru líka háskólar, og þeir nálega eins frægir, í Orleans, Montpellier, Padua og Leipzig, og á 15. öld voru stofnaðir 24 nýir, þar á meðal háskólinn í Kaupmannahöfn. Af óæðri kennslustofnunum var til mikill sægur, því að hverri dómkirkju og hverju klaustri fylgdi skóli. Þar að auki var altítt, að prestar til sveita hjeldu kennslupilta, til þess að auka með hinar rýru tekjur sínar.

Í Danmörku var smámsaman stofnaður latínuskóli í hverjum kaupstað hjer um bil, og var svo mikil aðsókn að þeim, að á tímum siðbótarinnar voru t. d. hjer um bil 900 lærisveinar í Hróarskeldu-

skóla, 700 í Rípum o. s. frv.; en kennslan var mjög ljeleg og notaðar til hennar harla ófullkomnar latínskar kenslubækur, svo að þeir, sem vildu taka sjer betur fram, urðu að leita til annara landa, eins og Íslendingar gerðu í þá daga. Frá Danmörku leituðu menn einkum til París og Bologna, sjer í lagi til París; þar var jafnvel stofnað sjerstakt *Collegium Dacicum* (Danmörk var nefnd á latínu *Dacia*), og það bar til, að danskir námsmenn komust þar til svo mikilla metorða, að þeir voru gerðir að rektorum við þann fræga háskóla. Allt þetta sýnir, að þeir voru miklu fleiri en menn ímynda sjer almennt, sem leituðu sjer fræðslu og menntunar á miðöldunum, og raunar miklu fleiri heldur en nokkurn tíma síðan um siðbótina og til þessara tíma. Jafnhliða því, sem þessi mikli viðburður hafði gott í för með sjer, fylgdi honum meðal annars víða sá mikli ókostur, að þar með fór forgörðum öll sú skólaskipun, sem smám saman hafði komizt á stofn á löngum tíma, án þess að annað kæmi í þess stað beinlínis.

Þegar mannlegt fjelag fór að komast í skorður aptur, eptir hin miklu umbrot og byltingar, er voru undanfari miðaldanna, tóku menn að hafa mætur á fróðleik og menntun aptur, og hvar sem kennari gaf sig fram, mátti hann eiga víst, að að honum safnaðist fjölmenn sveit lærisveina, sem óx óðum, ef nokkuð kvað að honum. Hann varð því að byrja skóla sinn þar, sem lærisveinarnir áttu hægt með að afla sjer nauðsynja sinna; en með því að vandfenginn var staður, þar sem hinar tíðu landplágur á miðöldunum, drepsótt og hallæri, eigi gerðu vart við sig að öðru hvoru, eru þess mörg dæmi langt fram eptir öldum, að kennarar og lærisveinar fluttust frá ein-

um stað til annars til þess að leita sjer fæðis og húsnæðis. Þó rjeð það engan veginn úrslitum um skólastað. Færi mikið orð af kennara, barst það fljótt til annara landa, og varð hann því að hafa aðsetur á einhverjum þjóðkunnum stað og þar sem var auðsótt að hvaðanæfa; því er á skömmum tíma orðið nóg um kennara í öllum helztu borgum í vestanverðri álfunni.

Landstjórnendur og borgarar sáu sjer annars vegar góðan hag að þessum skólum og leituðu eptir á margan veg, að þeir tækju sjer stöðuga bólfestu. Voru skólunum í því skyni veitt mikil forrjettindi og hlunnindi; þau voru upphaflega ætluð kennurunum sjálfum, en loks námsmönnum líka, og sumstaðar voru þau jafnvel látin ná til þjóna námsmanna. Þessi forrjettindi jukust svo og margfölduðust, að á 13. öld var í þeim fólgin undanþága frá alls konar sköttum, frá varðhaldi og fjárnámi, og sömuleiðis undanþágu frá almennu varnarþingi, jafnvel í sakamálum; enginn hafði rjett til að lýsa banni yfir háskóla nema með sjer stöku leyfi frá páfanum, og árið 1158 gaf Friðrik keisari hinn fyrsti út brjef þess efnis, að námsmenn mættu ferðast leyfislaust um ríki sitt, og lagði bann fyrir að taka þá fasta fyrir skuldir eða glæpi á leið þeirra úr skóla eða í. Jafnvel á dögum Karls V. þóttu þessi forrjettindi svo mikilsverð, að þau voru sett í mikilvæga samninga ríkja á milli. Í friðarsamningnum í Madrid (1526) hljóðaði ein greinin um það, hvað miklar skaðabætur háskólinn í Burgos ætti að fá fyrir tjón það, er hann hafði hlotið af ófriðnum, og í annari grein skuldbindur Frakkakonungur sig til að skila aptur lausnar-

gjaldi því, er þýzkur höfðingi einn hafði orðið að greiða fyrir sonu sína, er stunduðu nám við háskólann í París, en höfðu verið teknir fastir í upphafi ófriðarins, þvert á móti einkarjettindum þeirra.

Það var eigi fyr en löngu eptir siðbótina, að þessi forrjettindi voru afnumin; forrjettindi Parísarháskólans t. d. voru í fullu gildi þangað til 1592, að borgarstjórinn var í fyrsta sinn undan þeginn að vinna þann eið, er heimtaður hafði verið af fyrirrennurum hans í hálfa fjórðu öld: »að hafa í heiðri og vernda af öllum mætti forrjettindi hinna lærðu bræðra«. Á Englandi voru einkarjettindin enn yfirgripsmeiri; þau veru nefnd »hlunnindi hinnar andlegu stjettar« og voru um langan aldur hinn versti þröskuldur fyrir allri löggæzlu; því þau voru svo löguð, að fyrir þau gat hver sá, sem var bænabókarfær, framið að minnsta kosti einn stóran glæp að ósekju.

Það hefði auðvitað ekki verið gaman að hafa stjórn og reglu á þessum mikla sæg af námsmönnum, sem skiptu tugum þúsunda, þó að vel hefði verið í garðinn búið; en það var öðru nær. Háskólarnir voru um langan aldur lítið annað en iðnaðarfjelög, er voru mestmegnis til þess gerð að bægja öðrum út í frá frá arðsömum embættum, og lærdómsnafnbætur voru nokkurs konar vottorð um, að þeir, sem höfðu fengið þær, hefðu rjett til að reka þess konar atvinnu. Það bar mest á rektor og öðrum embættismönnum háskólans fyrir það helzt, að þeir höfðu forustuna á hendi, er verjast skyldi árásum á hin gegndarlausu forrjettindi fjelagsins; að öðru leyti höfðu þeir eigi mikið að segja, enda var þar lítið um lögbundna stjórnarskipun.

Sjaldan var mikið um gott samkomulag meðal háskóladeildanna sín á milli, og utan endimarka kennslusalanna hagaði hver sjer hjer um bil eins og honum sýndist, bæði kennarar og lærisveinar. Það var og eigi við öðru að búast; það var lítið um húsakynni, er voru sjerstaklega til þess ætluð að halda þar fyrirlestra, og þau fáu, sem til voru, voru ætluð fátækum stúdentum eingöngu. Því var það algengast, að kennslan fór fram í herbergjum, sem kennarinn hafði leigt sjer til þess sjálfur, og var það fyrirkomulag miður hentugt til að draga saman og efla vald kennaranna. Herbergi þessi lágu og opt á versta stað í borginni, og að vitni de Vitry kardínála var sumstaðar skóli upp á lopti í sama húsinu, þar sem vændiskonur höfðu sína bækistöðu niðri.

Líferni stúdenta var og engin sjerleg fyrirmynd. Það var almennur siður, að margir lögðu saman og gerðu með sjer löguneyti, tóku yfir sig stjórnarmann eða formann, og var það optast einhver stúdent, sem var kominn lengra áleiðis í námi sínu en hinir. Þeir höfðu til skiptis það hlutverk, einn í senn, að útvega vistir og matreiða; á meðan voru hinir að lesa með handleiðslu formannsins. Þetta, að hinir ungu menn, sem þar á ofan höfðu sjer til varnar stórkostleg einkarjettindi, voru látnir ganga þannig alveg sjálfala, var mikið hættuspil; en þar á ofan bættist ýmislegt annað, er að því studdi, að gera þá ósiðuga og slarkfengna.

Fyrst og fremst voru æðimargir ekki námsmenn að öðru en nafninu einu, heldur í raun og veru flakkarar, sem höfðu stúdentabúninginn fyrir skálkaskjól til þess að smeygja sjer undan ábyrgð fyrir mis-

verknað sinn; væru þeir dregnir fyrir veraldlegan dóm, skutu þeir sjer undir dóm andlegrar stjettar manna, af því þeir væru stúdentar, en þegar þar kom, synjuðu þeir fyrir það. Stundum var þriðjungur þeirra, er áttu að heita stúdentar við einhvern háskóla, ekki annað en þannig vaxnir þorparar. Í öðru lagi voru kennararnir opt og tíðum harla ljeleg fyrirmynd; ýmsir hinir frægustu lærimeistarar á miðöldunum höfðu á sjer mjög laklegt mannorð. Politian, kennari hinna frægu Medicis-höfðingja, og sem Flórenzborgarmenn mikluðust mjög af, var einhver hinn mesti lærdómsmaður á sinni tíð, en jafnframt hinn versti slarkári. Eptirmaður hans, Crinitus, var hálærður maður, en enn þá ósiðugri; hann hlaut þann dauðdaga, að hann var í svalli með lærisveinum sínum og var rotaður þar af einum þeirra í ölæði. Annar af þessum hálærðu og mikilsmetnu mönnum, Bartholmæus Socinus, var alræmdur spilamaður. Enn er einn nefndur, er Eóbanus hjet og var hinn mesti afreksmaður við drykk; hann skoraði einu sinni á annan frægan drykkjurút til kappdrykkju við sig og gekk af honum dauðum. Það var svo algengt á miðöldunum, að kennifeður væri hneigðir til ofdrykkju, að þar sem nú er sagt, að maður sje svínfullur, þá var í þá daga komizt svo að orði: »Hann er fullur eins og guðfræðingur«. Þetta er engan vegin orðum aukið. Ef vjer eigum að taka það trúanlegt, sem þeir segja sjálfir frá, t. d. í brjefum sem þeim Poggio Bracaliano og Philelphus fóru á milli, eða þeim Abailard og Foulkes, eða því sem stendur í æfisögu Cardans eptir sjálfan hann (hann var frægur læknir og tölvitringur á 16. öld), og taka

góða og gilda lýsingu þeirra á sjálfum sjer, þá getum vjer eigi álitið þá annað en erkibófa.

Sjaldan var gott samkomulag með hinum lærðu mönnum og hinum ólærðu borgurum í fyrri daga. Óspektir námsmanna og forrjettindi þeirra annars vegar, og heimtufrekja hinna fyrir það sem þeir ljetu í tje, fæði og húsaskjól, var sífellt ófriðarefni. Það var eingöngu ábatinn, sem bæjarmenn höfðu á stórum skóla, er sætti þá við að hafa hann innan sinna endimarka, og eins var hið hins vegar neyðin ein, er kenndi stúdentum að gera sjer að góðu að hafa bæjarmenn nærri sjer. Hvenær sem færi gafst, leituðust hvorirtveggju við eptir mætti að jafna hver á öðrum með spjótum og bareflum. Það bar til í Öxnafurðu árið 1209, einhverju sinni, er stúdentar voru að reyna íþróttir sínar, að kona hlaut bana fyrir óhapp, er einn þeirra var valdur að. Risu þá bæjarmenn allir upp sem einn maður væri og rjeðu á skála þann, er stúdentinn átti heima í. Þeim tókst eigi að hafa höndur á honum, en tóku í hans stað þrjá lagsmenn hans og hengdu þá. Þeir aftóku síðan að greiða neinar bætur fyrir þetta ofríkisverk. Stúdentar gerðu sjer lítið fyrir og yfirgáfu bæinn allir saman, fengu síðan páfa til að leggja á borgina bann hið meira, og hóta hverjum kennara bannfæringu, er dirfðist að leita atvinnu í Öxnafurðu fyr en borgin hefði bætt að fullu fyrir misverknað sinn.

Svo lauk, að bæjarmenn urðu að lækka seglin. Þeir kynnu ef til vill að hafa þolað nokkuð lengur að vera án kirkjulegra athafna. En atvinnumissirinn var þeim óbærilegur. Málalokin urðu þau, að stúdentar hurfu aptur til borgarinnar og höfðu þá hálfu meiri forrjettindi en áður. I þá daga lauk

viðureign stúdenta og borgara jafnan á einn veg, þann, að borgarar urðu að láta sinn hlut fyrir stúdentum, optast nær með þeim hætti, að hervald skarst í leikinn; borgararnir voru upp festir á gálga, en stúdentar, er höfðu einkarjettindi sín sjer til varnar, sluppu óhegndir. Áflog og barningar voru dagstæð tíðindi, hvar sem lærðir skólar voru. Stundum urðu úr því mannskæð vígaferli. Árið 1236 rjeðu borgarmenn í Orleans á háskólamenn þar, drápu nokkra og köstuðu þeim í ána (Leiru). Frændur hinna föllnu, göfugir aðalsmenn, fóru þegar og hefndu þeirra; þeir hjuggu borgarmenn niður sem hráviði.

Á Ítalíu, einkum í Bologna, var um hríð svo mikið djúp staðfest milli lærðra manna og leikra, að prófessorarnir fyrirbuðu stúdentum að kvongast dætrum borgarmanna og leituðust við að gera háskólaembætti og háskólanafnbætur arfgengar hver í sínum ættlegg.

Hvergi kvað þó annað eins að óeirðum stúdenta eins og í París. Svo bar til einu sinni, árið 1229, að ölvaður stúdent óð með illindum upp á vínsala einn, af því að hann vildi eigi veita honum. Nágrannar vínsalans tóku hans taum, og slóst í barningar með þeim og stúdentinum og lagsmönnum hans. Stúdentar báru lægra hlut í það skipti. En morguninn eptir komu þeir aptur og höfðu þá fjölmennt. Þeir tóku vínsölubúðina herskildi, drukku upp það sem þeir gátu í sig komið af vínum, mölvuðu ílátin, flengdu vínsalana og þjónustumenn þeirra og gerðu sjer dælt við kvennfólkið í meira lagi. Hefðu þeir nú látið sjer lynda þetta gaman, svo grátt sem það var, mundu yfirvöldin, bæði andleg og veraldleg, að líkindum hafa látið það afskipta-

laust. En í ölæðinu og ofsanum ljetu þeir eigi þar með staðar numið, heldur fóru og lömdu á öðrum bæjarmönnum, hverjum sem þeir gátu hönd á fest. Bæjarmenn tóku sig saman, völdu þá úr sínum hóp, er verst voru útleiknir, og sendu þá á fund Blönku drottningar, er þá gegndi ríkisstjórn, í æsku sonar síns, Hlöðvis hins helga, að kæra mál sitt. Sendimenn lýstu vandlega hrakningum sínum fyrir drottningu og snýttu rauðu til sannindamerkis. Drottning reiddist, og bauð lífverði sínum að fara þegar til liðs við borgarmenn, og refsa vægðarlaust óeirðarseggjunum, er þeir næðust. Liðsmenn lögðu af stað og ljetu all-vígamannlega. Þeir spurðust fyrir, hvar fjandmenn sína væri að hitta. En er þeir urðu þess varir, að þeir skiptu þúsundum og höfðust við þar sem þrengst voru stræti í borginni, þá runnu á þá tvær grímur og hjeldu í gagnstæða átt. Svo átti illa til að takast, að þá bar þar að, er nokkrir friðsamir stúdentar, er eigi voru hót við rósturnar riðnir, voru að leikum, á velli einum fyrir utan borgina. En er hermenn litu þar stúdentabúninginn, svall þeim móðurinn og rjeðu á hina ungu menn, er áttu sjer einskis ills von, drápu nokkra, særðu marga og rændu alla, er þeir fengu hönd á fest, og fórst það allfimlega. Nú varð allt annað efst á baugi. Að borgarmönnum hafði verið misboðið og misþyrmt hremmilega, þess gætti nú eigi minnstu vitund; nú fengust allir um það eitt, hverjum vanþyrmslum einkarjettindi stúdenta hefðu orðið að sæta og kröfðust rjettlætis fyrir þeirra hönd með mikilli ákefð. Hver annar en drottningin, sem hefði átt í hlut, mundi hafa fengið að kenna á þessu tiltæki óþyrmilega. Það bakaði henni jafnvel mikla

áhyggju og skapraun, og hún varð að lægja sig til muna áður en háskólinn fengist til að gleyma þessari ávirðingu.

Að ekki var gaman fyrir einstaka menn að ganga á hluta hins lærða stórmennis, það vottar dæmi greifans af Savoisy. Hann var einn af vildarmönnum Karls konungs sjötta og mátti sín mjög mikils. Einhverjir skjólstæðingar hans höfðu komizt í ryskingar við nokkra stúdenta, í hátíðlegri prósessíu. Stúdentarnir höfðu upptökin. Þjónustumenn greifans eltu þá á flótta inn í kirkju og börðu þá þar. Svo voldugan sem greifinn átti að, þar sem var konungur sjálfur, varð hann fyrir stórútlátum fyrir þessar sakir, og varð að þola það bótalaust, að hús hans í borginni, veglegt skrauthýsi, var rifið að grundvelli.

Þetta var þungur kostur. Þó urðu þeir hálfu ver úti, borgarstjórarnir í París, ef þeim varð einhvern tíma á að fara með skólagengna þorpara eins og önnur illmenni og bófa, ef þeir höfðu framið eitthvert svívirðilegt ódæði. Árið 1309 var stúdent höndlaður, dæmdur og af lífi tekinn fyrir manndráp, eins og það hefði verið óbrotinn, óskólagenginn skálkur. Borgarstjórinn, er hafði látið rjettvísina ráða og eigi kunnað að gera mun á lærðum mönnum og dónum, hann fjekk að kenna á einfeldni sinni. Allri vísinda-iðju var hætt þegar í-stað, og öllum kennilýð borgarinnar stefnt saman í Bartolómeus-kirkju. Þeir flykktust þangað allir; dómprófastar, prestar og kanúkar lögðu lag við háskólalýðinn og gengu í feykilegri prósessíu þangað sem borgarstjórinn átti heima, með óteljandi krossa á lopti og merki í fylkingarbroddi. Þeir skutu hring um húsið og tóku til að æpa í sífellu:

»Yfirbætur! yfirbætur! bölvaður Satan! þú, sem svívirðir hina heilögu móður, kirkjuna! þú, sem níðist á rjettindum hennar! Yfirbætur, eða til helvítis með þig að öðrum kosti!« þessari hóglegu málaleitan fylgdi snörp grjóthríð á hurðir og glugga. Og er »bölvaður Satan« gat ekki komið því fyrir sig, hvernig hann ætti að fara að gera yfirbætur þar á sömu svipstundu, var hann þegar í stað bannfærður með hinum harðasta formála. En ekki var öllu þar með lokið. þegar hinni dökku sveit þvarr rómur og grjót þraut slíkt hið sama, var haldið áfram prósessíunni og gengið til hallar konungs, Filipps hins fríða, og hann krafinn rjettlætis með mikilli háreysti. Fyrst vildu þeir eigi láta sjer annað lynda eða minna en að borgarstjóri væri að vörmu spori upp festur á sjálfs hans gálga, þann hæsta er til væri. Konungur varð að þinga við þá langa hríð og fara bónarveg til þess að fá borgið lífi síns dyggva þjóns, og það með þeim skilmála, að »glæpamaðurinn væri þegar í stað rekinn frá embætti, látinn biðja háskólann fyrirgefningar á hnjánum, taka stúdentinn ofan af gálganum og kyssa hann á munninn, stofna tvö prestsembætti fyrir sálu hans, og fara pílagrímsför til Avignon og taka þar lausn af páfa«. Sömu forlög hlaut einn eptirmaður þessa borgarstjóra hundrað árum síðar, 1408, fyrir það, að hann var svo einfaldur að ímynda sjer, að »kunnugleiki hans á borgaralegum lögum veitti sjer heimild að hafa að engu lög heilagrar kirkju«, svo að hann ljet hengja tvo stúdenta, er höfðu ráðizt á nokkra kaupmenn á ferðalagi, rænt þá og myrt síðan. Með þessum hætti var valdsmönnum kennt að gera mun á lærðum og leikum í þá daga.

Þetta ásigkomulag hjelzt lengi fram eptir. Til dæmis er þess getið í dagbók embættismanns eins í Valence frá árinu 1560, að hann minntist eigi þess, að svo hafi liðið nokkur nótt samfleytt átta ár undanfarin, að stúdentar þar í borginni hafi eigi framið einhverja óhæfu. »Hver sá sem var úti staddur eptir að dimmt var orðið« segir hann, »mátti búast við að vera rændur og lúbarinn, og þakka fyrir, ef hann hjelt lífi«. Þar á ofan bar það við þrátt og einatt, að hús voru brotin upp á náttarþeli í útjöðrum bæjarins og stundum jafnvel í miðjum bænum, og alls konar óhæfa höfð í frammi við þá sem fyrir voru. Þetta og því um líkt átti sjer stað nærri því í hverjum bæ, þar sem var lærður skóli eða háskóli, og það var miklu fremur vegna stúdenta heldur en af hræðslu við óbrotna þjófa og ræningja, að fyrirskipað var, að hætta skyldi sjónarleikum stundu eptir nón á vetrum.

Í annan stað var sitt hvað það, er stúdentar höfðu sjer til skemmtunar, ærið grátt saman á stundum og rustalegt. Það var eitt, að þeir fylltu fjöðurstafi með óuota-fjenaði og höfðu á sjer, er þeir fóru í kirkju, og bljesu þessu út yfir söfnuðinn. Annar leikurinn var sá, að krækja kirkjufólkið saman með önglum, er það lá á bæn. Þegar út úr kirkjunni kom, var mesta mildi, ef það beinbrotnaði ekki af byltum; stúdentar höfðu makað feiti á helluna fram undan kirkjudyrunum. Þeir límdu skrípamyndir á kufla munka. Mest gaman höfðu þeir þó af að fara illa með næturverði með ýmsu móti: búa þá út sem afkáralegast, ef þeir hittu þá sofandi, eða binda þá í skoplegar stellingar; og gabba þá með öllu móti, ef þeir voru vakandi. Stundum tóku þeir sakamann af

næsta gálga og hengdu upp í merkis stað utan á hús einhvers bæjarmanns, er þeim var illa við, eða þá að þeir festu húsráðanda sjálfan upp í stað sakamannsins.

Stúdentar áttu jafnan í sífelldum ófriði við kennslupilta, þjónustumenn og dáta. Varð aldrei svo nokkurt uppþot eða róstur, að þeir flokkar þyrftu ekki að reyna með sjer.

Þá voru og stúdentar óvægnir flutningsmenn almenningsálitsins, og stóð fyrir þá sök óheppnum hershöfðingjum, ásælnum vildarmönnum og óvinsælum valdsmönnum töluverður ótti af þeim. Þeir voru jafnan boðnir og búnir að gera af slíkum mönnum afskræmislegar skrípamyndir eða brenna líki þeirra á báli, og eins að kveðja þá með ópi og óhljóðum eða snara á þá grjóti, ef svo bar undir.

Það voru eigi einungis hin gegndarlausu forrjettindi stúdenta á miðöldunum og hinar endalausu óspektir þeirra, er gerðu þá illa ræmda, heldur bættist þar á ofan flakk þeirra. Þeim var raunar nokkur vorkunn að því leyti til, fyrir þá sök, að hver háskóli stundaði sína vísindagrein; í París var guðfræðisnámið með mestum blóma, í Montpellier læknisfræði, í Bologna lögvísi og á hinum spænsku háskólum náttúruvísindin. Stúdentar urðu því að fara frá háskóla til háskóla til þess að fullkomna nám sitt, og fáir eða engir eru þeir afreksmenn í vísindum eða stjórnkænsku á miðöldunum, að eigi megi rekja feril þeirra álfuna af enda og á á námsárum þeirra. Thomas a Becket stundaði nám í Öxnafurðu, París og Bólogna; Dante í Padúa, Bólogna, París og Öxnafurðu; Sylvester páfi II. og Píus páfi II. vitjuðu enn þá fleiri háskóla; sumir, og þeir eigi fáir,

fóru jafnvel til Aþenu eða austur í Miklagarð að læra grísku, eða brutust jafnvel gegn um ótal torfærur austur í heim til þess að nema þar arabisku, er menn höfðu miklar mætur á í þá daga.

Annað það, er lærðum mönnum gekk til að vera svona víðförulir, var, að þá langaði til að sýna lærdóm sinn. Þeir sem kunnu mörg mál eða voru vel heima í mörgum vísindum, voru jafnvel eins áfjáðir að sýna yfirburði sína eins og hjegómlegt kvennfólk að láta dást að fegurð sinni. Það varð því tízka, að vel lærðir menn ferðuðust frá einum frægum háskólanum til annars til þess nð bera þar upp hugvitsamlegar hártoganir, einhverja kátlega sjervizku eða skrítilega fyndni, og skoruðu embættisbræður sína á hólm að þreyta við sig kappræður um það. Frægastur allra slíkra snillinga var Ferdínand frá Cordóva. Hann ljet sjá sig í París þegar hann var á 19. árinu, árið 1445, svo sem fyrirmynd karlmannlegs fríðleiks og það fyrirtak að lærdómi, að undrum gegndi. Hann kunni að mæla á allar þær tungur, er þá voru kunnar; hann var afbragðs-lagamaður; djúpsettur guðfræðingur; ágætur læknir; mætavel að sjer í tölvísi og stjörnufræði. Hann var jafnkunnugur ritum Galens, Avicenna, Hippókrates og Aristóteles eins og ritum frægustu meistara á sjálfs hans dögum[1]. Allan þennan óbotnandi lærdóm hafði hann svo vel á sínu valdi sem ekkert væri. Þar að auki var hann hinn

1) Galenus, Avicenna og Hippókrates voru frægir læknar, Galenus rómverskur, † 200 e. Kr.; Avicenna arabiskur, † 1037, og Hippókrates grískur, † 377 f. Kr; Aristóteles grískur heimspekingur og náttúrufræðingur, hinn frægasti í fornöld, † 322. Rit þessara manna voru aðalbrunnur allra þeirra vísinda á miðöldunum.

mesti kappi, jafn-óárennilegur með hjálm og brynju eins og í doktorskufli sínum:

„Við söðul gróinn sat hann fast
Og aldrei mundu skot hans skeika“.

Svo var hann og hverjum manni fremri í fögrum listum og íþróttum; hann söng manna bezt, danzaði, málaði, setti saman sönglög og ljek á hvers konar hljóðfæri hverjum manni betur. Orðstír hans flaug um víða veröld. Hann hrakti alla sem fóru í kappræðu við hann, varpaði hverjum manni til jarðar, er þreytti við hann turníment, og hafði ástir hverrar meyjar. Hann bar svo langt af öllum öðrum, að samtíðarmenn hans hugðu hann vera Satan sjálfan, og það styrkti þá í þeirri trú, að hann hvarf allt í einu, er frægð hans og vegur var sem mestur, og vissi enginn með hverjum hætti eða hvað af honum varð.

Kenningar þær, er þessir flakkandi kappræðugarpar höfðu gaman að koma upp með, voru opt mjög kátlegar, en urðu þó þrásækilega að mesta þrætuefni meðal hinna lærðu kappa. Það bar til margsinnis, að lærðir menn um alla Norðurálfu skiptu sjer í sveitir til sóknar eða varnar fyrir einhverri heimskulegri sjervizku eða kátlegum hjegóma, og vörðu hver sinn málstað í kennslusölunum eigi síður með stígvjeluðum hælum og stæltum hnefum en með munninum. Þeir sem biðu lægra hlut, voru reknir út úr salnum og stundum lengra; það var siður, er svo bar undir, að gjöra prófessóra háskólaræka tugum saman og stúdenta þúsundum saman. Á öndverðri sextándu öld var háskólinn í París önnum hlaðinn að þinga um það, hvort eigi væri jafnrjett að orði kveðið, að segja »*ego amat*« (jeg elskar)

eins og »*ego amo*« (jeg elska), og gerði sjer mikið far um að fá skorið úr því með »laganna máttugu aðstoð«, hver væri hinn rjetti framburður á stafnum «q«, með öðrum orðum: ætlaðist, til að gefin væri út um það tilskipun. Þó voru slík kappræðu-efni mesta skynsemi í samanburði við ýms önnur. Írskir stúdentar höfðu öðrum fremur orð á sjer fyrir hugvitsemi að búa til hártoganir og lag á að flækja menn í þeim. Á 8. öld píndu þeir alla kristnina með því að láta menn reyna sig á þessum snotra hugsunar-rembihnút: »Þú verður annaðhvort að játa eða neita, að persónurnar í guðdómlegri þrenningu sjeu þrjár verur. Játirðu því, ertu vafalaust þrígyðingur og trúir á þrjá guði, og neitirðu því, þá felur sú neitun í sjer, að ekki sjeu þrjár aðgreindar persónur í þrenningunni, og þá ertu áhangandi Sabellíus trúarvillings. Fyrir því, kæri vin, hvern kostinn sem þú kýs, þá ertu villutrúarmaður og átt þjer vísa eilífa glötun«. — Þessi hártogun fjekk hinum hálærðustu guðfræðingum í þá daga nóg að vinna. Og óðara en það var gleymt, komu írskir hugvitsmenn með annað nýtt ekki betra, og gekk þetta svo koll af kolli, þar til er Erigena (833—879), hinn frægasti spekingur Íra í þá daga, kom fram með algyðiskenningar sínar, er bökuðu guðfræðingum í þá daga mikið amstur og vandræði, en voru loks dæmdar trúarvilla á kennimannastefnu í París 1209.

Ferðalög voru enginn gamanleikur í þá daga, og mörg óþægindi samfara þessu hrökli til og frá. Minnstir urðu örðugleikarnir þeim sem nóg höfðu efni. En þeir höfðu þá annað mótlæti á stundum. Legðu þeir alvarlega stund á að fræðast, bar það við opt og tíðum, að þeir lögðu einmitt fyrir sig það nám, er

vandamönnum þeirra var minnst um gefið, stunduðu t. a. m. bókvísi í stað lögfræði, eða sökktu sjer niður í guðfræði, í stað þess að gefa sig allan við Avicenna og Galenus. Svo fór meðal annara fyrir Petrarca; faðir hanns brenndi fyrir honum ljóðmæli hans og ljet hann flytja sig frá einum háskóla til annars, í þeirri von, að ljóðagjörðar-ástríðan færi þá heldur úr honum. Hann var hlýðinn sonur föður sínum og gerði sjer allt far um að yfirbuga tilhneigingar sínar; hann lærði meðal annars *corpus juris* (lögbók Jústiníans) utanbókar, í þeirri von, að komast þá rækilega niður í alla leyndardóma lögspekinnar; en það varð allt árangurslaust; hann var skáld og átti að vera skáld og ekkert annað. Svipuðu mótlæti varð Boccacio fyrir; faðir hans ætlaði fyrst að gera úr honum kaupmann og síðan lagamann, en hvorugt vildi lánast. En enginn tók þó annað eins út og hinn nafnkenndi fræðimaður Tómas Aquinas, fyrir það, að hann var svo hneigður fyrir hugsunarfræði og guðfræði. Það var vandamönnum hans þvert um geð. Átti fyrst að fá hann ofan af því með góðu; en er það dugði eigi, var hann lokaður inni í tvö ár og ýmist beitt ávítum, svipuhöggum eða vatni og brauði til þess að honum snerist hugur; loks var hann látinn vera saman við unga stúlku og fríða, er átti að gera sjer far um að vekja ást hans á sjer; en hann stóðst það lævísa bragð jafn-öruggt eins og hrakninginn áður. Þá þóttist móðir hans sjá loksins, að ekki mundi til góðs að gera, kenndi í brjósti um hann og stillti svo til, að honum veittist færi á að strjúka og koma fram vilja sínum. Tigin ungmenni áttu þar að auki aðrar verri þrautir yfir

höfði sjer, er þeir hugðu á vísindaiðkanir. Styrjaldir heptu jafnaðarlega för þeirra, og aldrei var óhætt fyrir stigamönnum. Þeir sem eitthvað höfðu af að láta, voru þrásækilega rændir og misþyrmt á ýmsan vegu, t. d. bundnir við trje úti í skógi, eins og hinn frægi Anselmus af Kantaraborg, er stigamenn rjeðu á skammt frá klaustri sjálfs hans, Bec í Norðmandíu; ekki voru allir eins lánsamir og hann, að losna aptur, áður en úlfarnir eða kuldi og sultur gerðu út af við þá.

Megnið af þessum umrennandi vísindamönnum voru þó af almúgafólki, og fleyttu sjer fram á bónbjörgum alla sína skólatíð. Komust ýmsir þeirra síðan til æðstu metorða, urðu frægustu lagamenn, dugandi stjórnvitringar, ráðgjafar og jafnvel stundum páfar. Námstíð þeirra var eintómt andstreymi og mæða. Cervantes skáld talar eflaust af sjálfs sín reynslu, er hann lætur Don Quixote fara svo felldum orðum um raunir þeirra: »Eigum vjer að telja upp þrautir námsmanna, þá verður að nefna fátæktina fyrst og fremst. Þeir reyna volæðið í öllum myndum: kulda, sult og klæðleysi. Eitthvað fá þeir þó optast að nærast á, annaðhvort matarleifar af borðum ríkismanna eða brauðmola í klaustrunum, sem er hið síðasta og aumasta athvarf fátækra stúdenta; þeir hitta optast nær fyrir eitthvert hreysi, þar sem menn eru svo brjóstgóðir að lofa þeim að verma sig við hlóðarsteininn og hýrast undir þaki náttlangt. Jeg óska eigi að fá mjer til orða önnur óþægindi, er þeir eiga við að búa, svo sem skóleysi og að þeir verða að ganga í gatslitnum flíkum, eða hitt, að þeim er svo hætt við að jeta yfir sig, þá sjaldan hnífur þeirra kemur í feitt ket«.

Að þetta eru engar ýkjur hjá Cervantes, má sjá greinilega á eptirfarandi lýsingu á æfikjörum fátæks skólapilts, eins og þau voru um lok miðaldanna.

Thomas Platter var frægur lærdómsmaður á 16. öld, samtíða Lúter og Zwingli. Hann var fæddur í St. Gallen í Sviss. Hann var geitahirðir í æsku í átthögum sínum, þangað til hann var 9 vetra. En móður hans, sem var fátæk ekkja, langaði ákaflega mikið til, eins og margar mæður í þá daga, að einhver af sonum sínum yrði prestur; því það var almenn trú í þá daga, að ávarp engilsins við Maríu: Blessuð sjert þú meðal kvenna, ætti við allar mæður, er ættu prest fyrir son. Móðir Tómasar hafði nú bezta trú á honum af sonum sínum til slíkra hluta og kom honum í skóla hjá presti í nágrenni við sig. Hann lærði þar ekki annað en dálítið í söng, með því að það var klerki arðsvon; því undir eins og lærisveinninn var farinn að geta haft rjett yfir eitt sálmlag, var hann sendur út til þess að syngja fyrir dyrum manna til ölmusu sjer. Klerkur skipti sjer að öðru leyti ekki mikið af lærisveini sínum; hann gerði ekki nema hárreytti hann eða kippti í eyrað á honum, þegar illa lá á honum. Móðir Platters sá, að þessi kennsluaðferð mundi skammt duga til að gjöra prest úr syni sínum. Hún tók þá það ráð, að reyna að koma honum í munaðarleysingjaskóla. Frændi drengsins, er hjet Páll Sumermatter, piltur um tvítugt, stór og sterkur, og sem hafði verið í skóla nokkur ár, var þá staddur þar í þorpinu í kynnisför. Honum gaf ekkjan eitt gyllini til að taka Tómas litla að sjer og koma honum í stöfun um alla leyndardóma námsmannasamkundunnar.

Það var tízka í þá daga, segir Platter, að ungir menn, er vildu afla sjer menntunar, og þá einkum þeir, er bjuggu sig undir að verða prestar, ferðuðust til og frá, stundum einir, en opt og tíðum margir saman. Þeir voru optastnær bláfátækir, og höfði eigi annað ráð en að bjarga sjer á sníkjum, bæði á ferðalagi og við skólana. Ferðalangar þessir skiptust í tvo flokka. Hinir eldri og þroskaðri voru kallaðir *bakkantar* (flögrarar, brautingjar), hinir yngri *tiraillenrar* (skyttur, skotsveinar). Það var skylda brautingja, að kenna hinum yngri fræði sín, en þeir áttu aptur að þjóna hver sínum brautingja, fylgja honum hvað sem hann fór, sníkja fyrir hann, og, brygðist það, þá að »fara á veiðar,« sem kallað var, en það var að hnupla og stela eptir þörfum, hiklaust og blygðunarlaust. Þar var opt lítið um, að brautingjar hjeldu það sem þeim bar af samningi þessum; en vei þeim skotsveini, er vanrækti það sem honum var á herðar lagt. Hinir yngri voru þannig látnir þræla eins og skepnur, sníkja og stela, og venjast smámsaman hvers konar löstum; en brautingjar lifðu á sveita þeirra, áttu glaða daga, lifðu í sukki og svalli og voru opt og tíðum regluleg landplága þar sem þeir fóru um.

Þeir Platter og frændi hans slógust í för með nokkrum fátækum skólasveinum í Konstanz og hjeldu af stað til Breslau. Þeir voru níu saman, sex brautingjar og þrír skotsveinar. Leið þeirra lá um Augsburg, Regensburg og Prag. Smásveinarnir sníktu í bæjum og þorpum, er fyrir þeim urðu, og hinir sátu að krásunum í veitingahúsum. Af því að Platter var svo smár vexti og lítilsigldur, svo og fyrir

það, að hann var reglulegur Svissi, en þeir voru sjaldsjenir í þá daga austan til á Þýzkalandi, og þar að auki mörgum forvitni á að sjá þá sakir orðstírs þess og frægðar, er þeir höfðu hlotið í frelsisstyrjöld sinni, þá varð honum óvenju-vel til, þar sem hann beiddist ölmusu, og fjekk opt alls nægtir, þar sem aðrir gengu tómhentir frá. En hann hafði þess litlar nytjar sjálfur, því frændi hans hirti allt, sem hann viðaði að, og barði hann miskunnarlaust, ef hann gerðist svo djarfur að taka nokkuð handa sjálfum sjer. Hann ljet hann aldrei hafa hvíld, og þegar hann var uppgefinn af göngu, gekk Páll á eptir honum og lamdi hann á bera fótleggina með reyrpriki, er hann hafði í hendinni.

Þegar þeir fjelagar nálguðust Slesíu, fræddu brautingjar þjónustusveina sína á því, að það væri lög þarí landi, að fátækir námsveinar mættu stela gæsum, öndum og öðrum matföngum. Platter að minnsta kosti lagði fullan trúnað á þetta, og hlakkaði mjög til þeirrar stundar, er hann stigi fæti sínum í það land, og mætti neyta allra þeirra rjettinda og hlunninda hvað þjófnað snerti, er stjett hans væri þar aðnjótandi. Í fyrsta þorpinu, er þeir komu að í Slesíu, sáu þeir feita gæs vappa yfir veginn. Platter var eigi seinn á sjer og rotaði gæsina með steini, stakk henni síðan inn undir kufl sinn, og ljet sjer hvergi bregða, þótt eigandinn stæði þar rjett hjá og horfði á. Hann varð því mjög forviða, er tiltæki hans vakti megnasta uppþot, og þorpsbúar veittu þeim fjelögum eptirför með vopnum, til að heimta aptur ránsfenginn og refsa sökudólgunum. Þeir slepptu gæsinni og áttu fótum sínum fjör að launa. Síðan, er þeir ræddu þennan atburð með sjer, bar hinum öllum saman um það,

að slys þetta hefði verið því að kenna, að Tómas hefði ekki lesið bænirnar sínar um morguninn áður lagt var af stað. Samt voru ekki gerðar fleiri tilraunir til að neyta þessara frámunalegu forrjettinda, að minnsta kosti ekki svona í hvers manns augsýn.

Nokkrar dagleiðir frá Breslau urðu brautingjar ósáttir sín á milli og skildu, líklega vegna þess, að þar var svo tregt um aflaföng. Þeim gáfust svo illa aðdrættir þar, að við sjálft lá, að þeir mundu verða hungurmorða. Landslýður var þeim svo illa hlynntur, að þeir urðu optastnær að liggja úti undir berum himni á nóttum, og gætti svo vel fjármuna sinna, að hinum fengsælustu varð lítið sem ekkert ágengt. Í Breslau tók betra við, og þar lá við, að smásveinarnir ætu yfir sig, einkum Tómas.

Þeir hittu fyrir mörg þúsund blásnauðra skólasveina í Breslau, og hafði þar komizt á smámsaman auðkennilegt skipulag þeirra á milli. Bænum var skipt í sjö sóknir, og sinn skólinn í hverri sókn. Það var regla, að skólasveinar máttu aldrei sníkja annarstaðar en innan sinnar sóknar. Hittust þeir utansóknar í slíkum erindagjörðum, var þar óðara saman komin fjölmenn sveit busa úr þeirri sókn, er hrópuðu: »Á hann, á hann! *(ad idem, ad idem!)*«, og veittust að sökudólg með höggum og fótasparki, nema hann væri því fráari á fæti til undankomu, og slægjust brautingjar í leikinn, sem opt bar við, spannst úr þessu stórkostlegur bardagi á stundum. Það mátti sjá margan hrautingja í Breslau gráhærðan, segir Platter, er hafði lifað þar á skotsveinum sínum í 20, 30 eða jafnvel 40 ár. Platter var einstaklega heppinn í ölmusuförum, eins og vant var; hann var mjúkur og ísmeygilegur, og kom sjer inn undir hjá

öllum húsmæðrum. Það bar opt við, að hann kom alklyfjaður heim að kvöldi. Einu sinni bauðst efnamaður einn, er Platter hitti á beiningaflakki sínu, til að taka hann sjer í sonar stað. En því var ekki nærri komandi við frænda hans, og Tómas litli var svo vanur orðinn undir okið hjá þeirri landeyðu, að hann þorði ekki að þiggja boðið að honum fornspurðum. En jafnan átti hann athvarf hjá þessum manni og fór aldrei tómhentur af heimili hans, segir hann.

Á vetrum áttu skotsveinar sjer náttból á gólfinu í skólastofunni, en brautingjar í smáklefum, er skólanum fylgdu og skiptu hundruðum. En á sumrum höfðust smásveinarnir við úti á kirkjugarði á nóttum: hreiðruðu þar um sig í heyi. Kæmi skúr á þá þar, flýðu þeir inn í skólann, og þegar gengu þrumur og eldingar, sungu þeir sálma alla nóttina, en fyrir það fengu þeir optast einhverja aukagetu í ölmusugjöfum frá bæjarmönnum. Hvað námið snertir, þá varð smásveinum þar lítið ágengt, og Tómasi alls ekkert, og enginn skipti sjer neitt um siðferði þeirra. Hinir eldri námsmenn voru ekki út af eins vanræktir. Það voru níu kennarar, sem veittu þeim tilsögn, allir á sama tíma og í sama herberginu, hjer um bil á þessa leið: kennarinn las fyrst fyrir lexíuna, kafla úr einhverjum latínskum rithöfundi, og lærisveinarnir skrifuðu það upp, þýddu það og útskýrðu. Nokkrir guðhræddir menn höfðu tekið sig saman um að koma upp gistingaskála handa fátækum námsmönnum eingöngu, og þar var Tómas með köflum meðan hann dvaldist í Breslau; en svo var vistin þar, að honum þótti betra að liggja á gólfinu heldur en í rúmunum.

Áður margir mánuðir voru liðnir, komu svo margir fátækir lærisveinar til bæjarins, að Platter, svo fengsæll sem hann var, fór að eiga mjög örðugt með að fá ofan í sig. Tóku þeir sig þá upp þaðan, hann og brautingi hans, og sex aðrir með þeim, og hjeldu til Dresden, en komust í mesta basl á leiðinni og sultu heilu hungri. Skammt frá Neumark bjuggu þeir sjer náttból við brunn einn nærri borgarveggjum og kynntu þar eld sjer til hlýinda. Varðmenn sáu bálið og skutu á þá, en misstu þeirra. Þeir höfðu góða matarlyst fyrir því; þeir höfðu hnuplað sjer tveimur gæsum og töluverðu af rófum, síkt sjer út salt og ýmislegt fleira smávegis, og loks náð sjer í pott með einhverju móti. Þeir færðu sig um set, bakvið runna, matbjuggu þar og höfðu þar beztu veizlu. Síðan lögðust þeir til svefns þar undir trjánum og sváfu rótt um nóttina. Þeir vöknuðu um morguninn við ár-nið, gengu á hljóðið, fundu ána og meira að segja net í henni, fullt af silungi. Þeir hirtu veiðina og hjeldu leiðar sinnar. Þetta var mesti hátíðisdagur fyrir þá; því um kvöldið komu þeir til bónda, sem átti móður á lífi, er langaði ákaflega mikið til að sjá Svissa einhvern tíma áður en hún dæi; þeir nutu þar Platters og fengu beztu góðgjörðir hjá bónda ókeypis.

Eptir fimm ára flakk hurfu þeir fjelagar Páll og Tómas heim aptur til St. Gallen. Tómas hafði lært á þessu ferðalagi flestallar mállýzkur, er þá voru talaðar á Þýzkalandi, af því að hann var svo ungur, og sparaði nú eigi að sýna list sína. »Guð hjálpi okkur«, sögðu vandamenn hans, »hann Tómas okkar er svo lærður orðinn, að við skiljum ekki helminginn af því sem hann segir«. »Og þó«,

bætir hann við, »var jag ekki orðinn almennilega læs einu sinni«.

Að fám dögum liðnum lögðu þeir fjelagar aptur af stað, og hjeldu nú til Ulm. Þeir höfðu með sjer dálítinn dreng, er hjet Hildebrand Klabbermather. Vandamenn drengs þessa gáfu honum að skilnaði efni í kufl, og ímynduðu sjer, að honum mundi brátt takast að sníkja sjer út sem svaraði saumalaununum. »Það lánaðist okkur líka«, segir Platter; »af vananum var jeg orðin allra manna færastur í þeirri list að sníkja. Jeg sá á augabragði, hvernig húsbóndi eða húsfreyja mundu vera skapi farin, þar sem jeg kom; jeg vissi, hvenær jeg átti að skæla, og hvenær jeg átti að hlæja, hvar jeg átti að syngja og hvar jeg átti að vera framur, jeg sá strax á því, hvernig þau opnuðu munninn, hvað jeg mundi fá — hvort heldur barsmíðar, peninga eða matleifar«. Þeir fóru sjer samt hægt að láta sauma kuflinn; það hefði verið sama sem að skera fyrir sjer bjargargrip, og svo grunnhyggnir voru þeir ekki, þó þeir væri fátækir.

Eins og vant var varð Tómas litli að fá Páli í hendur allt sem honum áskotnaðist, og hann þorði ekki að snerta nokkurn bita nema með hans leyfi. Þar á móti át Hildibrandur nærri allt jafnóðum, sem hann náði í; hann var einstök hít. Það vakti grun brautingja, hvað lítið hann viðaði að. Þeir sátu því um hann og fengu staðið hann að glæp einu sinni. Það kvöld áttu þeir málstefnu með sjer allir, brautingjar og skotsveinar, ræddu þar brot Hildibrands með mikilli alvörugefni, kváðu síðan upp dóminn og fullnægðu honum samstundis. Brautingjar lögðu sökudólginn upp í rúm, stungu fati í munn honum,

til þess að ekki heyrðust í honum hljóðin, og hýddu hann vægðarlaust. Upp frá því þorði enginn af skotsveinum fyrir sitt líf að neyta nokkurs af aflafeng sínum í laumi; »þeir vildu heldur», segir Platter »taka bein frá hundum á strætum úti«. Hann lýsir átakanlega, hvaða þrautir hann varð að þola í Ulm: hungraður, kalinn og hrelldur í huga varð hann að syngja úti fyrir gluggum langt fram á nótt, með því að hann var hræddur við að koma heim með tvær hendur tómar og var jafnvel aldrei óhræddur um að verða eigi barinn, hvað heppinn sem hann var í aðdráttum. Hann minnist þakklátlega þess, er honum var gert gott, og nefnir einkum til þess gamla konu og guðhrædda, er var vön að núa á honum hendurnar til hita, vefja gæruskinni um fæturna á honum, þegar hann ætlaði að sálast í kulda og hjúkra honum á annan hátt.

Frá Ulm fóru þeir til München og höfðu þar tölavert upp úr sama bragðinu og áður: að sýna kuflsefnið og biðja að hjálpa sjer um eitthvað til að geta borgað saumalaunin og þurfa ekki að ganga klæðlausir þess vegna. En svo þegar þeir komu til Ulm ári síðar og höfðu enn til sýnir sama dúkinn og ljetu fylgja sömu söguna og áður, þá fór suma að gruna margt. »Hvað er þetta? Er þá ekki búið að sauma kuflinn þann arna enn?« sagði einn. »Burt með ykkur! þið eruð að gabba mann« sagði annar. »Jeg held þið verðið búnir að slíta henni út, kápunni þeirri arna, áður en farið er að taka að henni eitt spor«, mælti hinn þriðji, og hann gat nærri því sem var; því á því að flækja dúknum með sjer hvernig sem veður var og í ryskingum við aðra flakkara var öll ló slitin af honum og jafnvel komnar í hann rifur.

»Hvað um hann varð á endanum, veit jeg ekki«, segir Platter; »en það veit jeg, að það varð aldrei kápa úr því klæðinu«.

Þeir fóru aptur heim til St. Gallen snöggva ferð og hjeldu síðan aptur til München. Þegar þar kom, settust brautingjar þegar að í veitingahúsi, en ljetu skotsveina eiga sig. Þeir fengu hvergi húsaskjól og lögðust á kornpoka, er þeir sáu á torginu. Konur nokkrar, er fram hjá gengu, aumkuðust yfir þá, og gáfu þeim kvöldverð og næturgisting. Ein þeirra, sem var ekkja, vildi halda Platter hjá sjer, og hann hafðist við hjá henni nokkrar vikur. En brautingi hans mátti eigi án hans vera og leitaði hann uppi, reiður mjög. Platter varð lafhræddur, en ekkjan kenndi honum það ráð, að gera sjer upp veiki, og það bjargaði honum í það sinn. En þegar hann hvarf aptur til skólans, hjet Páll honum afarkostum, ef hann tæki upp á þess háttar aptur. Tómas vissi ofurvel, að brautingjar voru vanir að efna þess konar loforð, og hugsaði sjer því að strjúka. Hann fór aptur heim til ekkjunnar og dvaldist þar nokkra daga. Næsta sunnudag var hann snemma á fótum og ljezt ætla að bregða sjer í skólann til að þvo skyrtuna sína, en flýtti sjer í þess stað burt úr bænum. Hann þorði ekki að snúa heim til Sviss aptur, með því að hann þóttist vita, að Páll mundi leita sín í þá átt. Hann hljóp því í gagnstæða átt og yfir ána Isar. Þegar hann var kominn góðan spöl frá bænum, settist hann síðan og grjet beisklega.

Meðan hann sat þar grátandi, og vissi eigi hvað hann átti af sjer af gera, bar þar að bónda í vagni og fekk hann að aka með honum góðan spöl, en

gekk það sem eptir var til Salzborgar. Hjela var á jörðu, en strokumaður skólaus og húfulaus; treyjan langt of stutt og gatslitin, og var því lítið skjól að henni. Þess konar þrautir var hann þó vanur við og hjelt öruggur leiðar sinnar. Hann ætlaði að sníkja sjer út far ókeypis niður eptir ánni frá Salzborg til Vínar, en það tókst ekki. En ekki þorði hann að snúa aptur rakleiðis til München, og hjelt til Preissing; þar var skóli. Eptir nokkra dvöl þar var honum sagt, að »stóri brautinginn« frá München væri að leita hans, með atgeir í hendi. Hann flýði þegar í dauðans ofboði og hjelt til Ulm, hitti þar ekkjuna, er hafði miskunnað sig yfir hann áður, og var þar vel tekið; hún skaut skjólshúsi yfir hann heilt skólaár. Þá komst frændi hans á snoðir um, hvar hann var niður kominn og fór þegar að leita hann uppi. Það var eitt kvöld, að Platter frjetti til ferða frænda síns, að hann mundi kominn til bæjarins, og beið hann þá eigi boðanna og flýði sem fætur toguðu áleiðis til Konstanz. »Honum var töluverður tekjumissir að mjer«, segir Platter; »jeg hafði haft ofan af fyrir honum að miklu leyti í mörg ár, og því var honum ekki láandi, þó hann sækti fast eptirróðurinn«. En þeir hittust aldrei eptir þetta, og vita menn ekki, hvað um Pál varð á endanum. Máske hann hafi lagazt dálítið og orðið prestur, eins og svo margir aðrir slarkarar, sem Platter getur um, er komust á hempu, þótt þeir hefðu ekkert til þess að bera; eða þá að hann hefir verið brautingi alla æfi og útvegað sjer allt af nýja áburðarklára koll af kolli til að þræla út á flakki sínu háskóla frá háskóla.

Þegar Platter kom yfir um brúna hjá Konstanz

og sá þar hina svissnesku drengi á hvítu treyjunum þeirra, segist hann hafa verið eins sæll og hann hefði himininn höndum tekið. Hann hafði þó eigi lyst á að vera þar til lengdar, af því að þar var svo mikil umferð. Hann hjelt þaðan til Zürich og hitti þar nokkra brautingja frá St. Gallen og bauð þeim sína þjónustu í skotsveins stað. Margur mundi ætla, að hann hefði verið búinn að fá nóg af þess konar starfi um æfina. En hann langaði allt af til að verða stúdent og þá var honum nauðugur einn kostur að reyna að hafa ofan af fyrir sjer með þessu móti. Meðan hann var í Zürich, fjekk hann orðsending frá frænda sínum, er hafði gefizt upp að elta hann, og ljet nú fyrir berast í München. Hann hjet nú Tómasi fyrirgefningu, ef hann vildi hverfa heim aptur. Platter gaf því boði engan gaum, sem nærri má geta. Hinir nýju húsbændur hans reyndust að vísu eigi hóti betri, og strauk hann þá frá þeim, og slógst í för með dreng á hans reki, er Anthony Benetz hjet. Þeir fóru til Strassborgar, hittu þar mesta sæg af bláfátækum skólasveinum, en engan almennilegan skóla. Þeir hjeldu því þaðan til Schlettstadt. Á leiðinni þangað var þeim sagt, að það væri fullt af fátækum skólasveinum. Þóttu þeim það eigi góð tíðindi, og Benetz fór að gráta. »Jeg bað hann að vera hughraustan« segir Platter, »og sagði honum, að svo framarlega sem einn einasti fátækur skólapiltur gæti komizt af í Schlettstadt, þá treysti jeg mjer til að ala önn fyrir okkur báðum«. Þar byrjaði Platter fyrst á reglulegu námi af alvöru; hann var þá orðinn 18 vetra. En eigi leið á löngu áður en svo varð mikil aðsókn þangað af fátækum skólasveinum, að þeir fjelagar höfðu ekki ofan í sig

og urðu enn að taka sjer staf í hönd og halda þaðan. Þeir fóru þá til Solothúrn, og hittu þar fyrir góðan skóla, og nægilegt ofan í sig. En nú þótti Platter helzt útlit fyrir, að hann mundi aldrei endast til að ljúka við nám sitt, og rjeð því af að snúa heimleiðis og hætta við allt nám. »Hver fjandinn hefir teymt þig hingað?« spurði móðir hans; »ertu orðinn prestur?«—»Nei, það lán hefir ekki átt fyrir mjer að liggja«. —»Þú eyðir tímanum í flakk, í stað þess að læra eitthvað, og mjer ætlar aldrei að hlotnast það lán að verða prestsmóðir«. Þetta voru miður skemmtilegar viðtökur, enda hafði Platter eigi langar viðdvalir hjá móður sinni. Hann lærði þó að skrifa þar hjá presti einum í nágrenninu. Hann fór til Zürich, og þar hitti hann loks á kennara, sem hann hafði gagn af, og þar með var flakk hans á enda. Hann hjet Myconius og var allmikill lærdómsmaður. Hjá honum lærði hann latínu mikið vel. Hann varð og ágætur í grísku með tímanum, af sjálfs sín rammleik, og einnig vel að sjer í austurlandamálum. Loks varð hann sjálfur kennari og komst smátt og smátt hærra og hærra; varð á endanum frægur maður og andaðist í hárri elli; var þá rektor við háskólann í Basel.

Svo fór að lokum, að löggjöfin varð að skerast í málið og skakka leikinn með brautingjum og skotsveinum. Jóhann Georg af Sachsen t. d. bannar í tilskipun 1661 hinum eldri námsmönnum að fjefletta og misþyrma hinum yngri, og leggur þunga refsing við, ef út af er brotið.

Það voru þó engan veginn allir fátækir námsmenn, er urðu að lifa eingöngu á bónbjörgum. Margir unnu fyrir sjer með einhverri list, er þeir höfðu

numið. Það var víða, að námsmenn þekktust eigi síður frá öðrum á hljóðpípu sinni og fiðlu en bók og blekbyttu, og þeir sem ekki voru náttúraðir fyrir söng, bættu úr þeim annmarka með því að gjörast listamenn í því að segja sögur. Mörgum gazt svo vel að þeirri iðju, að þeir kusu hana heldur en prestskapinn. Það var engan veginn ljeleg atvinna, væri hún vel stunduð, eða með öðrum orðum: ef sögumaður kunni að segja frá hinum nýjustu tíðindum, og einkum ef hann kunni hin nýjustu ljóðmæli eptir eitthvert frægt skáld, er þá var uppi. Um slíka menn fer Petrarca þessum orðum: »Gæddir góðri minnisgáfu og iðni, en ófærir til að yrkja sjálfir, hafa þeir yfir annara ljóðmæli yfir borðum höfðingjanna og þiggja gjafir fyrir. Þeir gera sjer einkum far um, að geta glatt áheyrendur sína með nýjungum. Opt leita þeir mjög á að fá hjá mjer ljóðmæli mín hálfbúin; jeg veiti þeim opt afsvar, en stundum kenni jeg í brjósti um þá og læt að bæn þeirra. Það eru ekki mikil útlát fyrir mig, þótt það sje mikill hagur fyrir þá. Margir, sem komu til mín bláfátækir og klæðlausir, og sem jeg veitti áheyrn, heimsóttu mig síðan til að þakka mjer fyrir hjálpina og voru þá klyfjaðir gjöfum og klæddir silki«. Það voru þessir menn, er afbragðs-rithöfundar á miðöldunum áttu það að þakka, að frægð þeirra barst svo víða og svo fljótt.

Aðrir fátækir stúdentar gerðu sjer að fjeþúfu hjátrú manna í þá daga. Margur prakkarinn fjekk fulla pyngju sína og nestispoka með því að tauta fyrir munni sjer eitthvað, sem enginn skildi, yfir nýsánum akri eða fjelegum grísum, eða með því að rita einhver ritningarorð á bókfellspjötlu, er bera

skyldi um hálsinn. Þetta gerðu eigi einungis fátækir námsmenn, heldur var það og altítt fyrir munkum í þá daga; þeir verzluðu drjúgum með þess konar verndargripi, til mikillar glötunar gömlum handritum, er fóru þannig forgörðum hrönnum saman. Sá stúdent, sem kunni þá list, að rekja forlög manns eptir afstöðu himintungla á fæðingarstundu hans, átti jafnan vísar góðar viðtökur, hvar sem hann kom. Slíkir garpar koma mjög við sögur og æfintýri á miðöldunum. Einn er látinn segja fyrir, að það eigi að liggja fyrir barni að drýgja dauðasök, og er svo látinn lifa það, að hann kveður upp sjálfur dóminn. Stundum, þegar mikið gekk á og lýðurinn var í uppnámi, rjeðust þessir umrenningar jafnvel í að fást við fjölkynngi. En með því að þeir kunnu lítt til þeirrar listar, fórst þeim hún miður úr hendi en skyldi að jafnaði. Eitt dæmi þess meðal annars er í frásögur fært, er við bar í Dijon, á þeim árum, er Karl konungur sjötti var brjálaður. Gáfu sig þá fram þar í borginni tveir stúdentar, Poinson og Briquet, og ljetust hafa komizt fyrir, hver væri undirrót að veiki konungs, og fundið ráð við henni. Þeir settust í skóg einn þjettan skammt frá borgarhliðum og tóku þar stór gjöld af lýðnum; þorðu fáir að færast undan þeirri kvöð, til þess að því yrði eigi um kennt, ef miður tækist að lækna konung. Þeir ljetu smíða tólf stoðir geysimiklar og jafnmargar festar, og stóran kranz, allt úr járni. Stoðir þessar ljetu þeir reisa upp þar úti í skógi, binda við þær festarnar og setja kranzinn ofan á. Að þessu verki var verið svo vikum skipti. Galdramennirnir ljetu sjer það vel líka; þeir lifðu í allsnægtum á meðan. Þegar allt

var loks undirbúið, var ákveðinn dagur, er seiðurinn skyldi framinn. Þusti þá að múgur og margmenni úr öllum áttum að horfa á býsn þau og stórmerki, er þar voru í vændum. Þegar múgurinn var saman kominn, kváðu galdramenn nauðsyn til bera að taka tólf menn úr hópnum og binda þá við stoðirnar meðan á seiðnum stæði, og mundi þá Djöfullinn koma og hafa einn þeirra á burt með sjer. Fjöldi manna blíknuðu við þessi tíðindi; en áður en mannþyrpinginn væri búinn að átta sig á að hafa sig til vegar, þá voru lesin upp nöfn tólf hinna helztu borgara í bænum, þar á meðal fógeta, og stóðu þeir allir í kreppu innst í mannhringnum. Leið eigi á löngu, áður en þeir voru allir komnir inn á milli súlnanna, sumpart undan olbogaskotum hinna og sumpart af því, að þeir sáu að hjer var ekkert undanfæri. Galdramenn bundu þá nú við stoðirnar og tóku síðan til að tauta eitthvað fyrir munni sjer og danza, og mannsöfnuðurinn með, þangað til allir voru orðnir uppgefnir, galdramennirnir sjálfir líka. En ekkert varð tíðinda; Djöfullinn ljet ekki sjá sig og enginn hvarf af tólfmenningunum. Loks var öllum í augum uppi, að þetta var eintómt tál allt saman, og varð þá allt í uppnámi. Múgurinn æpti og ragnaði og henti saur; lenti töluvert á fógetanum, af tilviljun, sem nærri má geta, og sór hann þess dýran eið, að láta svikarana sæta þungri hefnd, þegar hann losnaði. Tólfmenningarnir jusu fúkyrðum yfir galdramennina, og galdramennirnir ljetu ekki standa upp á sig, og báru á hina, að þeir mundu hafa ónýtt fyrir þeim seiðinn fyrir fram af ásettu ráði

og af illgirni og hrekkjum, með því móti að gera krossmark fyrir sjer í laumi innan vebanda. Svikararnir voru síðan höndlaðir og hrundið á bál; en óðar en þeir voru brunnir til ösku og bálið sloknað, gerði þann feikna-byl, er enginn mundi slíkan, og kenndu það allir hinum líflátnu fjölkyngismönnum.

Það leynir sjer ekki, þar sem lýst er siðferði manna og ýmsum háttum á miðöldunum, að klerkar og kennimenn voru opt og tíðum miklu fremur frömuðir lasta en fyrirmynd dyggðar og guðsótta. Það átti fyllilega heima um þá, að »hjartað er sviksamlegt framar öllu öðru og ákaflega lastafullt«. Enda var það og engin furða, eptir undirbúningnum á námsárunum. Sjer í lagi var það títt um heimilispresta hjá stórmenninu, að þeir komu miklu fremur fram eins og ótíndir þorparar og loddarar heldur en flytjendur náðarboðskaparins, og áunnu sjer hylli húsbænda sinna með því að skemmta þeim með ýmsu móti, misjafnlega fögru, miklu fremur heldur en með góðum ræðum. Dæmi þess er Delebaigne ábóti. Hann varð nafnkunnur fyrir nýtt hljóðfæri, er hann hugsaði upp til að skemmta Hlöðvi ellefta Frakkakonungi. Hann ljet gera körfu með mörgum hólfum og mjóum, ljet lifandi grís í hvert hólf, en á milli hólfanna var járnsívalningur, alsettur broddum, er snúa mátti með sveif. Hann ljet breiða dúk yfir vjel þessa og bera síðan inn fyrir konung, setti upp næsta hátíðlegan svip og tók til að snúa sveifinni, svo að öll svínin hrinu í einu, eins og þau ætluðu að rifna. Þótti konungi það hin bezta skemmtun og sæmdi klerk stórgjöfum fyrir.

(*B. J.* íslenzkaði).

# Moses Mendelsohn og Friðrik mikli.

[Úr grein um Richard Wagner í „Temple Bar Magazine"].

Friðrik Prússakonungr II, er kallaðr hefir verið Friðrik mikli, hafði miklar mætr á að bjóða til kvöldverðar með sér gáfuðum rithöfundum, listamönnum og söngmönnum; við slík tækifæri þoldi hann vel berorða fyndni og gjörði hann sitt til að koma galsa í gesti sína. Friðrik var í þessu ólíkr Karli keisara 5., sem titlaði tónlistarmennina ýmsum óvirðulegum auknefnum, eins og sjá má merki til, þótt ekki væri af öðru en því, að hann byrjaði þannig eina tilskipun sína: »Þegar línudansarar, dýrasýnarar, tónlistarmenn og annar skríll leggr leið sína um borgina« o. s. frv. — Friðrik annar iðkaði sjálfr bæði tónlist og vísindi, og hafði hann mestu mætr á inum fyndna kryppling, heimspekingnum Moses Mendelsohn[1] og lét hann

1) Hann var afi ins nafnfræga tónskálds Mendelsohn-Bartoldy. Hann var gyðingr fæddr í Dessau 1729; varð heimiliskennari 1750, en 1754 varð hann bókhaldari hjá auðugum verksmiðju-eiganda í Berlín, Bernhard, sem líka var gyðingr. Síðar varð hann meðeigandi að verksmiðjum húsbónda síns. Hann var vinr Lessings

einatt sitja við hlið sér við borðið. Einu sinni við slíkt tækifæri bar svo til, að sendiherra einhvers smáríkis á Þýzkalandi ætlaði að reyna fyndni sína á Mendelsohn og gjöra hann hlægilegan, en Mendelsohn varð ekki orðfall, en svaraði fyndið, svo að sendiherrann varð að athlægi. Sendiherrann reiddist, og bar sig upp undan því við Friðrik, að Mendelsohn skyldi vera boðinn með slíkum höfðingjum, sem hann væri auðsjáanlega of lítilfjörlegr til að hafa samneyti við. Konungr svaraði stutt: »Mendelsohn er gestr minn engu síðr en þér, og ef þér ætlið að fara að slá yðr til riddara á honum í orðakasti, þá verðið þér líka að gjöra yðr að góðu afleiðingarnar, ef hann er fyndnari en þér«.

»Já, en af öllu má of mikið gjöra, yðar hátign«, svaraði sendiherrann; »Mendelsohn kann sér ekkert hóf, og ég er viss um, að hann hikaði ekki við að meiðyrða yðar hátign, ef honum fyndist yðar hátign hafa stygt sig«.

»En mér dettr aldrei í hug að styggja hann«, svaraði konungr, »en þó svo færi, er ég viss um, að hann mundi aldrei meiða *mig*«.

»Eigum við að veðja um það?«

»Já, það skal ég veðja um«.

»Jæja«, svaraði sendiherrann; »ef yðar hátign vill gjöra það, sem ég bið um, þá skal ég vinna það veðmál«.

»Hvað viljið þér að ég gjöri?«

»Vill yðar hátign næsta sinn, sem við verðum boðnir til kvöldverðar, skrifa á miða: »*Mendelsohn*

---

og annara frægra manna. Af ritum hans er hvað nafnkunnast „*Phädon*, eðr um ódauðleik sálarinnar“. *Þýð.*

*ist ein Esel«* (»Mendelsohn er (einn) asni«), og setja nafn yðar fullum stöfum undir, og láta svo leggja seðilinn á disk Mendelsohns?«

»Nei, það gjöri ég ekki; það væri að abbast upp á hann að raunalausu«.

»Jú, en þetta er ekki gjört til annars, en að sjá, hvað honum yrði við — vita, hvort hann er svo hvatráðr, eins og sagt er—, en einkum að vita, hverju hann svarar yðar hátign«.

»Jæja, ég skal gjöra eins og þér biðjið í þetta eina skifti; en það áskil ég mér, að mega segja Mendelsohn á eftir, hvernig á stóð, og að mér hafi ekki dottið í hug að vilja meiða hann«.

»Jú; en orðin »*Mendelsohn ist ein Esel«* verðr yðar hátign að undirskrifa með eiginni hendi, svo að honum geti enginn efi leikið á, hvaðan seðillinn sé«.

Konungr hikaði við, en lofaði þó loks að gjöra þetta; því að honum var forvitni á að sjá, hvernig þetta færi.

Tiltekið kvöld var svo borið á borð fyrir tólf; seðillinn var lagðr á disk Mendelsohns, og því var skotið að sumum af gestunum, hvað til stæði.

Seðillinn var þannig útlítandi:

»Menelsohn ist ein Esel.

Friederich II«.

Svo settust menn til borðs. Mendelsohn var æðinærsýnn; hann sá, að seðill lá á diski sínum, og tók hann upp, hélt honum nærri því upp við nef sér og las hann, og var auðsætt, að honum hnykti við.

»Hvað gengr á?« sagði konungr; »ég vona þó að yðr hafi ekki borizt nein sorgar-fregn«.

»O-nei!« svaraði Mendelsohn; »það er ekki neitt«

»Eitthvað hefir það verið«, sagði konungr; »annars hefði yðr ekki hnykt svona við; ég vil vita, hvað á seðlinum stendr«.

»Það er satt að segja ekki ómaksins vert, yðar hátign«.

»Yðr sýnist, ef til vill, svo; en ég vil vita, hvað á seðlinum stendr«.

»O! það er einhver, sem hefir leyft sér ótilhlýðilegan gáska við yðar hátign; ég vildi helzt ekki þurfa að — —«

»Við mig? — Verið þér ekki að draga okkr á þessu. Hvað stendr á miðanum?«

»Það stendr ekkert annað á honum, en: ‚*Mendelsohn ist ein Esel, Friederich der zweite*'«. (»Mendelsohn er (einn) asni, Friðrik (sá) annar«).

Konungr skellihló; og þegar gestirnir sáu konung hlæja, þá dirfðust þeir að hlæja líka.

[*Jón Ólafsson* hefir þýtt].

---

# Kvæði.

---

## Barnæskuminning.

Eptir J. L. Runeberg.

Jeg man þá tíð, og man það alla stund,—
er maí lífsins skein á ásýnd minni,
og blómguð rós mjer óx í ungri lund,
sem enn ei stormar ræntu fegurð sinni.

Og sæll jeg lifði sakleysisins ár
sem svifi' um dalinn fyrsti morgunljómi;
mín gleði var svo hrein sem himinn blár
og harmatárin ljett sem dögg á blómi.

Og mjer fannst jörðin engilvængjum á
í unaðsveldi sæl um geiminn bruna,
og allt, sem leit jeg, líktist barni þá,
og ljek sjer, eins og jeg, við náttúruna.

En æ, þú hvarfst, in æskublíða stund
og unað framar ljærð ei sálu minni.
Á vori hverju ljóma blóm í lund,
en lífsins blóm ei nema—einu sinni.

Það dugir ei, þótt döprum augum með
þú döggvir rót þess æ með tárum þínum,
því fölnuð laufin hníga á bleikan beð,
og boginn reyr að móðurfaðmi sínum.

Og stundir lífsins streyma burtu fljótt,
er störf með von og tilraun framsókn heyja.
En fyrst vjer rennum skeiðið svona skjótt,
hví skal vor gleði' á miðri leið þá deyja?

Til liðna tímans hnípnir horfum vjer
sem hryggir farmenn ættarlands til stranda.
Að hlæja' og njóta hlutfall barnsins er,
en hinna eldri' í baráttunni' að standa.

Hvað er sá heimur, hugboð mitt er sjer
í hyllingum af vonarbjarma sínum,
mót bænum, þar sem barn jeg undi mjer,
og blómunum í æskudalnum mínum?

. Jeg skal ei harma,—horfnri gleði nær
ei hjarta mitt, þó sí og æ jeg þreyi.
En æskumorguns endurminning kær,
mjer allar stundir fylg á lífsins vegi!

Það getur skeð á æfi-aptni hjer
að einhver vinur hönd mjer rjetti sína
og ellin þreyttum aptur veiti mjer
minn æskufrið og bernskudrauma mína.

Og þegar loks jeg lít þá væru döf
og ljúfu kyrð, er engar sorgir pína,
til hvíldar rór með glaðri von að gröf
jeg geng þá eins og fyrr í vöggu mína.

*Árni Gíslason.*

---

## Nálægð unnustunnar.

(Eptir Goethe).

Jeg man til þín, er sól á sævi bálar
Með svásri mynd,
Jeg man til þín, er máninn geislum strjálar
Á mæra lind.

Jeg sé þig fjær, er jóreyks hvirfill hraður
Rís hátt frá grund;
Á naumum stig er nötrar göngumaður
Um nætur stund.

Jeg heyri þig, er hrynur bylgjan stríða
Við húmið svalt;
Í kyrran lund eg geng að hlusta' og hlýða,
Þá hljótt er alt.

Jeg svíf um þig—ei það má fjarlægð hindra,—
Eins þú um mig;
Af himni' er sól og heiðar stjörnur tindra,
Ó, hefði' eg þig!
(*Stgr. Th.*).

---

## Bylgjan.

(Eptir Tiedge[1]).

Þú gruggaða bylgja! því berstu
Með bráðlæti slíku?
Því flýtirðu ferð eins og þjófur
Með felmtrandi hraða?

»Jeg lífsins er alda, sem auri
Varð ötuð úr bökkum;
Jeg flý burt úr stímandi stríði
Þess straumfarsins þröngva;
Jeg flý burt í úthafsins armlag,
Hins ómælis víða,
Að lauga af mér leðjuna' og slýið
Úr leirbökkum *Tímans*«.
(*Stgr. Th.*).

---

## Skógrunnur skalf, því fugl—

(Eptir Petöfi).

Skógrunnur skalf, því fugl
Þar skjótur tylti sér,
Eins skalf mitt hjarta hrært,
Er hvarfstu í huga mér.

---

1) Þýzkt skáld.

Þú hvarfst í huga mér,
Ó, hjartans kæra mey,
Þú vænsta gimsteins val
Á víðri heimsins ey.

Fult svellur *Dónár* fljót,
Svo flóðið yfir ber,
Eins svellur hjartað ungt
Af ást í brjósti mér.
Eg spyr þig: antu mér?
Eg ann þér, rós mín, heitt;
Ei faðir, móðir má
Við mig þar jafnast neitt.

Víst man eg vel þinn yl
Á vorum síðsta fund;
Þá brosti blíðast vór,
Nú byrjar vetrar stund.
Ef þú ei ant mér enn —
Þú æ samt blessast skalt,
En ef þú ant mér, — þá
Um eilífð þúsundfalt.

*(Stgr. Th.)*

---

## Endurminning.

(Eptir Petöfi).

Ó, þú endurminning,
Eptirleifin vesla,
Flak af stoltar fleyi,
Fyr er sökk í hafi;
Vogrek, sem úr volki
Víðis brimsúganda

Keyrist rif af rifi
Rakleitt upp að ströndu!
*(Stgr. Th.).*

---

## Vonirnar.

(Eptir Petöfi).

Sem upp til himins fuglar flugið gæða,
Eins fljúga vonir okkar beint til hæða,
Og berast upp í bládjúp uppheims þegar
Á brautum hærri' en ernir freista vegar;
En *virkileikinn*, skyttan skuggalega
Í skyndi kemur til að vinna' oss trega,
Og vægðarlaust skýtur — veiðibráður er hann
Þá vonarfugla hvern um annan þveran.

*(Stgr. Th.).*

---

## Nóttin og dauðinn.

(Eptir Joseph Blanco White).

Þú dulræð nótt! vor fyrsti faðir má
í fyrstu hafa skelfzt, er komu þína
ljet Guð hann vita', og dagur tók að dvína,
og huldist dimmu hvelfing ljóssins blá.

En, eins og döggin gagntær grundum á
í geislabaði sólarlags nam skína,
sinn hnatta fjölda himinn tók að sýna.
Af verki Guðs nú meira maður sá.

Hver mundi ætla' að sólin, ljóssins lind,
er lætur sjást þá minnstu jarðarbúa,

því olli' um leið, að augun gjörðist blind
fyri' ótalföldum himinstjarna grúa?
Fyrst *ljós* svo tælir, *líf* kann eins að tæla,
Hví látum vjer þá dauða vorn oss fæla?

*Br. J.*

---

## Þú, yngismey, ert eins og blómið.

(Eptir Heine).

Þú, yngismey, ert eins og blómið,
Svo yndisfríð, hrein og skær,
Jeg sé þig og sorgarblíða
Þá svífur mér hjarta nær.

Mér er sem eg hægt leggi hendur
Í höfuð þér, meyan kær!
Og árni, að þú æ mættir vera
Svo yndisfríð, hrein og skær.

*(Stgr. Th.).*

